# Nýjar
# Hugvekjur

til

**kvöldlestra**

frá veturnóttum til langaföstu

eptir

ýmsa höfunda, danska og norska.

Útgefnar á íslenzku af

**Svb. Hallgrímssyni.**

---

**Reykjavík.**

Prentaðar í prentsmiðju Íslands 1852,

hjá Einari þórðarsyni.

*Vertu hjá oss, drottinn, því að kvöld er komið og dagur liðinn! Lúk. 24, 29.*

Hinum elskuverðu hjónum og
hússbændum að Ytrahólmi á
Akranesi,

herra **Hannesi Stephensen**,

prófasti í Þverárþingi sunnan
Hvítár, og presti til Garða á
Akranesi,

og

madame **Þórunni Stephensen.**

Með elsku, virðingu og þakklæti

*Tileinkað.*

Útgefarinn.

# Fyrirsagnir hugvekjanna.

---

Leiðrjettingar: Blaðs. 4, línu 12 sjer les þjer; 105, l. 12 guðs sannleika les guð og sannleika; 168, l. 3—53 les 59.



# Bæn

## á undan lestri.

Hvaða hnoss sem aðrir vilja kjósa sjer, þá ráði þeir því sjálfir; jeg vil ekkert fremur kjósa mjer en þitt orð, drottinn! Á það vil jeg hlusta, eins og barnið á málróm föður síns, og því vil jeg hlýða, eins og röddu guðs míns, sem kennir mjer veg minnar sáluhjálpar. Jeg vil íhuga það á einverustundum mínum, og flytja það með mjer út í skarkala lífsins, svo það geti leiðbeint mjer og styrkt mig, þegar freistingar ásækja mig, og huggað mig, þegar jeg er í hörmum staddur. Þess vegna vil jeg nú líka á þessari stundu losa huga minn við alla kæti veraldarinnar, sem svo hæglega getur deyft hjartans betri tilfinningar, og við alla óþarfamælgi og hjegómatal, sem svo tíðum þreytir sálina, og vil hverfa með hug og hjarta að guðs orði, til að leita þar fullnægju, friðar og fagnaðar fyrir sálu mína. En þegar jeg leita, guð minn góður! þá láttu mig líka finna; ljúktu upp augum sálar minnar, svo hún sjái og skilji þinn sannleika, hrærðu við taugum hjarta míns, svo það finni til þíns máttar og komist við af þinni nærveru, og opnaðu líka varir mínar, svo jeg geti skýrt bræðrum mínum og systrum frá þínu eilífa guðdóms orði! Láttu þitt orð, guð drottinn! ávallt búa á meðal vor allra, því fyrir það höfum vjer þá von, sem aldrei svíkur, og óbifanlegt hugrekki til allra vorra starfa, og örugga vissu um þína guðlegu blessun. Bænheyr þetta, himneski faðir, þú, sem megnar að gjöra langt fram yfir það, er vjer kunnum um að biðja! Amen.



## 1. Jeg trúi á guð.

Með þessari játningu fráskilur sig sjerhvert guðs barn heimsins börnum, og segist ekki vilja hafa holdið fyrir sinn arm, ekki byggja traust sitt á nokkrum manni, því hver maður er hjegómi, hversu mikilli vegsemd sem hann á að hrósa; ekki heldur vilja treysta á mátt sinn og meginn, því að máttur sjálfra vor hlýtur að svíkja oss, og hjartað í brjóstum vorum ásakar oss og áfellir (1 Jóh. 3, 20); því síður vilji það treysta nokkurri annari skepnu, því að allir skapaðir hlutir eru hjegómanum undirorpnir; og eins og hungraðan mann dreymir að hann eti, en þegar hann vaknar (Es. 29, 8), hefur hann þó engan mat fengið — eins getum vjer ekki fengið hjálpina hjá neinu hinu skapaða, heldur einungis hjá guði, og eigum því að varast að heiðra skepnuna meir en skaparann, sem

hálofaður er um allar aldir! Með þeim orðum: *jeg trúi á guð* segir maðurinn skilið við *syndina;* hver sem trúir að *guð er kærleikur,* hatar ekki náunga sinn, því að trúin hefur ætíð kærleikann í för með sjer (Gal. 5, 6), og hefur valið sjer hann fyrir verkfæri, til að tjá sig með fyrir mönnum; enda þar sem engin kærleiksverk er að finna, þar hefur trúin ekki verið öðrum þræði; þess vegna er líka hatur og öfund, þar sem það á heima, syndsamlegt athæfi, því að slíkt er ekki af trúnni. Hver sem trúir að *guð er sannleiki,* hættir að ljúga, og talar sannleika við náunga sinn; hann hatar alla lýgi, því að djöfullinn er lygari, og sannleiki er ekki til í honum; og hvaða samfjelag skyldi líka Kristur og Belial geta átt saman? Sá sem trúir að *guð er rjettlæti,* berst vegna þeirrar trúar á móti öllu ranglæti, og varast sjálfur að gjöra sig sekan í því; því hver sem sjer ranglætið í hjarta sínu, og lætur það þó koma fram í verkunum, þann bænheyrir drottinn ekki (Sálm. 66, 18). Þannig getur ekki átt sjer stað með sannri trú órjettlæti, öfund, lýgi, dramblæti eða nokkurs konar guðleysi. Þessi orð: *jeg trúi á guð* losa oss ekki einungis við allt sem illt er, heldur *leiða oss líka í samfjelag við guð, og gjöra oss hluttakandi í gæzku hans.* Trúir þú á guð, þá trúir þú á *sannleikann* sjálfan, sem hvorki svíkur nje verður svikinn. Trúir þú á guð, þá

trúir þú á *almættið* sjálft, og átt vísa hjálpina. Trúir þú á guð, þá trúir þú á *gæzkuna* sjálfa, og þjer vegnar aldrei illa; þá trúir þú og á *rjettlætið* sjálft, sem bæði getur rjettlætt þig og rjettlátan gjört. Trúir þú á guð, þá trúir þú á *miskunsemina* sjálfa, að hann sje öllum náðugur, og einnig þjer; þá trúir þú og á *spekina* sjálfa, að hann viti hvað þjer er hollast, og geti gefið þjer það, viti hvað þjer er skaðlegt, og geti afstýrt því. Trúir þú á guð, þá trúir þú á *eilífðina* sjálfa, og skalt aldrei að engu verða, því sá drottinn sem þú trúir á, er eilíft hellubjarg!

Sjeu allir hlutir mögulegir þeim, sem trúa, þá er það vegna þess að trúin er eins konar *dýrgripahús*, þar er þú með bæn og ákalli getur fengið alla þá huggun og endurnæringu, sem hjarta þitt þarf með; því vegna trúarinnar hefur þú frið við guð, ert rjettlátur fyrir guði, ert viss um, að guð hefur kjörið þig til sáluhjálpar fyrir helgun andans. Vegna trúarinnar hreinsast hjarta þitt (1. Thess. 2, 13. Rómv. 15, 13), svo þú getur þóknast guði. Vegna þess að þú ert trúaður, fyllir guð vonarinnar hjarta þitt með fögnuði; vegna þess að þú trúir, skal þjer verða eptir því sem þú vilt; svo þú hefur þá vegna trúarinnar lykilinn bæði að tímanlegum og eilífum gæðum. Sjeu allir hlutir mögulegir þeim, sem trúir, þá er það af því að trúin er eins

konar *hertigjahús*, þar er þú getur fengið alla þá hlífð og varðveizlu, sem þú þarft á að halda; því með trúnni getur þú barizt góðri baráttu og sigrað freistingar, já, allar vondar tilhneigingar og girndir; með trúnni getur þú sigrað heiminn, girnd holdsins og drambsamt líferni. Þess vegna fylgir þeim orðum: *jeg trúi á guð* mikil djörfung og styrkleiki, því þegar þú trúir á guð, þá getur þú varpað upp á hann allri þinni áhyggju, öllu því, sem er þjer of þungbært, öllu því, sem hann leggur sjálfur á þig; og það í því trúnaðartrausti, að hann muni sjá sjer borgið (Sálm. 55, 23), það er að skilja, vega þraut og þrótt hvort á móti öðru, og ekki freista nokkurs yfir megn. Og hver huggun getur verið meiri! Því þegar þú treystir drottni, þá þarftu ekki að hræðast neitt; hvað geta mennirnir gjört þjer (Sálm. 56, 11)? Þeir sem trúa á drottinn skulu fagna eilíflega; sælir eru því allir þeir, sem vona á hann!

## 2. Speki guðs, máttur og gæzka í náttúrunni.

Jeg lypti upp augunum, og lít upp í *himininn* yfir höfði mjer; jeg sje, hvernig guð mælir sólinni út umferð hennar á ári hverju, og uppgöngu og niðurgöngu á hverjum degi; tunglinu hið breytilega útlit og vissa skeið á mánaðarfresti; hvernig hann leiðir fram stjörnuhópana

í röð og reglu, og nefnir þær allar með nafni; hvernig hann markar ljósinu sitt svið, og myrkrinu sinn veg (Job. 38, 24), hann sem er höfundúr regnskúranna, og faðir daggardropanna, eilífur guð og drottinn, sem blæs niður snjónum eins og ull, stráir hríminu eins og ösku, og sendir niður kornjel og hagl! — Hann talar til norðursins, og þá kemur það með kulda og frost; til skýanna, þá steypa þau niður skúrunum; til vindanna, þá hafast þeir að á jörðunni það sem hann skipar þeim, hvort sem það er til hegningar eða heilla fyrir landið. Já, hver skelfist ekki að heyra rödd hans í skýunum, þá hina voldugu raust, sem fer út af munni hans? Í skyndi leiðir hann eldinguna yfir jörðina, og í sama vetfangi hljómar raust hans, er hann þrumar með sinni háu rödd.

Jeg horfi augum mínum yfir *jörðina* og sje, hvernig guð almáttugur endurnýjar yndisleik hennar og auðlegð á hverju ári. Hann lætur árnar spretta upp í dölunum, og renna á milli fjallanna, svo hjarðirnar í högunum geti drukkið úr þeim; hann vökvar jörðina úr skýunum, svo að grasið geti sprottið handa fjenaðinum, og jurtir mönnunum til nota; hann skreytir eikurnar með blöðum, blómum og aldinum; leiðir brauð og vín fram af jörðunni, til að endurnæra og hressa hjörtu mannanna; tilbýr fjársjóðina, sem liggja fólgnir í iðrum jarðarinnar, og leið-

ir þá þaðan í ljós eptir því sem honum þykir henta bezt.

Jeg renni augum mínum og litast um yfir hið *víðáttumikla haf*. Þar sigla skipin, sædýrin miklu, sem guð lætur synda á sjónum; þar úir og grúir af margs konar skepnum, bæði stórum og smáum, sem hafið elur handa jarðbúunum. Og allar skepnur á sjó og landi mæna til guðs, síns skapara, að hann gefi þeim fæðu í hæfilegan tíma. Þegar hann veitir þeim, þá matast þær; þegar hann upplýkur sinni mildu hendi, þá seðjast þær. En feli hann auglit sitt fyrir þeim, svipti hann andardrættinum frá þeim, þá vanmegnast þær og verða aptur að dupti. Þegar drottinn lítur til jarðarinnar í reiði, þá hristist hún; þegar hann snertir fjöllin, þá gjósa þau eldi. Drottinn vor guð, þú ert almáttugur! hversu mikil og mörg eru þín handaverk! með hvílíkri speki, mætti og gæzku stjórnar þú þeim öllum, og elur önn fyrir öllu því sem lifir!

Já, þannig kunngjörir himin, jörð og haf speki, almætti og gæzku guðs, síns skapara; því *gjörvöll náttúran* er eins og mikill og skær spegill, þar er vjer getum virt skapaða hluti fyrir oss, og skoðað þá alla saman, eins og margföld merki og vitnisburði um skaparans háleitu veru og eiginlegleika, en þó einkanlega um gæzku hans og elsku til vor mannanna. Um hana vitna daglega fyrir oss með hárri

röddu allir skapaðir hlutir, því eptir tilætlun guðs eiga þeir að vera oss til nota. Hverjum lýsir sólin á daginn? hverjum tunglið og stjörnurnar á nóttunni? Þær lýsa mönnunum, bæði góðum og vondum. Hverjum til gagns og nota ber jörðin hinar margvíslegu frjófu eikur, hinar mörgu nærandi jurtir, og svo margs konar önnur aldini og grös, já tilbýr í iðrum sjer og selur fram úr skauti sínu alla hina fólgnu fjársjóði? Er það ekki mjer og meðbræðrum mínum til fæðis og klæðis, til lækninga, gagns og ánægju? Sjórinn, sem heita má eins arðsamur og jörðin, er hann ekki eins og afarmikið forðabúr, sem guð lætur ávallt standa opið fyrir mönnunum? Hvað eru ár og lækir annað en eins konar frjófsamar greinir, sem kvíslast út um löndin til þeirra manna, sem búa upp til sveita? Já, sjerhver stjarna á himnum, sjerhver eik á jörðunni, sjerhver fiskur í sjónum lætur oss sjá og þreifa á almætti, speki og gæzku guðs.

En jeg þarf ekki að lypta augunum svo hátt upp yfir mig til himins, eða svo víða í kringum mig á jörðunni, eða svo langt niður fyrir mig í hafið, til þess að sjá og kannast við almætti, speki og gæzku guðs. Jeg þarf ekki annað en skoða sjálfan mig, því einmitt á mjer, sem er ágætasta og undrunarverðasta skepna guðs á jörðunni, sje jeg flest merki og augljósastan vott um það; svo að jeg má undir

taka með Davíð og segja: jeg vil vegsama þig, drottinn! fyrir það að þú myndaðir mig og tilbjóst svo dásamlega; furðumikil eru þín verk! það finnur sál mín harla vel (Sálm. 139, 14). Já, þvílíkt djúp, svo óransakanlega fyllingu guðs almættis, speki og gæzku fæ jeg hvervetna litið í náttúrunni. Svo opt sem jeg þess vegna virði hana fyrir mjer, skal jeg veita æðsta herra hennar og konungi, guði mínum og skapara, þá lotningu og lofgjörð, sem hann á skilið; jeg skal gæta þess með hve hjartanlegri auðmýkt, elsku og hlýðni mjer ber að tigna og tilbiðja svo voldugan, vísan og góðan herra. Munnur minn skal fram bera lofgjörð drottins, og allt hold vegsama hans heilaga nafn um aldir og að eilífu (Sálm. 145, 21).

## 3. „Guð almáttugur“!

Hversu ósjálfrátt brjótast ekki þessi orð fram af munni sjerhvers manns! þau verða hinum glaða af munni og hinum þakkláta, hinum hrygga og hinum hrædda. „Guð almáttugur“! hversu opt hef jeg ekki sjálfur nefnt þessi orð, þó ýmislega stæði á fyrir mjer! Og að jeg nú nefni þau aptur á þessari hugleiðingastund, kemur ekki til af því, að jeg ætli að safna ástæðum saman frá dölum og fjöllum, hafi og landri, undirdjúpunum og stjörnuhvolfinu, til að sanna með fyrir sjálfum mjer almætti guðs; því undir

eins og jeg lýk upp augunum, þá sje jeg, að yfir öllu veldi drottnar eitt veldi, sem heldur öllu saman; undir eins og nokkur íhugun vaknar í sálu minni, þá veit jeg að orðið „guð“ merkir: hinn almáttuga. En jeg nefni þau, til að minna mig á, að þó guð gjörði manninn að herra jarðarinnar, og gæfi mönnunum vald, og sumum þeirra yfir öðrum mönnum, og leyfði að þeir kölluðust máttugir á jörðunni, þá er þó allt veldi þeirra hans eign, og honum verða þeir að vinna, konungi konunganna og drottni drottnanna, hvort sem þeim er það ljúft eða leitt. Hann gefur öllum líf og andardrátt, og sjerhvað annað — að jeg anda að mjer og frá mjer, að hjarta mitt bærðist hið fyrsta sinn, og mun bærast hið síðasta sinn, að jeg bergði stundum á bikar gleðinnar, en stundum á bikar mótlætinganna, það er allt af þínum mætti orðið, drottinn minn og guð minn! Jeg þarf ekki að sanna þetta fyrir mjer, því mjer væri næstum óhætt að segja, að jeg sje fæddur með þessari meðvitund; jeg veit ekki nær hún hefur vaknað í sálu minni, eða nær hún, sem er almáttug sjálf og enginn má í móti standa, hefur brotizt inn í hana, og stígið yfir sjerhverja efasemd; en jeg vil halda mjer fast við hana, og láta hana leiðbeina mjer á hinni villugjörnu lífsleið. Fari hjarta mitt að stæra sig heimskulega; fari óstýrilátar ímyndanir að telja mjer trú um, að jeg

megi óhræddur bruna á fram; fari jeg að vanbrúka vald það, er þú trúðir mjer fyrir, guð minn! þó ekki væri nema vald mitt yfir hinum lítilmótlegasta — lát mig þá minnast þess, hversu opt þú hefur sagt við mennina, eins og þú sagðir við hafið: hingað skaltu komast, en ekki lengra! hjer skulu háöldur þínar brotna (Job. 38, 11)! Fari mjer að sortna fyrir augum, fari mjer að fallast hugur, og fari jeg að örvinglast, eins og enginn væri til að hjálpa, eins og ekki að eins hið nálæga, heldur og hið ókomna væri hulið sorgarblæu, og vonin sjálf væri undir lok liðin, ó! minntu mig þá á, að þú ert sá sem lífgar hið dauða, og kallar á það sem ekki er, svo sem væri það (Rómv. 4, 16).

## 4. Almætti guðs.

Þegar jeg, guð minn! lypti augum mínum upp í hæðirnar; og þó að jeg sjái þá himnana, sem kunngjöra þína dýrð, og festinguna, sem skýrir frá þínum handaverkum; þegar jeg horfi upp í hinn endalausa loptgeym, sem ofbýður bæði huga manns og ímyndun; og þó að jeg þá sjái sólir taka þar við sem sólir þrjóta, og veraldir taka við af veröldum; þó að mig vanti nú þegar tölur til að mæla með fjarlægð jarðarinnar frá sólinni, þá skyldi jeg samt reyna til að mæla millibilið frá sólinni til næstu sólar, og svo aptur frá næstu sólu til hinnar fjarlægustu,

sem jeg get eygt með berum augum; en svo skyldi jeg fá mjer sjónpípu til að horfa með; og þó að jeg gæti þá sjeð helmingi hærra og lengra upp í hinn endalausa loptgeym, en jeg áður gat með berum augum, þá hef jeg þó enn að líkindum ekki sjeð þúsundasta hlutann af hinu ómælanlega ríki drottins míns. En jeg stöðva hjer huga minn, gagntekinn af heilagri undrun; jeg ímynda mjer veru, sem, eins og Davíð kemst svo fagurlega að orði, talaði og það skeði, skipaði og þá stóð það þar; og jeg skoða í huga mínum þá óendanlegu speki, sem tilbjó og raðaði niður þessum hnöttum, og þann almættis krapt, sem viðheldur þeim, svo þeir ekki skeiki úr skorðum, ekki reki sig hvor á annan, ekki eyðileggist og verði aptur að engu; ó! þegar jeg hugsa um þetta, verð jeg frá mjer numinn af undrun; jeg finn að jeg er sjálfur alls ekkert, en guð allt. Og jeg sem er svo lítill hluti af öllum jarðarhnettinum, sem eins er að sínu leyti lítilfjörlegur hluti af gjörvallri alheimsbyggingunni, jeg sem ekki get lypt mjer upp frá moldinni, sem jeg skríð á, jeg er þó svo ofdirfskufullur að bjóða honum byrginn með viti mínu, mætti, þekkingu og vizku, svo ofdirfskufullur að hugsa mjer að hrekja þau sannindi, sem hann hefur opinberað mjer, og hnekkja þeim ráðstöfunum, sem hann hefur gjört mjer til handa! Ó! þessi ofdirfska, þetta

dramblæti er ekki annað en vottur um fávizku vora, augljós vottur um það, að vjer þekkjum eigi guðs óendanlega mikilleik; því ef vjer þekktum hann rjett, þá skyldi það vekja hjá oss heilaga auðmýkt og djúpa lotningu fyrir hans óendanlegu hátign.

## 5. Gæzka guðs í náttúrunni.

Þegar fyrstu geislar sólarinnar færa jarðbúunum aptur dagsbirtu og líf, þegar fuglarnir fagna morgninum með söng, og dýrin vakna af dvala sínum; þegar tún og engjar, vötn og hálsar koma í ljós eptir næturmyrkrið, eins og endursköpuð, og kalla á oss til nýrrar starfsemi, þá lyptu, maður! anda þínum upp til ljósanna föðurs, sem veitti þjer hæfilegleika til að kannast við allt þetta, svo sem handaverk *hans,* svo sem ávöxt þeirrar gæzku *hans,* er viðheldur öllu og varðveitir allt. *Gleð þig þá í drottni!* Gleð þig yfir reglu, fegurð og margbreytni sköpunarverksins! Þakkaðu honum af hreinu hjarta fyrir það, að hann fjekk þjer bústað á þessari fögru jörð! Vegsamaðu gæzku hans, sem er ný og fersk á hverjum morgni, föðurumhyggju hans, sem veitir þjer og öllum kynkvíslum jarðarinnar nýjan æfidag, endurnýjaða tilveru. Þegar nóttin dregur skýlu sína yfir jörðina, og býður öllu til blíðra værða; þegar þú horfir á himininn fjölstirndan; þegar skoðun hinna ótel-

jandi veralda, sem allar skunda sitt afmælt skeið, fyllir brjóst þitt heilagri undrun yfir mikilleik og skrauti sköpunarverksins: láttu þá líka sálu þína finna til *heilagrar gleði í drottni,* með því að þú minnist þess með háleitri lotningu, að allt þetta er handaverk drottins! Þú sjerð hjer bjarmann upp af helgidómi hins eilífa! Þú færð hjer að skoða ljómann af hans skínandi dýrð! Og hversu mikil, háleit og sælufull er ekki þessi skoðun! Ekkert losar mig eins og hún úr fjötrum veraldarinnar, ekkert sannfærir mig eins og hún um þá tign, sem jeg hef meðal margfjölda dýranna, og ekkert veitir mjer jafn hreinan og himneskan fögnuð eins og hún. Já, — jeg er ástkær eilífum og sælum guði, því mjer hefur hann gefið hæfilegleika til að íhuga hið óendanlega. Meðan allt jarðneskt umhverfis mig liggur í dái, hjúpað næturmyrkrunum, þá bendir hann þjer, sál mín! upp í helgidóm sinn, brýnir fyrir þjer að þú sjert æðri en duptið, og gefur þjer vísbendingu og forsmekk um veglegri unaðsemdir, er þú á síðan skalt fá að njóta til fullnustu.

Þegar hin marglitu blóm prýða jörðina á vorin, þegar grænkandi tún, gróandi grös, syngjandi fuglar, þegar allir hlutir vitna um líf og fjör, auðlegð og frjófsemi í náttúrunni, skyldi þá hjarta mitt geta verið gleðisnautt? Skyldir þú, maður! aleinn eiga að vera hugsjúkur,

kaldur og tilfinningarlaus innan um allan þann grúa glaðværra skepna? Nei, heyrðu og hlýddu bendingu þíns himneska föðurs! Vaknaðu við hana til gleði og þakklætis! Láttu þjer finnast, eins og líka spretti þá upp í sjálfum þjer nýtt líf, nýr unaður! Og láttu svo lofsöng þinn undir taka með gleðihljómi gjörvallrar náttúrunnar! Það er sú fórn, sem þókknast hinum algóða, því hann vill að allar hans lifandi skepnur skuli ávallt vera glaðar.

Þegar alhirt tún og engjar slegnar, fölnuð blóm og fallin laufblöð boða komu dimmra daga, og vitna um að náttúran hraði sjer til hvíldar, þá gefur það mjer líka margar góðar hugvekjur, þegar jeg með gætni virði náttúruna fyrir mjer. Einhver hæg og blíð tilfinning býður þá líka sjálfum mjer til þægrar hvíldar, og fyllir brjóst mitt fögnuði, er jeg einnig í því sje og kannast við gæzku hins eilífa; jeg verð þá var við svo mörg áþreifanleg merki um skaparans vísdómsfullu stjórn; jeg sje hvernig föðurgæzka hans undir býr forða fyrir veturinn, afstýrir neyð frá öllum lifandi skepnum, og sjer þeim hvervetna borgið. Jeg finn að jeg má ekki hætta lofsöng mínum fyrir það, þó að söngfuglarnir í loptinu sjeu þagnaðir. Jeg kannast þá með tvöfalt meiri gleði við ágæti og yfirburði sjálfs míns, er jeg einn get með fullu fjöri þegið og metið velgjörninga hins algóða,

mitt í því að gjörvöll náttúran umhverfis mig fölnar upp og fellur út af tilfinningar- og aðgjörðalaus.

## 6. Guð er óransakanlegur.

Sje hinn eilífi óransakanlegur fyrir oss í verkum sínum, sem þó liggja ber fyrir augum vorum í ráðstöfunum hans, og sem vjer getum lært að þekkja af vorri eigin reynslu; ó, hversu miklu framar hlýtur þá ekki vera hans sjálf að vera oss óransakanleg! Hvernig skyldi hugur manns í duptinu geta skilið djúp guðlegrar veru? Hvernig skyldi stamandi tunga geta lýst því, hvað hann er „sá hinn sæli og alleina voldugi, konungur konunganna og drottinn drottnanna, hann sem einn er ódauðlegur, hann sem býr í því ljósi, er enginn fær til komizt, hvern enginn maður hefur sjeð, nje getur sjeð“. Það eitt vitum vjer, að hann er, sá „sem var, er og verða mun frá eilífð til eilífðar“ — sá, „sem vjer allir erum og lifum og hrærumst í“. En hvað vitum vjer svo frekar? — Vjer köllum hann hinn *almáttuga*. Ó, reyndu skynsemi! hvort þú getur gjört þjer nokkra ímyndun, nokkra ljósa hugmynd um hvað almætti er, hvílíkt það sje, að skapa af engu með einu orði óteljandi veraldarhnetti, og leiða fram á þeim, hverjum fyrir sig, grúa af alls konar lifandi skepnum. Reyndu skilningur! hvort þú getur skilið, hvern-

ig hinn *alvitri* sjer þig, áður en þú fæðist, jafnvel þó þú getir ekki sjeð hann, hvernig hann viðheldur þjer með mætti sínum, og lætur þig vera svo fljótan í ferðum, jafnvel þó að þú fáir ekki skynjað mikilleik hans. Reyndu, sál mín! því þú berð þó með þjer líkingu skapara þíns, reyndu hvort þú getur skilið, hvað eilíf *speki*, óendanlegur *kærleiki* hefur að þýða, hvort þú getur með allri þinni viðleitni skoðað ummál og djúp þeirrar *gæzku* lindar, sem allar lifandi skepnur drekka úr líf og fögnuð og sælu. Vor guð er *heilagur!* Þú veizt það og trúir því; en skilur þú sem velkist í duptinu, þú sem átt í sífeldri baráttu við sjálfan þig, við skilningarvitin og fýsnir þeirra, svo að dyggð þín er eins beigjanleg og sefið, og eins óhrein og stöðuvatnið, skilur þú hvað orðið: heilagur, innibindur; hvílíkur sá er, fyrir hvers augliti himnarnir sjálfir eru ekki hreinir, fyrir hvers hásæti höfuðenglarnir hneigja sig og tilbiðja. Eða skilur þú hvað það er, að vera *eilífur* og *óumbreytanlegur*, þú sem ert eins og laufblaðið laus í hugsunum þínum, og eins og hafaldan óstöðugur í tilfinningum þínum og girndum! Þú segir að guð sje alsæl vera; og ekki getur verið efi á því, að hinn alfullkomni sje sæll. En hvernig átt þú að geta gjört þjer jafnvel minnstu hugmynd um þessa sælu, þú sem ekki nokkurn dag til enda nýtur ómengaðrar sálar-

rósemi, með því gleði og sorg skiptast sífeldlega í brjósti þínu og óspekja það? Nei, að *ætla sjer að skilja* hinn ósýnilega, að vilja *ransaka* veru hins óendanlega, þess má ekki dirfast ormurinn í duptinu! Það er fullnógur heiður fyrir anda mannsins, að hann er fær um að hefja sig til hinnar háleitustu allra hugleiðinga, til hugleiðingarinnar um guð, og að hann ber með sjer dapra mynd af dýrðarljóma guðdómsins. Með því einu hefur gæzka skaparans sett hann ofar öllum dýrum, og gefið honum yfirráð yfir jörðunni og erfðarjett til himinsins.

En — hvað fæ jeg þá gjört — fyrst jeg get ekki skilið? Jeg get *tilbeðið* og *hlýtt*, vegsamað það veldi og þá dýrð, sem jeg fæ ekki skilið, *dýrkað* þann guð, hvers vera er of vaxin mínum veika skilningi; — með auðmýkt og lotningu get jeg stefnt ágætustu og beztu *tilfinningum* mínum til guðs, get helgað vilja minn honum til þjónustu, og varið öllu mínu lífi til að *víðfrægja* vegsemd hans og dýrð.

## 7. Rjettlæti guðs.

Þegar vjer lítum í kringum oss og gefum gaum að verkum drottins, að handleiðslu hans á mannanna börnum, þá hljótum vjer að viðurkenna með þakklæti, að guð hafi ekki látið sig án vitnisburðar, með því hann gjörði oss mikið gott, gaf oss regn af himni og frjófsamar árs-

tíðir, mettaði líkami vora með fæðu, og hjörtu vor með fögnuði. Og hver fær, guð minn góður! talið upp velgjörninga þína, allar þær sælu tilfinningar, sem streyma út frá gæzku þinni, og fylla brjóst allra lifandi skepna; því vjer viljum ekki hugsa einungis um sjálfa oss, heldur einnig þakka þjer fyrir öll þau gæði, sem vjer sáum, að aðrir nutu frá þinni föðurlegu hendi. En þó vjer höfum ekki tillit nema til sjálfra vor, hver megnar þó fyrir það að skýra verðuglega frá þeim velgjörningum, sem hann hefur þegið? Hver getur þakkað þjer, eins og ber, fyrir allar þær stundir, sem liðu fram í friði og ró, þegar þú á hverjum degi laukst upp yfir honum þinni mildu hendi, og mettaðir hann með blessun; þegar þú gafst honum krapta til vinnu og umbun fyrir hana; þegar þú leiddir ástvini til hans, og ljezt sambúð hans við þá vera ánægjusama? Hver fær þakkað þjer, eins og ber, fyrir þær hættur, sem þú afstýrðir opt, ef til vill, án þess vjer þekktum þær sjálfir, eða gætum beðið þig að afstýra þeim; en opt líka þá, þegar hjörtu vor hrædd og ístöðulaus ákölluðu þig í neyðinni, og þú þá heyrðir kveinstafi vora, frelsaðir oss úr hættunni, græddir raunasár vor og breyttir harminum í fögnuð? Já, velgjörningar þínir við oss eru fleiri, en að vjer fáum þá talið, og meiri,

en að vjer getum lofað þig fyrir þá, eins og verðugt er.

En, guð minn almáttugur! hversu margir eru líka refsidómar þínir, þeir er þú typtar með jafnvel þá, sem þú elskar, og hinir er þú hegnir með þeim, sem þrjózkast á móti þjer, sem hæða nafn þitt og fyrirlíta lögmál þitt! Þegar vjer lítum yfir líf manna á jörðunni, þegar vjer virðum fyrir oss kjör þeirra, heyrum kvartanir þeirra og þekkjum þær þjáningar, sem kvartanirnar rísa af, þá er það að sönnu satt, að vjer skiljum opt ekki í því, hvers vegna illu og góðu skuli þannig vera úthlutað; það er að sönnu satt, því verður ekki neitað, að mæðumaðurinn, sem á að berjast við þrautir og þjáningar, er opt miklu betri maður, en margur sá, sem lifir í auð og eptirlæti, og ekkert amar að. En höfum vjer þá ekki líka sjeð, og hlotið opt að kannast við, að hinn rjettláti væri sjálfur kominn niður á jörðina, þegar hann braut í sundur hið öfluga, þegar hann lagði í eyði borgir og lönd, þegar hann sendi svívirðing eyðileggingarinnar yfir þá, sem ekki vildu þekkjast sannleikann, heldur þjóna heimskunni og hlýðnast ranglætinu, þegar hann fletti lánsglisinu af hinum drambláta, þegar hann kippti fótunum undan sjálfbyrgingnum, þegar hann sannaði þessi orð sín: „mín er hefndin, jeg vil endurgjalda“! Hversu opt höfum vjer ekki sjeð þetta sjálfir,

eða þá heyrt um það stórkostleg og skelfileg dæmi, sem kunnug eru um allan heim, og sem aldrei geta gleymst frá einni kynslóð til annarar! Hversu opt könnuðumst vjer líka við hina huldari vegi drottins, þegar hann ljet afleiðingarnar verða gjörðnnum samfara á undarlegan hátt, en þó í samanhangandi röð, sem einungis hinn seki gat sjálfur skilið í, og þeir sem þekktu hinn hulda glæp, og sáu hið þunga endurgjald! Já, sannarlega, því betur sem jeg lærði að þekkja öll dulsmál mannlegs lífs, því meir sem jeg fjekk að vita af því, sem framið var í leyndum, og sá hvað endurgoldið var opinberlega, því betur sem jeg líka lærði að horfa í gegnum hið ytra glis, sem villir sjónir fyrir allflestum, og sá inn í hús og hjarta þess, sem kallaður var öfundsverður, þess fyllilegar kannaðist jeg líka við, að það kom fram í lífi manna, sem hin sannsögula rödd hafði í frá blautu barnsbeini brýnt fyrir hjarta mínu: „guð lætur ekki að sjer hæða, það sem maðurinn niðursáir, það skal hann uppskera!“ Já, enda þar sem mennirnir höfðu fyrir löngu gefið upp hegninguna, eða vægt til um hana, enda þar var krafizt endurgjalds fyrir fyrstu afbrot æskunnar, fyrir gamlan, leyndan og gleymdan glæp, svo að hinn iðrunarfulli andvarpaði: guð er rjettlátur! svo að hinn drambláti þrjózkaðist, og spyrnti á móti broddinum, en megnaði þó ekki

að skjótast undan því valdi, sem endurgalt honum gjörðir hans.

## 8. Rjettláti guð!

Þú munt gjalda einum og sjerhverjum eptir hans verkum. Þess vegna brýnum vjer fyrir sjálfum oss þau hin áminnilegu orð þín: „farið ekki villir vega, guð lætur ekki að sjer hæða!“ Því hversu skelfandi talar þessi sannleiki til vor þegar frá þeirri jörð, sem vjer lifum nú á? Og þá hljómar hann ekki yfir oss með minni skelfingu frá hinum ókomna heimi, eins og boðskapur um það, sem síðar skal verða. Vjer skulum ekki heldur gjöra lítið úr þessari alvarlegu hugvekju, hvorki fyrir sjálfum oss, nje öðrum; því til þess eru orð þessi töluð, að þau skuli skelfa þann, sem ekki lætur skipast við neitt annað; svo þó hann hafi brotið af sjer öll bönd, þó hann þrjózkist gegn öllum lögum, þó hann skeyti ekki um nokkra hegningu á jörðunni, þá skuli þau þó segja honum: einn er sá, sem þjer tjáir ekki að fyrirlíta, fjöll og hálsar geta ekki falið þig fyrir hans tortýnandi reiðitilliti, veldi hans nær eins niður í undirdjúpin, eins og upp í himnana, og hegning hans getur eins látið þjer svíða í innstu fylsknum veru þinnar, eins og hún getur umspennt þig á allar hliðar! Já, með skelfandi röddu talar guðs orð til allra þeirra, sem

eru þverbrotnir, sem skeyta ekki um sannleika og rjettlæti, trú og skyldu; það herðir á hótunum mannlegra laga, og vill kenna syndaranum að hræðast, þegar hann vill ekki elska. Það stefnir líka á þá, sem gæta ytri siðsemi, en skeyta ekki um ráðvendni hjartans, á hræsnarann, á svíðinginn, á flysjunginn, á hinn öfundsjúka og hinn þrætugjarna — einum og sjerhverjum, sem leynt eða ljóst skeytir ekki lögmáli guðs, heldur þrjózkast gegn hinu eilífa valdi, segir það vægðarlaust: guð lætur ekki að sjer hæða, það sem maðurinn niðursáir, það skal hann uppskera!

En hversu blíðlega kallar líka sama orð á sjerhvern þann, sem vill heyra og hlýðnast röddu þess? Með hvílíkri hógværð leiðrjettir það hinn breiska, og læknar sundurkramið hjarta þess, sem snýr sjer til föður allrar miskunar? Því það gjöra, guð minn! allir þínir trúmenn; þeir snúa sjer til þín með angráðum hjörtum. Þeir hafa allir þráfaldlega brotið, geta ekki svarað þjer einu orði til þúsund, og hafa allir skort á því, er þeir geti hrósað sjer af fyrir þjer. En þú krefst þess ekki heldur af oss í dómi þínum, að vjer sjeum fullkomnir, heldur ætlast þú til, að vjer skulum hafa sýnt einlægan vilja og viðleitni til að vera það. Og, rjettláti guð! jafnvel þó að sjálfbyrgingsskapur hins drambláta fái ekki staðizt, þegar þú kall-

ar manninn fram fyrir dómstól þinn, þá munt þú samt ekki burtskúfa þeim, sem mæta fyrir honum með angráðum og iðrandi hjörtum.

## 9. Guð er kærleikur!

Ef vjer gætum skilið þýðingu þessara orða, hversu ánægða hlyti það þá ekki að gjöra oss með alla handleiðslu guðs, þessa hins æðsta og ástríkasta mannvinar! hversu rósama í öllum óvæntum atburðum! hversu þolinmóða í öllum þungbærum þjáningum! Það kemur fyrir að oss sortnar fyrir augum, og öll von hverfur út í myrkur hörmunganna; hvervetna ógnar nálæg hætta, og hvergi sjest fyrir annað en skelfing. En — guð er kærleikur! Vjer finnum það, og þá er óðar eins og ljós sje kveikt í allri lífsins dimmu. Æ, þó jeg úthelli tárum, og komi ekki upp orði fyrir harmi, þá ert þú kærleikur! þó jeg þrábæni þig um hugsvölun, faðir minn! og þú frestir að veita mjer hana, þá ert þú kærleikur; þó að margar raunir sæki að mjer í einu, og jeg fari að verða hugfallinn, þá ert þú kærleikur! þess vegna hvert sem þú leiðir mig, og hvar sem þú krefst þjónustu minnar, krapta minna, lífs míns, þá verði þinn vilji! því hann er einskær kærleiki, eins og þú ert sjálfur. Lífgandi og hressandi er þessi tilhugsun! Inndæl og sælufull er skoðun og tilfinning guðs kærleika! Enginn hlutur

getur verið oss eins heilsusamlegur innan um þann óstöðugleika og óvissu, sem vjer eigum í öllum efnum við að búa.

Guð er kærleikur! Vel verði þeim guðsmanni, sem hrifinn af æðri innblástri, orðaði þessa háleitu hugmynd oss til huggunar! Blessuð sje minning hans, þegar vjer stöndum á grafarbarminum, og líf vort er að þrotum komið! Í lífinu er guð kærleikur, í dauðanum hlýtur hann líka að vera það; mjer til handa er hann kærleikur, eins hlýtur hann að vera þeim til handa, sem jeg skil við. Þið megið því lokast aptur, augu mín! fyrir heiminum og fyrir vinunum; jeg sje eins glöggt fyrir það hinn eilífa kærleika; þagna mátt þú líka, mín stamandi tunga! sál mín finnur eins eptir sem áður til gæzku guðs; jeg kemst æ hærra í sælufullri skoðun hennar, og eptir því sem jeg kemst lengra, eptir því finn jeg æ fyrir mjer nýtt, óþekkt og óransakanlegt djúp. Dauði, já líka ert þú blessun mjer til handa!

Æ, kristnir menn! sem guð hefur úthellt blessan sinni yfir í fyllsta mæli, vjer sem erum skapaðir eptir mynd hins eilífa, og sem hinn almáttugi hefur gjört að óskabörnum sínum og erfingjum eilífs lífs, hversu ættu ekki hjörtun í brjóstum vorum að brenna af innilegri löngun, til að geta orðið aðnjótandi guðs óumræðilega kærleika! Hversu ættum vjer ekki að láta oss

annt um, að efla vorn eigin frið og fögnuð og farsæld með iðuglegri skoðun, og innilegri íhugun elsku hans! En það sem oss sjálfa á vantar til að geta það, vegna kaldlyndis vors og óstöðugleika, það getur hinn almáttugi gjört fyrir oss, og hann vill líka gjöra það fyrir sakir síns kærleika. Heyr þú bæn vora, himneski faðir! blessaðu viðleitni vora til að þekkja breidd, hæð og dýpt elsku þinnar, og innrættu sjálfur hjörtum vorum þann sannleika, að þú sjert kærleiki.

## 10. Geymdu guð í hjarta þínu!

Íhugaðu og gættu þess, maður! að þú getur enga sanna huggun og hjartans rósemi fundið hjer á jörðu, nema einungis í samfjelagi við þinn góða guð, með því að þú treystir honum og elskir hann af hjarta; haltu þjer þess vegna stöðugt við hann, og slepptu honum aldrei úr huga þínum; þá skaltu fá að smakka, hversu góður og sætur drottinn er, og hve inndæl og lífgandi sú ánægja og fögnuður, sem hann fyllir brjóst þitt með. En veraldlegar hugsanir spilla því miður fyrir þessum þínum hugleiðingum; æ, gættu þín þess vegna vandlega fyrir þeim, og hverf ávallt, svo fljótt sem þú getur, aptur til hugleiðinga þinna um guð! Það getur svo hvergi farið betur um þig, en hjá frelsara þínum og sáluhjálpara; því fyrst að þú getur ekki

nokkurt augnablik verið án gæzku guðs, þá áttu líka á sjerhverju augnabliki að hafa þjer hann í fersku minni, sem öll miskun og gæzka kemur frá. En það getur þú ekki gjört með öðru en því að elska hann; því kærleikurinn er mikill og ágætur dýrgripur; hann er sá skrúði, sem sálin gengur í glaðvær fram fyrir guð, nemur staðar fyrir augliti hans, víkur eigi þaðan, leitar líknar og náðar hjá honum í allri neyð, og talar við hann í trúnaði, eins og bræður og vinir hvor við annan.

Festu þess vegna ekki hjarta þitt svo við hið stundlega, að þú gleymir fyrir það hinu eilífa; varastu að láta það fjötrast af líkamlegri áhyggju, svo að þú fallir ekki í freistni og snörur, og verðir dæmdur með heiminum. Gefðu þjer að minnsta kosti dálitla hvíld frá erfiði þínu, og leiddu hjá þjer þessa hina fánýtu jarðnesku hluti; hugsaðu stundarkorn um guð, og nálægðu þig honum, svo að þú fáir að njóta hins eilífa friðar; líttu inn í leyniherbergi hjarta þíns, og rektu burt úr því allan hjegóma, en haltu guði eptir hjá þjer og öllu því, sem getur hjálpað þjer til að leita hans; talaðu við hann í einrúmi, og segðu svo við sjálfan þig: ó, minn guð! hjarta mitt minnist nú orða þinna: „Þjer skuluð leita míns auglitis“! Þess vegna kem jeg nú, drottinn! og leita þíns auglitis. Æ,

kenndu mjer hvernig jeg á að leita þín, og hvar jeg get fundið þig!

## 11. Synd og fráhvarf frá guði.

Það fæðist með oss fúsleikur til hins illa, og þegar er hjarta vort tekur að berjast, hnegist það til hins illa, og sú tilhneging er synd, því hún hlýðir ekki lögmáli guðs, en það er synd, sem er í gegn lögmálinu. — Vaktu og biddu, gákktu á hólm ekki að eins við spillingu veraldarinnar í kringum þig, heldur um fram allt spillinguna í sjálfum þjer; því að sönnu veitir freistarinn þjer árásir að utan, en hann er hálfu verri viðureignar, af því hann á sjer vin í hjarta þínu. Hver einn freistast dreginn og tældur af sjálfs síns girnd; síðan, þá er girndin hefur fengið getnað, fæðir hún syndina (Jakob. 1, 14. 15), en, þá er syndin er fullkomnuð, fæðir hún dauða.

Synd — það orð heyrist nú sjaldan í veröldinni; það er eins og menn haldi, að svo hart orð eigi sjaldan við um gjörðir vorar, eins og þeim virðist það ósanngjarnt, bæði við sjálfa sig og aðra, að nefna svo hörðu nafni það sem menn eru vanir að kalla mannlegar yfirsjónir, mannlegan breiskleika og mannlega bresti. En, þú hið þunga orð! þig skal hver ráðvandur maður heyra í einveru sinni, svo að þú getir sagt honum, hvað það er, sem eyðir friðinum í

hjarta hans, og hvaða sjúkleiki það er, sem öll hin mörgu sárindi sálar hans eru af sprottin. Synd er lögbrot (Jóh. 3, 4), hún er brot hinna helgu laga, sem mennirnir hafa ekki sett, og geta því ekki heldur afmáð þau, nje ónýtt þau, nje umbreitt þeim; synd er því afhvarf af þeim hinum helga vegi, þar manninum er sagt að finna framfarir og frið, afhvarf til þeirra staða, er honum hefur verið bannað að koma; þar eru lindir lífsins horfnar, en ruglingur er þar og órósemi, og þar lykst á endanum djúp glötunarinnar upp undir fótum hins villuráfanda manns. Allar syndir hrópa ekki jafnhátt til himins, og það eru til syndir, sem ekki eru til dauða, það er að skylja, ekki eru orðnar það, svo að menn eiga frá þeim apturkvæmt til hins rjetta vegar, og eiga að leita á þeim fyrirgefningar, og þurfa ekki að örvænta hennar hjá hinni eilífu líknsemi; en allt ranglæti er synd (1. Jóh. 5, 16, 17). Ætti jeg heldur að nefna það vægara nafni, ætti jeg að draga sjálfan mig á tálar, og hylja hin hryggilegu sannindi með afsökunar orðum, og draga þoku milli sjálfs mín og meðvitundar minnar? Nei, jeg skal ekki hlífa sjálfum mjer, jeg skal leitast við æ kostgæfilegar og einlæglegar að sjá sjálfan mig, eins og jeg er; jeg skal ekki reyna til að gjöra mjer hið illa geðfellt, með því að fegra nöfn þess, heldur skal jeg nefna það

rjettu nafni og segja við sjálfan mig, að í hvert skipti er jeg gjöri það, sem jeg ekki má gjöra, eða gjöri það ekki, er jeg á að gjöra, þá drýgi jeg synd; hvort sem jeg gjöri það óvitandi, í fásinnu af breiskleika, eða vísvitandi og af ásettu ráði, þá er það allt synd.

Það er mannlegur breiskleiki, segja menn, þessháttar brestir og breiskleikar, er loða við alla menn; og sama segi jeg, því þegar meðvitundin um syndina vaknar í brjósti mjer, hryggist jeg ekki að eins mín vegna, heldur og allra manna. Jeg kannast við, hversu mikið veldi syndarinnar er, ekki samt mjer til afbötunar, og ekki af þótta, og ekki til þess að geta gjörzt dómari annara, og ekki til þess að svala öfund minni, á því að lasta það sem aðrir lofa; heldur til að brýna fyrir mjer, hversu fjærri það fer, að vjer mennirnir getum orðið slíkir, sem vjer eigum að verða, ef vjer látum eðli vort eittsaman ráða. Guði sje lof! jeg hef einnig sjeð hið góða og hið ágæta á jörðunni; jeg hef sjeð athafnir, sem efalaust þóknuðust guði og mönnum, jeg hef litið inn í mörg hjörtu, þar sem byggði elska á guði og mönnum. Þó er hryggilegt til þess að vita, að hver mannleg sál er á valdi syndarinnar; syndin hellir eitri sínu í hjarta hvers manns, fylgir honum út í skarkala veraldarinnar, og þaðan aptur í kyrrð og einveru. Allar tungur segja að mann-

legt eðli sje veikt; að það sje flekkað og spillt, hlýtur hver að segja, sem sjer hvernig maðurinn nú er, og ímyndar sjer, hvernig hann hljóti að hafa verið, þá er hann kom frá höndum skapara síns. Því er það hreinleiki og sakleysi, er það meinleysi, rjettvísi og elska, sem þegar í æsku hreifir sjer í hjarta mannsins, og er til í honum, áður en hann getur nefnt það, er lýsir sjer í orðum hans og gjörðum, og áður en hann getur gjört greinarmun góðs og ills? Æ! það er hryggileg arfleifð, sem vjer öðlumst undir eins og vjer fæðumst, áður en meðvitundin vaknar, og áður en vjer erum búnir að rjetta út hendina eptir hinum forboðna ávexti; það er barátta í oss, áður en vjer erum búnir að ganga á vald annarshvors af herrum þeim, sem vjer höfum um að velja.

## 12. Synd og afbrot.

Jeg er neyddur til að játa, hvort jeg vil eður ekki, að mjer bæði má og á að rjettu lagi að samlíkja við hinn glataða son; því jeg hef þegið af þjer, heilagi og himneski faðir! óteljandi gjafir, bæði líkamlegar og andlegar. En jeg hef ekki heiðrað þig fyrir þær, eins og bar að vera, ekki heldur hagnýtt gáfur þínar, eins og jeg átti að gjöra.

Þú hefur ekki, sál mín! iðuglega nje ávallt hugsað um guð þinn, sem hefur skapað

þig; þú hefur ekki á morgnana, um miðjan daginn, nje á kveldin, því síður á nóttunni þakkað og þjónað drottni þínum, Jesú Kristi, sem þín vegna sveittist blóðinu, og vegna þinna afbrota var hengður á krossinn; þú hefur ekki heldur virt og elskað heilagan anda, heldur þvert á móti hryggt guðs góða anda (Eph. 4, 30), sem vitnaði svo opt fyrir þínum anda, að guð elskaði þig vegna Jesú Krists (Rómv. 8, 15, 16)) miklu heitar, en faðir og móðir geta elskað sitt ástfólgnasta barn. Hvenær hugsaðir þú, sál mín! svo um hegninguna — jeg vildi þó miklu heldur mega segja: svo um kærleikann —, að þú ljetir af að syndga fyrir það? hvenær hugsaðir þú svo um himnaríki, að þú gleymdir fyrir það heiminum og hjegóma hans? Og til hvers hefur þú brúkað líkama þinn og limi? Hefur þú brúkað limina til að þjóna rjettlætinu? og hefur þú brúkað líkamann, eins og hann ætti að vera bústaður heilags anda (1 Kor. 6, 19, 20)? Þið augu mín! ykkur hefur engan veginn verið tamt að skoða himininn og önnur handaverk guðs, svo að þið skylduð uppörfast af því til að þakka og þjóna guði, sem skapaði það allt ykkur til gagns og ánægju. Hversu opt hafið þið, augu mín, horft á náunga ykkar sjúkan og sorgbitinn, og þó ekki tárast yfir neyð hans og eymd! Hversu opt hafið þið lokað ykkur aptur, til þess þið

skylduð ekki sjá bágindi og harm bróður ykkar! Með hvílíkri gleði hafið þið þar á móti opnað og upplokið ykkur, til að skoða hjegóma veraldarinnar, og horfa á hryggð óvina ykkar! Þið eyru mín, hversu opt hafið þið hlustað á það, sem vanvirti guð ykkar með yfirtroðslu lögmálsins (Rómv. 2, 23), og var náunga ykkar til skaða og skammar, og hafið þó ekki haft andstyggð á að heyra slíkt! hversu nauðugt hefur ykkur verið að hlusta á guðs heilaga orð! hversu treg hafið þið verið til að heyra kveinstafi aumingjans, og hlusta á andvörp hins harmþrungna! — Og þú, tunga mín! hversu lítið hefur þú talað um þau hin mörgu gæði, sem guð minn góður hefur látið mjer í tje; en hversu opt hefur þú verið höfð til þess að mæla fram mörg ónytjuorð! Þú hefur ekki gætt þess, að þú áttir að standa guði þínum reikning fyrir sjerhvert óviðurkvæmilegt orð, og þess vegna hefur þú talað illt um náunga þinn, ístað þess að þú áttir að óska góðs jafnvel óvini þínum. Þú hefur ekki látið þjer til hugar koma boðorð og skipun drottins Jesú Krists: blessið þá sem yður bölva! biðjið fyrir þeim, sem ofsækja yður! Þú hefur ekki hugfest það, sem Davíð segir í sálmi sínum; „Drottinn, hver mun setjast að í þinni tjaldbúð? og hver mun búa á þínu heilaga fjalli? Sá sem ekki bakmælir með tungu sinni“.

Þið höndur mínar, hafið þið æfinlega verið viðbúnar að rjetta hungruðum fæðu, gefa klæðlausum föt, að hjúkra og hjálpa sjúkum? Þið fætur mínir, hafið þið jafnan verið fúsir á að skunda í guðs hús, og ganga á vegi rjettlætisins? Hafið þið aldrei orðið samferða syndurum, já, ef til vill, numið staðar á stigum spottaranna?

Æ, jeg verð að játa: hið góða, sem jeg vil gjöra, gjöri jeg ekki, en hið illa, sem jeg ekki vil, gjöri jeg. Æ, jeg þrái sárt eptir lausn frá þessari þjónustu við syndina; en sjálfur megna jeg ekki að leysa mig frá henni. Guð hefur þess vegna miskunað sig yfir mig í sínum elskulega, svo jeg vænti endurlausnarinnar af honum, þegar jeg trúi á hann. Með því móti getur þá hjarta mitt snúið sjer frá syndinni, og þess vegna bið jeg: snú þú mjer, herra, því þá verður mjer snúið (Jer. 31, 18)! Þú, drottinn! ert sá, sem gefur bæði viljann til að áforma hið góða, og líka kraptana til að framkvæma það. Vjer erum ekki af sjálfum oss hæfir að hugleiða nokkuð, sem er gott og gagnlegt, svo sem af sjálfum oss, heldur er allur vor hæfilegleiki frá guði fyrir Jesúm Krist (2 Cor. 3, 5).

## 13. Játning syndanna.

Enginn maður láti sjer um munn fara: jeg hef af öllum hug og hjarta þjónað og þakkað guði;

jeg hef þvegið höndur mínar í sakleysinu; því skyldi jeg þurfa að skelfast dóm samvizkunnar — jeg, sem engan hlut hef að ásaka mig fyrir; jeg, sem hef fram gengið fyrir guði með góðri samvizku, jeg, sem hef heiðrað guð og elskað náungann! Varist, guðs börn! að láta slíkar hugleiðingar um yðvart eigið rjettlæti koma nærri sálum yðar; auðmýkið yður heldur fyrir guði og segið: fyrir þjer, guð minn! já, fyrir þjer höfum vjer syndgað. Vjer viljum ransaka breytni vora, því þó sú ransókn hljóti að særa oss, þá er hún þjer samt þóknanleg, og græðir sár hjartna vorra. Hvernig höfum vjer þá breytt í æskunni? Þú skipaðir oss að hlýða foreldrum vorum og yfirboðurum; og vjer hlýddum þeim, þegar þeir sáu til; en þegar vjer máttum ráða oss sjálfir, gjörðum vjer það sem oss líkaði bezt. Þú bauðst oss að hugsa um skapara vorn í æskunni; en vjer leiddum þá hugleiðingu hjá oss, eins og eitthvað leiðinlegt, og hugsuðum optast um skemmtanir, stundum jafnvel skeytingarlausir um, hvort þær voru leyfilegar, eður ekki. Þú bauðst oss að gefa gætur að hinum hentuga tíma; en hversu opt gleymdum vjer ekki að gjöra það, sem guð vildi, og gættum þess eigi, að nóttin kemur, þá er enginn fær starfað; já, reiddumst bæði þjer og þeim, sem ávítuðu oss fyrir það! Vjer lærðum snemma að sækjast eptir holdlegum

munaði, og aðhyllast smjaðursmál manna. Já, drottinn! þjer einum tilheyrir rjettlætið, en vjer megum blygðast vor fyrir vor mörgu bernskubrot! Og hvernig höfum vjer nú lifað, síðan vjer komum til vits og ára? Hvernig höfum vjer hagað oss við þig? hvernig hegðað oss við náunga vorn? Höfum vjer auðsýnt þjer þá auðmýkt og lotningu, sem þú heimtar, drottinn dýrðarinnar? þá elsku og þakklæti, sem þú átt skilið, guð allrar gæzku? það trúnaðartraust, sem þú leyfir oss að setja á þig, á miskunsemi þína og trúfesti? Æ, faðir! vjer höfum ekki verið þín hlýðin, þakklát og trúarörugg börn. Vjer kjörum oss því miður til þjónustu annarlega guði! Vjer aðhyltumst og þjónuðum dramblæti, ágirnd og munaði, en gleymdum þínum boðorðum og þjer, sem vjer lifum, erum og hrærumst í. Hvernig stóðum vjer í stöðu vorri og störfum allan þann tíma, sem þú gafst oss heilsu og heilbrigði? Hvernig bárum vjer oss í þjáningum þeim, sem þú við og við sendir oss? Skeytingarleysi í skylduverkum, dramb og sjálfbyrgingsskapur í meðlæti, mögl og óánægja í mótlæti — þetta eru lestirnir, sem vjer höfum að ásaka oss fyrir. Og hvað hafa allir þínir velgjörningar unnið á oss, og hvernig höfum vjer þakkað þjer fyrir þá? Hversu hirðulausir höfum vjer ekki verið í að uppfræða og vanda um við börn vor, að hjúkra og hlynna

að hjúnum vorum! Hvernig höfum vjer hagað oss sem yfirboðnir, sem undirgefnir, sem makar, sem tilheyrendur, sem þegnar? Drottinn, þjer einum tilheyrir rjettlætið, en vjer megum blyggðast vor og beygja í duptið vegna vorrar margvíslegu fásinnu!

## 14. Synda játning, andvarpan og bæn.

Sjerhver maður, hversu góður sem hann er kallaður, hlýtur að segja eins og hinn heilagi Páll: einkis ills er jeg mjer að sönnu meðvitandi; þó vil jeg ekki þar fyrir segja mig síknsaka; drottinn er sá sem dæmir mig. Hann mun í ljós leiða það í myrkrum var hulið, og opinberar gjöra hugsanir hjartnanna, og þá mun sjerhver fá sín laun af guði. Þegar þú, maður! verður kallaður fyrir dómstól guðs, og drottinn fer að krefjast reikningsskapar af þjer; þegar guð leiðir fram fyrir augu þjer þær syndir, sem þú hefur framið í leyni, þá skaltu fyrst sjá það, hvort þú hefðir ekki þurft að skelfast dóm samvizkunnar. Því fari guð að ganga í strangan reikning við manninn, þá mega jafnvel beztu menn segja: drottinn, ef þú vilt tilreikna syndina, hver fær þá staðizt? Þess vegna andvörpum vjer allir: æ, mig aumann! jeg get ekki afborið það, því drottinn er mjer reiður. Refsaðu mjer þá, drottinn! en þó vægilega, og ekki í reiði þinni, svo að þú ekki tortýnir mjer (Jer

10, 24); bjargaðu sálu minni, og líknaðu mjer fyrir sakir þinnar miskunar. Drottinn! jeg má blygðast mín og bera kinnroða vegna míns illa athæfis; en væg þú mjer, líknsami guð! vegna miskunsemi þinnar. Syndir mínar standa mjer fyrir hugskotssjónum, hrópa í himininn, og ákæra mig fyrir dómi þínum. Þess vegna hef jeg fulla orsök til að vera hræddur um, að þú sjert orðinn þreyttur á að vera mjer miskunsamur, og þú munir í þinni rjettlátu reiði ljósta mig sverði hegningarinnar, til að hefna sáttmála þíns, og beygja dramblæti mitt og þrjózku. Ó, drottinn! þína misþóknun þolir enginn maður, því að þú ert hræðilegur, og þegar þú reiðist, hver fær þá staðizt? Æ, drottinn! jeg játa það, jeg hef syndgað og breytt illa, jeg hef gjörzt fráhverfur þjer, og hef vikið út af vegi þinna boðorða. Þegar jeg fer fyrir alvöru að skoða mína syndsamlegu breytni, þá skelfist hjarta mitt og verður ákaflega kvíðandi, svo að jeg andvarpa af sárri neyð: sál mín er hrygg til dauða! Ó, guð allrar huggunar, frelsaðu mig frá þeirri dauðans angist! jeg varpa mjer niður fyrir þig í dýpstu auðmýkt, og bið af hjarta: vertu mjer aumum líknsamur vegna heilagrar pínu og dauða frelsara míns, Jesú Krists! Guð minn almáttugur, þú ert þó líknsamur og vægur í þinni stjórn, og getur gjört allt, sem þú vilt; þess vegna bið jeg þig af hjarta, mannanna

trúfasti miskunari! auðsýndu mjer líka þína miskunandi náð, og láttu þinn heilaga anda vekja hjá mjer iðrun til sáluhjálpar; vertu mjer líknsamur og fyrirgefðu mjer allar mínar syndir og óteljandi afbrot. Guð minn góður! jeg kem nú fram fyrir þig með iðrandi hjarta og angráðum anda, og þú munt ekki útskúfa því. Gakk ekki í dóm við þjón þinn, miskunaðu þig heldur yfir mig, eins og faðir yfir börn sín, og vægðu mjer vegna þíns elskulega sonar, Jesú Krists. Taktu burt úr huga mínum alla fásinnu, og úr hjarta mínu alla harðúð, og hjálpaðu mjer til að gjöra það, sem þjer er þóknanlegt. Þinn góði andi leiði mig fram á rjettum vegi, svo að jeg geti elskað þig um fram alla hluti, óttast þitt guðlega nafn, þjónað þjer af hjarta, og þakkað þjer æ og æfinlega. Bænheyr mig náðarsamlega, vegna þíns elskulega sonar Jesú Krists, vors drottins og frelsara og sáluhjálpara.

## 15. Frestaðu ekki apturhvarfi þínu!

Hvað hugsar þú, maður, að ætla þjer þá fyrst að fara að lifa guði, þegar þú getur ekki lengur lifað heiminum? í ellinni þá og á seinustu árum þínum og æfidögum. En dirfist þú að ræna svo frá guði því sem honum ber? að gefa syndinni frumgróða æsku þinnar, en guði afgangsleyfar ellinnar, heiminum vorblóm æfi þinnar, en guði lauffall ellinnar? Er þá ekki

rjett, þó að guð útskúfi þjer í elli þinni, fyrst að þú hefur sjálfur útskúfað honum í æskunni? En til hvers er jeg að tala um ellina? Hvernig færi, ef guð skyldi slíta í sundur þráðinn, löngu áður en snældan er full, og kalla þig fram fyrir dómstól sinn, áður en þú kemst á þau árin, sem þú hafðir gjört ráð fyrir að byrja á iðrun þína og apturhvarf? Þú átt fyrir höndum lengri leið, en þú hugsar, sagði engillinn við Elias; en þú átt, maður! ef til vill, *styttri* leið, en þú hugsar. Þú segir að sönnu, að þú sjert enn of ungur til að deyja, og lítur eins á dauða þinn og greptran, eins og lýðurinn á musterisbygginguna á dögum Haggai spámanns; tíminn er enn þá ekki kominn! sagði hann. En þú ert, ef til vill, eldri og nærstaddari gröfinni en þú hugsar; það getur verið eins fyrir þjer og fyrir Efraim, að þú hærist og vitir ekki af því (Hos. 7, 9). Gættu þess vegna að tímanum og tækifærinu. Formenn hafa gát á leiðinu, og vinda upp segl, þegar byrinn blæs; eins skalt þú gjöra, því þú mátt ekki heldur leiða hjá þjer hvatir og hræringar heilags anda, þegar þú finnur til þeirra í hjarta þínu; heldur þegar þú heyrir þyt hans í orðinu og áskorun, að þú skulir vakna og iðrast, þá áttu óðar að heyra, gegna og hlýða. Formaðurinn veitt ekki, hvenær leiði muni koma, eða hve lengi standa; noti hann það ekki einn dag, sitji hann það af

sjer, þó ekki sje nema litla stund úr degi, þá getur opt farið svo, að hann iðrist þess lengi síðan. Eins ef þú leiðir hjá þjer hina fyrstu, já, jafnvel minnstu hvöt og uppörfun til apturhvarfs, sem heilagur andi vekur í hjarta þínu, sitjir þú af þjer nokkurt tækifæri, þá færðu að iðrast þess með sárum harmi. Hafðu þess vegna nákvæmar gætur á hinum hentuga tíma, eins og segir heilagur andi: í dag meðan þjer heyrið röddu hans, þá forherðið ekki yðar hjörtu (Hebr. 3, 7)! Þú, sem þá sefur, og uggar ekki um þig! festu þjer í hjarta þessa áminningu heilags anda; segðu ekki eins og margur hefur hugsað með sjer: á morgun ætla jeg að byrja fyrir alvöru á betrun minni; láttu þjer heldur til hugar koma: það kann að verða um seinan á morgun! Núna einmitt, í dag biður guð þig, já hvað meira er, skipar hann þjer að hverfa frá syndinni; en hann hefur ekki gefið þjer neina vissu fyrir því, að þú munir lifa til morguns. Þess vegna er allur dráttur svo hættulegur. Þegar brúðguminn kom, var orðið um seinan fyrir hinar grunnhyggnu jungfrúr að hugsa fyrir viðsmjöri.

## 16. Að ransaka sjálfan sig er áríðandi.

Það er harla mikilvægt atriði, sem kristindómurinn heimtar, að maður skuli á hverjum degi stefna sjálfum sjer fyrir dómstól samvizkunnar, til að íhuga kostgæfilega og ransaka nákvæm-

lega, hvernig breytni hans hafi verið í frá æsku, hvernig hann hafi haldið þann skírnarsáttmála, sem hann gjörði við drottinn Jesúm Krist, hvernig lifað vikuna sem leið, daginn næst á undan frá morgni til kvelds, hvað illt hann hafi aðhafzt, hvað gott afrekað. Að þekkja þannig sjálfan sig, verkar sannarlegt apturhvarf, betrar hjartað, eflir guðræknina, og veitir sálunni frið bæði í lífi og dauða. Það er líka ein grein þeirrar árvekni og forsjálni, sem Jesús hefur svo rækilega brýnt fyrir þeim, sem elska hann, og þeirrar nauðsynlegu alúðar og kostgæfni, sem þeir eiga að sýna á vegferð sinni hjer, í því að ástunda að vera heilagir og óaðfinnanlegir fyrir augliti hans í kærleikanum. Góður hússbóndi heldur rjettan reikning yfir inngjöld sín og útgjöld; sannkristinn maður yfir hugrenningar sínar, orð og gjörðir; hann gefur nákvæmar gætur að framferði sínu, og skoðar við sjerhvert fótmál, hvort hann stefni til hægri eða vinstri hliðar. En þessi ransókn vorrar daglegu breytni má ekki gjörast eptir hinni dramblátu ímyndun um vorn eigin góðleik, eða eptir þeirri mælisnúru manna, sem algengust er; því þetta hvorttveggja eru fávísir og vilhallir dómendur, sem kalla hið illa gott, og hið góða illt; heldur á sú regla, sem guðs orð leggur fyrir, að ráða þessari ransókn; því guðsorð er lifandi og beitt, eins og tvíeggjað sverð, og brýzt í gegn unz

það nýstir sál og anda, merg og bein, og dæmir ráð hjartans og hugrenningar.

Hver sem því girnist sáluhjálp sína, og vill leita hennar af alúð, hann gangi daglega fram fyrir dómstól samvizku sinnar, beri upp spurningar fyrir sjálfan sig, og ransaki hvað hann hefur gjört, og hvað látið ógjört til orða og verka. Og þetta skal hann gjöra í einrúmi, með alúð og guðrækni, hlaupa ekki fljótt yfir, heldur nema staðar við sjerhvert fótmál, og skoða grandgæfilega, hvað þar sje að finna. Hann skal ganga á hjarta sitt vægðarlaust og með vandlætingu, eins og hússbóndi, sem krefst af þjóni sínum skila og reikningsskapar. Þá skal hann finna glöggt til þess, að heilagur andi úrskurðar og dæmir í samvizkunni samkvæmt guðs orði og lögum, hvort hann sje kristilegur eða ókristilegur, guðs barn eður ekki, hvort hann gangi hinn þröngа veg til himnaríkis, eða breiða veginn til glötunar. Vjer höfum 6 daga í vikunni, eða 144 klukkustundir, sem allar ganga til veraldlegra sýslana, vinnustarfa, matar- og drykkjarnautnar, svefns og skemmtana; skyldum vjer þá ekki geta misst fáeinar stundir af svo mörgum, til að prófa rjettilega samvizku vora, ransaka líferni vort, og helzt á kveldin, áður vjer göngum til hvíldar; og ættum vjer ekki einkum að hafa til þess vissan tíma á sunnudögum, og öðrum helgum dögum? Sjerílagi

þá er vjer göngum til kvöldmáltíðar drottins, leggur hinn heilagi Páll það ríkt á við hvern mann, að hann prófi sjálfan sig fyrir fram og dæmi, svo að hann sje ekki óverðugur, og fyrir það eti og drekki sjálfum sjer til dómsáfellis. Mundi ekki hinum mörgu stundum, sem vjer sitjum aðgjörðalausir hjá öðrum, ræðum um alls konar hjegóma, álösum og dæmum aðra, betur og sáluhjálplegar varið, ef vjer hugsuðum heldur um það, hvað sjálfum oss bæri að gjöra og láta ógjört, hvernig vjer ættum að tala og dæma um bresti og yfirsjónir sjálfra vor; frá því ættum vjer ekki að láta nokkurn hlut aptra oss, hvorki störf nje skemmtanir. Æ, hvað gæti það þó stoðað oss, þó vjer ynnum allan heiminn, ef vjer skyldum líða tjón á sálu vorri! Og víst er þeim þá makleg glötunin, sem ekki vill vinna svo lítið til fyrir sálu sína; það er rjett, þó hann verði að kveina sárt yfir því óbætanlega tjóni, sem hann hefur sjálfur gjört sjer. Enginn hræsni heldur fyrir sjálfum sjer, nje dragi sig á tálar með hinni ytri hálfvolgu guðsdýrkun sinni. Breytni vor til orða og verka á að vera ráðvönd í Jesú Kristi; enginn getur orðið rjettlátur fyrir trúna, sem ekki endurnýast í hjarta og hugskoti, æfir sig í guðhræðslu, vakir og berst, hleypur og skundar að hinu fyrírsetta takmarki. Látum oss þess vegna vera fulla alvöru að vilja frelsa

sálu vora, svo að vjer eigi söfnum sjálfum oss reiði á opinberunardegi guðs rjettláta dóms. Sjá, dómarinn stendur við dyrnar; hver sem hefur eyru að heyra, hann heyri hvað andinn segir!

## 17. Flýttu apturhvarfi þínu til guðs!

Hvað hikar þú? er full orsök til að spyrja marga menn, sem vita hve villuráfandi þeir fara leiðar sinnar, en draga þó að snúa sjer til drottins, sem sjá ljósið í Kristi, en tregðast þó við að ganga í því. Hví hikar þú við að slíta af þjer bönd syndarinnar, sem hafa fjötrað þig svo lengi, æ mikils til of lengi! Þau voru þjer þó til armæðu; þú kenndir þess með blyggðan, að hrellingar og harmkvæli eru yfir sálu sjerhvers manns, sem gjörir hið illa. Hvað hugsar þú þá að fresta því að slíta þau bönd af þjer? Nú er þó svo dimmt á þjer í fangelsi syndarinnar, en góður engill hefur lokið dyrunum upp fyrir þjer; gakktu því út, þar er svo ljómandi bjart, þar bíður þín sá, sem var hið sanna ljós, sem lýsir hverjum manni, er í heiminn kemur (Jóh. 1, 9). Líka er mjög kalt í fangelsi þínu. Einhver helkuldi hefur nýst hjarta þitt, svo þú hefur verið kallaður andlega dauður. Nú ertu þó aptur vaknaður til lífs; en er þjer þá líka orðið ljett um andardrátt? Gakktu út undir guðs fríða himinn; þar skín hin blíða sól; hún er handaverk hans, sem þýðir klakann úr skauti

jarðarinnar. Gakk út úr fangelsi syndarinnar, svo að náðarsól drottins nái að skína með sínum hlýu geislum inn í hjarta þitt. Hví viltu sitja lengur í fangelsi þínu? Þar er þó harla tómlegt. Þykir þjer svo skemmtilegt að tala við kongulóna, sem vefur þar vef sinn út í horni? Skoðaðu þá hvernig hún veiðir hina verjulausu flugu, og leikur sjer að því að kvelja hana. Langar þig til að höfðingi myrkursins geti eins náð sálu þinni á síðan, og skuli hæðast að kvölum hennar? Eptir hverju ertu þá að bíða? Fuglinn mundi þó óðar forðast snöruna, ef hann vissi að það riði á lífi sínu. Verið getur að hann liggi vængbrotinn á næsta augnabliki. Og hver má vita, nema þú líka liggir máttvana á næstu stundu? Langar þig til að lifa enn stundarkorn í þinni gömlu syndsamlegu kæti, og hughreystir þú þig með því, að þú skulir svo hafna henni fyrir fullt og allt? En ætlastu til að drottinn skuli bíða eptir þjer á meðan? Hve hættulegur er ekki þessi dráttur, hve vesæl þessi huggun, hve guðlaus þessi tilætlun! Getur hann, sem lauk upp á þjer augunum, ekki blindað þau aptur? getur hann, sem mýkti hjarta þitt, ekki látið það aptur forherðast? Manar þú hann ekki til þess, ef þú um eitt augnablik frestar apturhvarfi þínu, þar sem þú þó finnur, að hann hefur sjálfur kallað þig til bótar og betrunar, því bót og betrun er

þjer með öllu ómissandi, ef þú átt ekki að glatast? Eptir hverju ertu þá að bíða? Enn þá er dagur, svo þú getur starfað að helgun þinni. Nóttin kemur og þá færðu ekki aðhafst. Þú veizt ekki hvenær hún kemur, vera má að hún vofi þegar yfir þjer; það veiztu þó, að allir eiga einu sinni að deyja, og eptir það kemur dómurinn. (Hebr. 9, 27).

## 18. Hugleiðing

*manns á efri árum, um illgjörðir hans á fyrri árum.*

Jeg hef að sönnu þá huggun, að jeg get með sönnu gefið mjer þann vitnisburð, að það liggi að minnsta kosti nokkuð gott eptir mig um æfina, og sumt hvað, sem jeg hef af sanna ánægju; en hversu margt illt hef jeg líka gjört, sem jeg hef nú af angur og smán, og sem jeg vildi helzt óska, að væri með öllu ógjört! Að minnsta kosti vildi jeg óska þess, að meðal hins illa, sem jeg hef aðhafst, væri engar stórkostlegar ásetnings syndir, sem ofþyngðu samvizku mína, og hrópuðu í himininn hefnd yfir mjer! Einungis breiskleika syndir mínar væru fullnógar, til að auðmýkja mig fyrir guði mínum, og láta mig finna þörf mína á hans miskunarríku náð. Já, hversu djúpt gætu þær ekki auðmýkt mig, af jeg þekkti þær allar; en hve margar hef jeg ekki líka drýgt um æfina, sem

jeg ekki þekki sjálfur, hversu mörg afbrot gegn lögum guðs míns, hversu margar bráðræðis syndir, sem jeg man nú ekki sjálfur eptir, af því þær komu svo lítið við hjarta mitt, að jeg varð þeirra varla var, eða sem jeg er þá búinn að gleyma, þó jeg einhvern tíma kunni að hafa fundið til þeirra.

Þú, guð minn! þekkir hjarta mitt, þú einn veizt, að hve miklu leyti syndir þessar eru mjer til áfellis; þú einn veizt, alskyggni! hvort jeg hefði ekki sjálfur mátt sjá þessi huldu afbrot, hvort jeg hefði ekki getað sneitt hjá þeim. Jeg hefði, ef til vill, getað orðið þeirra var, ef jeg hefði verið árvakrari yfir sjálfum mjer, og hefði gætt mín betur; jeg hefði líka, ef til vill, getað sneitt hjá þeim, ef mjer hefði staðið meiri ótti af því að styggja þig. Og hvað hef jeg þá mjer til afsökunar? Hvilir ekki öll ábyrgðin á sjálfum mjer? Er það ekki svo, að einnig þessar mínar huldu yfirsjónir, þær sem jeg ekki þekki sjálfur, ásaka mig og áfella?

Eigi að síður teldi jeg mig sælan, ef jeg hefði ekki drýgt önnur afbrot um æfina, en þau, sem engar menjar væru nú eptir í minni mínu, sem þá að minnsta kosti ekki ofþyngðu samvizku mína, jafnvel þó þau auki ábyrgðarhluta minn fyrir guði, sem rannsakar hjörtun og reynir nýrun. En guð komi til! hversu marg-

ar syndir hef jeg drýgt, sem jeg veit sjálfur af, og sem þá hvorki eru huldar fyrir samvizku minni, nje fyrir alskygnum guði. Það getur verið, að jeg hafi ekki framið stórkostlega glæpi, sem gátu komið mjer undir manna hönd-ur; jeg hef að sönnu ekki hæðst að hátign hins óendanlega, ekki brotið helgi hvíldardagsins með syndsamlegu svalli, ekki misboðið þeim, sem jeg á lífið að þakka, ekki svipt neinn með ofríki lífinu nje eignum hans, ekki hneigslað og afvegaleitt saklausa smælingja; jeg hef að sönnu ekki flekkað samvizku mína með mein-særi og fölskum vitnisburði gegn náunga mín-um. Jeg get að sönnu ekki ásakað mig fyrir þess konar glæpi. En eru þá ekki til aðrir glæpir en þetta? og eru þessir glæpir líka al-gengastir? Eða er jeg rjettlátur fyrir það, þó jeg ekki hafi framið þess konar óbótaverk, sem jafnvel manna lög ekki láta óhengd? Hversu margar syndir aðrar, og það ásetnings syndir hef jeg ekki drýgt um æfi mína, sem komust að sönnu hjá hegningu manna, en munu á síð-an kalla mig fyrir dómstól drottins?

Skoði sig *hugrenningar* mínar, hversu reikular hafa þær þá verið, hve óreglulegar, hve óstöðugar, hversu lítinn gaum hafa þær gefið að þeim hlutum, sem áttu að vera þeirra aðalumhugsunarefni, að guði, að hinu æðsta góða, að eilífðinni, sem er síðasta tak-

mark mitt, að dyggð og guðsótta, sem áttu að búa mig undir mína sælufullu ákvörðun? Já, hversu margar hugrenningar vantrúar- og hjátrúarfullar, óguðlegar, vanheilagar, hefndarfullar, illskufullar, holdlegar og öfundsjúkar hafa að líkindum spillt fegurð sálar minnar og svívirt hana? Og ef jeg gæti nefnt allar þær syndsamlegu hugrenningar, sem sí og æ hafa verið ríkjandi í sálu minni, og hafa fætt af sjer hverja syndsamlegu girndina á fætur annari, hversu mundi jeg þá ekki hræðast mig, og blyggðast mín fyrir sjálfum mjer?

Skoði jeg tilhnegingar mínar, girndir og geðshræringar, hversu óstýrilátar hafa þær þá verið, hve ákafar og svæsnar? Hversu opt hafa þær yfirbugað skynsemina, sem átti að stjórna þeim? Hversu opt hafa þær brotizt fram í þeim *athöfnum,* sem voru skaðlegar fyrir sjálfan mig, og meiðandi fyrir meðbræður mína? Hversu opt hafa þær raskað friðinum í brjósti sjálfs mín, og líka spillt rósemi annara manna? Hversu margar og miklar tálmanir hafa þær ekki lagt í veg fyrir dyggð mína og ráðvendni? Þar sem jeg þekkti sjálfur þessa óvini velferðar minnar, og vissi hvílíkt vald þeir höfðu yfir mjer, þar sem jeg þrátt fyrir það gaf þeim lausan tauminn, þar sem jeg að minnsta kosti reyndi ekki nógu kappsamlega til að stríða við hina syndsamlegu girnd í brjósti

mínu, og stýra ofsa hennar, þar sem jeg öllu heldur ól hana, með því að láta eptir henni og fullnægja henni, þar sem jeg ekki forðaðist nógu vandlega öll tækifæri, sem gátu espað hana, heldur leitaði þeirra opt sjálfur — þá er það allt ásetnings syndir, sem jeg að sönnu get grátið yfir, en ekki breytt eða bætt fyrir.

Skoði jeg *orð* mín — hversu sjaldan hef jeg þá haft tungu mína til að ræða um heilaga og nytsama hluti? Hversu mörg óþarfa orð, ljettúðug, gálaus og meiðandi orð hafa ekki flekkað hana? Hafa ekki varir mínar farið opt gálauslega með nafn þeirrar veru, hverrar lofgjörð, vegsemd og dýrð þeim bar að víðfrægja? Hefur ekki tunga mín, sem átti að halda svörum uppi fyrir mannorð annara, þegar það var nítt, opt þagað þar sem hún hefði átt að tala, eða einungis talað til að samsinna níð róberarans? Já, hef jeg ekki opt talað, þar sem jeg hefði átt að þegja, og opt þagað, þar sem jeg hefði átt að tala?

Og hversu margar og miklar eru þá syndir mínar og afbrot í hugrenningum og girndum, til orða og verka! Hversu mikið vantar á að jeg geti rjettlætt mig, þegar jeg íhuga það allt! Jafnvel mitt hið syndum spillta eðli, sem mjer er meðfætt, getur ekki afsakað mig, nje rjettlætt fyrir dómstóli þínum, drottinn! Það eru því engin, alls engin önnur úrræði

fyrir mig, en að iðrast einlæglega synda minna, og biðja þig auðmjúklega fyrirgefningar á þeim, því þú útskúfar ekki iðrandi og angráðu hjarta. Jeg kem þá líka fram fyrir þig með því hjarta, drottinn minn og guð minn! og þú munt ekki heldur útskúfa mjer.

## 19. Endurfæðingin.

Hver sem lítur rjettum augum á sjálfan sig og athæfi sitt, og skoðar það með hliðsjón af þeim guðsmanni, sem lögmálið afmálar, og sem vjer allir höfum hugmynd um í samvizkunni, honum getur engan veginn til hugar komið að telja sig með hinum rjettlátu, sem ekki þurfa yfirbóta við, þegar hann heyrir þessi guðs orð: snúið yður og trúið evangelío! miklu heldur hugsar hann: það eru fá orð og fljótsögð, að snúa sjer; en þegar gilda skal meir, en að snúa hönd eða fæti, þegar um er að gjöra að snúa hugskoti, anda og hjarta, og þegar það á ekki einungis að vera lauslegt og óstöðugt, heldur alvarlegt og stöðugt apturhvarf til hins heilaga, og framferði fyrir augliti hans, æ, þá er það þyngri þraut, en frá verði sagt! Oss furðar þá sannarlega ekki á því, þó drottinn segði: „þjer verðið að fæðast að nýju, því það sem af holdi er fætt, er hold, einungis það sem fæðist af andanum, er andi,“ jafnvel þó að vjer hljótum að spyrja, eins og Nikódemus: hvernig getur það

orðið? Vjer finnum glöggt, að drottinn hefur satt að mæla, er hann segir, að það, sem mennirnir kalla ómögulegt, hljóti að verða til þess, ef vjer eigum að geta orðið heilagir, ef syndarar eiga að geta lært að gæta boðorða guðs,. og ekki láta sjer þykja þau þung, að afneita sjálfum sjer og hafa af því meiri gleði, en ástríkasta barn á jörðunni af því að sleppa af einhverjum smámun, sem því þykir vænt um, föður sínum til þægðar; og oss liggur einungis við að efa, hvort þessi endursköpun sje möguleg jafnvel fyrir guði sjálfum, því oss virðist hún miklu torveldari, en hin upprunalega sköpun vor. Og satt að segja, væri þessi endursköpun fólgin í því, að lösturinn skyldi verða að dyggð, lýgin að sannleika, hin syndsamlega sjálfselska að saklausri ást á handaverkum guðs bæði á sjálfum oss og öðrum, þá væri hún eins ómöguleg fyrir guði, eins og fyrir sjálfum oss. En þess vegna kennir líka kristileg opinberun, að eigi skuli umbæta eða umbreyta hinu illa, heldur skuli því með öllu útrýma; það sem faðirinn hefur ekki plantað, skal ekki gróðursetjast, heldur upprætast með rótum; *nýr maður* skal fyrir anda guðs og Krists myndast og fæðast innra í oss, og vaxa með aldri í vizku og náð, eins og drottinn á sínum hjervistardögum. Hann, sem á síðan mun safna saman vorum jarðnesku leyfum, og af þeim upp-

byggja líkama líkan þeim, sem hann hefur sjálfur í dýrð sinni, hann safnar saman í oss neistunum eptir vort upprunalega ágæti, og lífgar þá með anda sínum; hann blæs lífi í hinn rjúkanda hörkveik, og bindur um hinn brákaða reir; hann afmáir afbrot vor og græðir vor kaun. Þetta er undrunarvert fyrir augum vorum, og vjer getum alls ekki skilið hvernig vjer, sem á beztu stundum vorum skortir einmitt það sem sízt skyldi, sem er lifandi og þakklát elska til guðs, sem gefur oss alla hluti, hvernig vjer skyldum geta orðið honum svo ástkærir, að honum nægði ekki að vægja hinum óþakklátu, fráhverfu börnum, og láta þau koma og fara eins og daglaunamenn, heldur skyldi hann selja í dauða fyrir þau sinn eingetinn son, þar eð það var eina ráðið, sem hann eptir speki sinni sá til þess að frelsa hina glötuðu, og gefa hinum andlega dauðu eilíft líf; svo að hann gæti verið rjettlátur, og þó dæmt þá síkna, sem trúa á Krist. Þess vegna getum vjer trúað því, sem hinn mikli fagnaðarboðskapur vitnar oss til huggunar, að þó móðir geti gleymt brjóstbarni, svo hún eigi sjái aumur á afkvæmi sínu, þá geti guð samt ekki gleymt þeim, sem vona á hann, og eru í öllu komnir upp á náð hans; vjer getum trúað því að hann heyri, þegar vjer andvörpum: drott-

inn allsherjar, snú þú oss og láttu ásjónu þína lýsa yfir oss, svo að vjer verðum hólpnir!

Að afklæðast hinum gamla manni og íklæðast hinum nýja, sem er skapaður eptir guði í rjettlæti og heilagleika sannleikans — þess konar endurfæðing er þá ávöxtur sannarlegs apturhvarfs; og eins víst og það er, að syndugur maður getur alls ekki af eigin ramleik borið þennan undrunarverða paradísar ávöxt,; jafnvel þó hann finni glöggt til þess í hjarta sínu, að hver sem hefur anda Krists, geti sagt með sanni um sjálfan sig: jeg er eign hans, og hluttakandi í allri blessun hans! eins víst er hitt, að vjer bæði getum og eigum að finna nauðsyn vora á einlægu og algjörðu apturhvarfi frá heiminum og holdinu, til guðs og frelsarans, til þess að vjer með trúnni getum fyllilega tileinkað oss náð guðs og fyrirheit, til þess að skírnin, hverrar blessun er að sönnu úthellt yfir oss, geti helgað oss svo sem hin mikla laug endurfæðingar og endurnýungar, og til þess að vjer getum borið ávöxt til sáluhjálpar, eins og greinir á hinu himneska víntrje!

## 20. Andvarp iðrandi manns um hjálpræði.

Æ, hver vill hjálpa mjer? hver getur reist mig á fætur? jeg hef fallið með Adam og eins og Adam, því jeg hef styggt guðs óendanlegu hátign. Hver mun biðja fyrir mig, þar sem

syndin hefur nú gjört aðskilnað milli guðs og mín? Hver mun koma mjer aptur í sátt og samfjelag við guð? Jeg er flekkaður og fæddur í synd, hver mun hreinsa mig? Jeg hef glatað ljósinu af dýrðarraugliti guðs, hver mun nú lýsa fyrir mjer? Jeg ligg dauður í syndinni, hver mun vekja mig aptur til lífs? Eyru mín eru apturlukt, svo jeg get ekki heyrt röddu vinar míns, hver mun gjöra mig heyrandi? Jeg er þræll syndarinnar, hver mun frelsa mig úr ánauð hennar? Jeg skelf og titra af ótta, þegar jeg heyri þessa þrumurödd: bölvaður veri hver sá, sem ekki heldur allt það, sem skrifað er í lögmáls bókinni! Er sá nokkur á himni eða jörðu, sem geti hjálpað mjer? Guð er brennandi eldur gegn syndinni, hver mun frelsa mig frá hegningunni? Samvizkan vitnar fyrir mjer, að jeg hafi ekki trúað rjett á Krist, æ, hver mun glæða í mjer trúna á hann? Hjartað í brjósti mínu er opt harðara en stál, hver mun mýkja það? Jeg freistast daglega til hins illa af heiminum, af djöflinum, af holdi og blóði sjálfs mín; hver mun hjálpa mjer til að geta staðizt í svo mörgum freistingum? Æ, þú mannkynsins trúfasti vinur, drottinn Jesús, þú frelsari mannanna, ástríki meistari, miskuna þú mjer! Elska þín til mín var svo brennandi, og þín mikunsemi svo mikil, að þú mín vegna lítillækkaðir sjálfan þig,

og þoldir bitra pínu og dauða á krossinum. Ó, drottinn, láttu mína aumu sál, sem þú hefur frelsað frá dauðanum, vera dýrmæta fyrir augliti þínu; þú ert gefinn mjer til hjálpræðis, því með blóði þínu hefur þú fullnægju gjört hjá þínum himneska föður fyrir þær syndir, sem jeg hef framið; og með því hefur þú komið sættum á milli mín og föður þíns. Ó, þú lambið guðs, ber þá í burtu syndir mínar, og láttu mig finna lækningu við þeim í þjáningum þínum! Ó, þú ljós heimsins, þú sól rjettlætisins, láttu ljós þitt upprenna í sálu minni, svo að jeg sje ekki í myrkri, heldur geti haft lífsins ljós, því að þú ert kominn til þess að jeg hefði lífið. Innrættu mjer sanna og lifandi trú, von og kærleika til þín og þíns himneska föðurs, svo að jeg fái þekkt og trúað, að þú sjert gefinn mjer til vísdóms, rjettlætingar, helgunar og endurlausnar, og að þú sjert minn árnaðarmaður hjá honum. Gefðu mjer náð til að feta í fótspor þín, og lifa eptir þínum orðum og guðdómlegu boðum, svo að jeg daglega geti deytt holdið með þess tilhnegingum og girndum, með þolinmæði borið krossinn, elskað náunga minn og gjört honum gott, eins og þú auðsýndir mjer miskunsemi; og þannig af öllu kappi varast sjerhvað, sem jeg get styggt þig með, minn guð og drottinn! Ó, Jesús minn frelsari og endurlausnari, styrk mig með þínum heilaga anda, og ef jeg fell í

baráttunni, þá reis þú mig á fætur aptur! Láttu mig aldrei víkja frá þínum heilögu orðum, eða afneita þjer; gefðu mjer náð til að ákalla þitt heilaga nafn til æfiloka, og byggja alla von mína og traust á þinni friðþægingu, er jeg vænti mjer fyrir vægðar og náðar í dómi þínum. Jeg veit, Jesús minn, að jeg er þín eign; gjörðu mig þess vegna sáluhólpinn af náð þinni og miskunsemi!

## 21. Frestaðu ekki apturhvarfi þínu til guðs!

Ekkert getur verið óskynsamlegra og heimskulegra en að fresta apturhvarfi sínu frá syndinni, þar sem menn þó eru sannfærðir um spillingu hennar. Hvers vegna skyldum vjer vilja draga það að geta losast úr þrældómi djöfulsins, við sekt syndarinnar, undan reiði guðs? Ef dauðinn kippir þjer burt áður en þú iðrast, þá ertu eilíflega glataður; hvernig hefði þá farið fyrir þjer, ef þú hefðir dáið út af í syndum þínum? og hvernig mundi fara, ef þú skyldir deyja á þessari nóttu? Eða hvaða vissu hefur þú fyrir því, að þú munir lifa eina klukkustund? Því hversu veikur er ekki líkami mannsins af sjer? Það er einungis guðs undrunarverðu forsjón að þakka, að vjer höldum lífinu. Er þá syndin svo ágæt, og ástand syndarans svo huggunarríkt, að menn þurfi nauðugir að vilja sleppa af því? Getur þú of snemma orðið guðs barn, of fljótt frelsast

frá hættu og glötun? Kjós þú um! Ef þjer þykir syndin betri, þá þjónaðu henni; en sje guð og himininn betri, þá flýttu þjer að leita þess. Ef andi guðs og Krists á að bíða eptir þjer, meðan þú skeytir ekki um hann, heldur gefur þig við öllu öðru, máttu þá vita nema andi guðs yfirgefi þig, láti þig með öllu sjálfráðan og forherði hjarta þitt; og hversu illa ertu þá ekki farinn? Veiztu ekki af því að allur dráttur, öll þrjózka gegn heilögum anda stælir hjartað, og gjörir ástand þitt enn hættulegra? Ef þú væntir náðar og fyrirgefningar hjá guði — og hver sem ekki væntir hennar, yfir hann kemur örvæntingin, sem er helvíti — er það þá hæfilegt, að þú skulir vilja lifa lengur í syndinni, sem þú ætlar einmitt að biðja guð fyrirgefningar á? Dirfist þú að segja: drottinn! jeg hef lengi brotið af mjer náð þína, en jeg ætla þó að brjóta hana af mjer betur, og styggja þig enn stundarkorn; svo ætla jeg að snúa mjer til þín, og biðja þig fyrirgefningar — dirfist þú lengur að hæðast þannig að frelsara þínum, og vænta þó miskunar hans á endanum? Er það áform þitt að elska og heiðra guð seinna meir, en ætlar þjer þó fyrst um sinn að fyrirlíta boð hans? Er þá æfi þín svo löng, og tíminn svo mikill, að þú megir missa nokkuð af honum? Heldur þú að apturhvarfið verði þjer auðveldara seinna, en núna strax? Æ,

margt er enn ógjört, þó apturhvarfið sje byrjað; það þarf til mikla þekkingu, trú, von, stöðuglyndi, huggun, þolinmæði; það þarf að sigra margar freistingar, fullnægja mörgum skyldum, já, það er harla mikið starf að búa sig undir eilífðina. Og þú þykist hafa of mikinn tíma til þess, svo þú vilt ekki byrja þetta mikilvæga starf fyr en seint og síðar meir? Tíminn stendur þó ekki við; sól, tungl og allir skapaðir hlutir flýta sjer að vinna hver sitt verk; að draga hlutinn er sama sem að þrjózkast við hann; guð þarf þín ekki með, en þú getur ekki verið án guðs; þú vilt þó ekki að hann fresti hjálpinni, þegar þú ert staddur í neyð; æ, svo misbrúkaðu ekki þolinmæði hans; nú er hinn hentugi tími, nú er dagur hjálpræðisins. Æ, að þú vildir þá íhuga, hvílíka blessun þú situr af þjer hverja þá stund, sem þú frestar apturhvarfi þínu, á hversu veikum fæti þú stendur sjálfur, og hvílíka sorg og gremju þú bakar þjer sjálfum eptir á!

## 22. Endurnýjung hugarfarsins.

Hver sem elskar sálu sína og vill á síðan guð sjá, hann þarf að vita, að hann verður áður að taka algjörlegum umskiptum. Vjer getum ekki gengið fram fyrir auglit guðs í jarðneskum búningi. Hver sem lifir í þeirri von, að hans jarðneski líkami muni umbreytast í vegsamlegan

og dýrðlegan líkama, hann hlýtur að vita, að hann hjer á jörðu og þá stund, sem hann lifir þar, verður að afklæðast búningi þessa heims, og íklæðast andlegum og heilögum skrúða, og, eins og guðs útvaldir og heilagir (Róm. 13, 14), íklæðast drottni Jesú Kristi. Vjer eigum þá, eins og guðs útvaldir, að æfa oss í hjartfólginni miskunsemi, guðrækni, auðmýkt, hógværð, langlundargeði, svo að vjer fúslega umberum og fyrirgefum hvor öðrum, og íklæðumst kærleikanum, sem er höfuðprýði kristilegrar breytni; því þá sjest það fyrst, að vjer erum rjettlættir fyrir Jesúm Krist, og eigum rjett á að íklæðast vegsemd í guðs dýrðarhimni. En sá sem hefur í huga að æfa sjálfan sig þannig í guðs ótta, svo það er hans fullkomin alvara að vilja þjóna guði af einlægu hjarta og með fúsum anda, hann hlýtur að vita, að það nægir ekki, þó hann snúi sjer frá því, sem heimurinn kallar ósæmilega háttsemi; hann má alls ekki láta þar við lenda, því þá sækir syndin hann aptur og flækir hann að nýju í spillingunni, svo hið síðara verður verra hinu fyrra.

Þess vegna ef vjer eigum að taka þeim umskiptum, sem guði líka, þá getur það ekki orðið með öðru, en *endurnýjungu,* með því að vjer endurnýjumst eptir guðs mynd. Vjer eigum að afklæðast hinum gamla manni, sem er spilltur af vondum girndum, og endurnýjast í

anda vors hugskots, íklæðast hinum nýja manni, sem skapaður er eptir guði í rjettlæti og heilagleika sannleikans. Þessa mynd höfum vjer haft, en mistum hana við fallið; og henni eigum vjer að reyna til að ná aptur með þeim umskiptum, sem á oss eiga að verða. Sælir eru líka þeir allir, sem taka þessum umskiptum, og verða guðs börn úr börnum heimsins, og úr börnum reiðinnar, sem vjer erum eptir eðli voru, verða erfingjar himnaríkis og eilífs lífs!

Svo framarlega sem vjer þá elskum sálir vorar, og viljum geta átt yfir oss á efsta degi náðugan og miskunsaman dómara, þá látum oss endurnýjast í hug og hjarta, svo að það sje ekki einungis að ytra áliti, og eintómt stærilæti með sjálfum oss; heldur að endurnýungin sje svo algjörð bæði á hugarfarinu og hegðaninni, að guð viti, og mennirnir geti ekki annað en sjeð það á lífi voru og framferði, að þeir sem áður hafa stolið, steli nú ekki framar, þeir sem áður hafa drýgt hór, drýgji hann ekki framar, að þeir, sem áður hafa lifað í stórsyndum og löstum, hverju nafni sem hjetu, lifi nú ráðvandlega í helgun og hreinleika, íklæddir hertýgjum ljóssins. Æ, vjer skulum gjöra nýjan sáttmála við guð, svo vor innri maður geti endurnýjast dag frá degi (2 Kor. 4, 16), að vjer, sem höfum verið ranglátir, svikulir, rógberarar, bakmálugir, dramblátir og grunnhygguir, skulum

ástunda að fyllast hjartanlegri miskunsemi, auðmýkt, langlundargeði og þolinmæði; þetta er guði helzt til lofs og dýrðar; og getur orð hans, sem hefur krapt til sáluhjálpar, verið oss til mestu huggunar og hjálpar í þessu efni. Fyrir slíka endurnýungu hugarfarsins og breytninnar gefur líka guð oss á síðan vegsamlegri og dýrðlegri umskipti, með því að hin jarðneska tjaldbúð vor ummyndast í aðra dýrðlegri, og sálir vorar inngangа til ævarandi og eilífrar sælu.

## 23. Rjettlæting af náð.

Þó þú ljetir ráðvandasta og bezta manninn, sem til er á jörðunni, koma fram fyrir oss, þá mundum vjer geta borið upp fyrir hann þær spurningar, sem hann skyldi fyrirverða sig að svara, svo hann skyldi þegja við þeim og játa sig sekan fyrir guði. Vjer skyldum spyrja hann: hefur þú alla þína æfi haft guð fyrir augum þjer, og hegðað þjer eins og þú vissir að guðs vilji var? Hann neyðist til að svara: ekki þori jeg að fullyrða það um allt mitt líf, því jeg minnist þess tíma, þá er jeg lifði í sjálfræði, og breytti eptir tilhneigingum mínum og girndum; en svo sá jeg að mjer, og ástundaði að hafa guðs vilja fyrir augum mjer. Hefur þú þá goldið guði nokkrar bætur fyrir þann tíma, sem þú lifðir eptir munni og maga, eða hefur sjerhver hugrenning þín, orð og athöfn síðan

verið samhljóða lærdómi guðs? Æ — bætur hef jeg engar til að bjóða honum; hitt þori jeg ekki heldur að fullyrða þrátt fyrir alla mína viðleitni, alla mína ráðvendni. Álítur þú þá, að þú sjert guði þóknanlegur vegna rjettlætis sjálfs þíns? Nei, drottinn! jeg bið með Davíð: gakk eigi í dóm við þjón þinn, því enginn maður á jörðu er rjettlátur fyrir þjer! Hljóti nú ráðvandasti og bezti maðurinn að gjöra þessa játningu, hvað þá heldur vjer, sem er í svo mörgu ábótavant! Það er skylda vor að hlýða hvervetna með önd og líkama, og af öllum vorum mætti lögmáli guðs, sem er vor skapari; og þegar vjer nú berum breytni vora saman við lögmálið, og vjer sjáum hversu hún er því fráleit — hvað leiðir þá af því? hvað annað en þessi úrskurður Páls: sjerhver munnur skal þegja, og allur heimur vera sakfallinn fyrir guði! Enginn maður getur staðizt fyrir guði rjettlátur, saklaus og velþóknanlegur, ef dæma skal eptir því, sem lögmál guðs leggur fyrir. Því betur sem vjer þekkjum lögmálið, þess nákvæmlegar þekkjum vjer afbrot vor; og því nákvæmlegar sem vjer þekkjum þau, þess betur sjáum vjer hve ómaklegir vjer erum fyrir augliti guðs, þess dýpra auðmýkjumst vjer, og þess meiri verður órósemi vor á nálægum tíma, og ótti fyrir hinum ókomna. En er þá enginn til sem geti hjálpað oss? Öll vor rósemi er undir

því komin, hvernig vjer svörum þessari spurningu. Og Páll postuli gefur oss þá huggunarríkt svar: „Það rjettlæti sem gildir fyrir guði, er opinberað utan við lögmálið; það kemur fyrir trúna á Jesúm Krist til allra og yfir alla þá, sem trúa“.

Innan vebanda lögmálsins getum vjer þá ekki öðlast velþóknan guðs, sem er hin æðsta blessan, er vjer getum óskað oss, með nokkrum hlut öðrum, en algjörðri hlýðni við öll guðs boð. En hversu sú hlýðni sje oss ómöguleg, kennir hin hryggilega, daglega reynsla. Teljum, ef vjer getum, sjerhverja hvikula hugrenning, sjerhvert óþarft og meiðandi orð, sjerhverja ólöglega athöfn, sem vjer höfum gjört oss seka í einhvern einn dag — og mun oss ofbjóða allur sá fjöldi; en vjer getum sjeð af þeim reikningi, að manninum er ómögulegt að standast með rjettlæti sjálfs síns fyrir guði, sem geðfelt barn. Og þó vjer teljum hin fáu ófullkomnu góðverk, sem vjer höfum gjört á einu ári, og ef vjer berum svo saman við þau allar þær syndir, sem á árinu voru góðverkum vorum samferða, — æ, þá hljótum vjer allir að biðja: drottinn! gakk ekki í dóm við þjón þinn, því enginn maður á jörðu er rjettlátur fyrir þjer. En getur guð fyrir bæn vora eina saman sleppt því, að krefja reikningsskapar af oss? getur hann fyrir bæn og grátbeiðni eina gjört úr oss synd-

urum helga menn, úr oss flekkuðum mönnum hreinar verur? Ekki getur slíkt hugsast jafnvel fyrir jarðneskum dómstóli; því enginn dómari getur talið svikarann með ráðvöndum mönnum, án þess að flekka dómarasætið með ranglæti. Getur þá guð þrátt fyrir öll vor sjálfskaparvíti, allar vorar yfirsjónir, allar vorar hirðuleysis syndir, alla vora lesti, álitið oss eins og syndlausar verur, oss, sem á hverjum degi söfnum synd á synd ofan? Hvernig getur hinn heilagi gjört þetta? Vjer hljótum þess vegna annaðhvort að fara á mis við velþóknun skapara vors — og er það óttaleg tilhugsan fyrir oss mennina, sem erum skynsemi gæddar, ódauðlegar verur — eða vjer hljótum að íklæðast annarlegu rjettlæti; vjer hljótum að þekkja einhvern, sem með sinni algjörðu hlýðni geti bætt það upp, er brestur á vora; vjer hljótum að telja sjálfum oss til gildis allt gott, sem er í fari hans; vjer hljótum að hugga oss við, að vjer fyrir sakir hans, en ekki sjálfra vor, verðum álitin hrein, heilög, saklaus börn, velþóknanleg fyrir augliti guðs.

Og hversu huggunarríkur er ekki þessi lærdómur! Vjer sem vegna syndarinnar höfum orðið sekir við guð, og verðskuldað að líða hans rjettlátu hegningu, vjer getum þó enn átt von á náð, frelsi og farsæld. Oss aumum mönnum er hjálpræði fyrirbúið; í guðs heilaga orði skín

ljós, sem lýsir oss í þessu myrkri, er vjer annars hefðum hlotið að villast í; það er til svo djúpur brunnur miskunar og náðar, að vjer getum drekkt í honum öllum vorum syndum, og gengið svo glaðir, þvegnir, helgaðir, rjettlættir fram fyrir föður vorn á himnum. Vjer verðum rjettlættir af einskærri náð fyrir þá endurlausn, sem er í Jesú Kristi.

## 24. Hin rjettlætandi trú.

Hinni rjettlætandi og sáluhjálplegu trú fylgir það hið mikilvæga fyrirheit, er hljóðar um náð og fyrirgefningu syndanna, og uppgjöf á eilífri hegningu, sem vjer höfðum sjálfir tilunnið, fyrir sakir pínu og dauða Jesú Krists, og vegna hans algjörðu hlýðni og rjettlætis. Það traust sem jeg þá hef á guði, að þó jeg hafi styggt hann, og verðskuldað eilífan dauða, þá muni hann þó miskuna mjer í dómi sínum, og frelsa mig frá maklegri hegningu synda minna — það traust byggist ekki á iðrun minni, eða á nokkru því góðverki, sem jeg fyr eða síðar hef gjört, eða get gjört, heldur byggist það einungis á verðleika Jesú Krists. Þegar jeg þannig byggi allt mitt traust á fyrirheitum guðs, og ber þau innilega fram fyrir hann, þá veit jeg að guð er tryggur í loforðum sínum, að hann mun fyrirgefa mjer, og veita mjer aptur náð sína og eilífa sælu. Guð gefur mjer þá upp hegning-

una og dæmir mig rjettlátan, og það gjörir hann allt fyrir sakir rjettlætis Jesú Krists. En eigi að síður er það eignað trú minni, því svo er að orði kveðið: trú mín gjörir mig rjettlátan, trú mín gjörir mig hólpinn, af því jeg held mjer svo fast við loforð guðs, það loforð, sem hann ekki getur raskað um alla eilífð. Þess vegna kemst ritningin svo að orði: af náð eruð þjer frelsaðir fyrir trúna, það er: að sönnu er það guðs einskærri náð að þakka, að þjer verðið hólpnir vegna Jesú Krists; en til þess að þjer getið orðið aðnjótandi þeirrar náðar, þá verðið þjer að *trúa* loforði guðs; þjer eigið að láta trúna efla traust yðar á loforði hans; því ef þjer berið ekki traust til þess, heldur ætlist til að verða hólpnir á annan hátt, þá kemur yður náð þessi aldrei að notum.

Það er eðli trúarinnar, að hún getur ekki samlagað sig *syndinni*; því þar sem trúin er alvarlega fyrir í hjartanu, eins og trúnaðartraust, en ekki eins og hugarburður eða vantrú, þá *breytir* hún svo eðli mannsins, að hann verður allur annar í hjarta og hugskoti, í anda og skilningi, í girndum og vilja, í allri stjórn á sjálfum sjer og öllu athæfi, því elskan til guðs vermir hjarta hans, leiðir hann og laðar til að forðast það, sem guði er á móti, en ástunda af öllum mætti að gjöra það, sem þóknanlegt er fyrir guði og frelsara vorum Jesú Kristi.

Þannig er trúnni varið, eins og henni líka er lýst þar svo stendur (Hebr. 11, 1.): trúin er örugg eptirvænting þeirra hluta, sem menn vona, og óbifanleg sannfæring um það, er þeir ekki sjá, það er: trúin er engan veginn óljós hugarburður eða lausleg þekking, eins og menn annars opt kalla trú um hið óvissa, heldur er trúin *svo öruggt traust í hjartanu, að jeg reiði mig allt eins fast á það, sem guð hefur lofað mjer,* eins og jeg hefði það þegar í höndunum; og það sem mjer er lofað, gjörir trúin mjer að sannfæringu allt eins fyrir það, þó það hvorki sjáist eða sje nærverandi, og eigi ekki að koma fram fyr en seinna; hún leiðir mjer það fyrir sjónir í þess sönnu mynd, og sýnir mjer allt ágæti þess, rjett eins og það sje nálægt og stöðugt, svo jeg get skoðað það og skilið, og haft af því full not og ánægju. Þannig höndla jeg þá hið ósýnilega, sem mjer er heitið og lofað, trúi fagnaðarboðskapnum, sem er það fyrirheit, er hljóðar um friðþægingu Krists; heyri þá rödd, sem boðar mjer náð, fyrirgefningu syndanna, frelsun frá guðs stranga dómi, og endurlausn frá eilífum kvölum; jeg trúi þeim fagnaðarboðskap, sem hljóðar um hluttöku mína í dýrð og vegsemd, fögnuði og sælu eilífs lífs, sem meiri er en allt það, er mannlegt hjarta getur gjört sjer nokkra hugmynd um; jeg sje hið ósýnilega eins og það væri

sjáanlegt fyrir augum mínum, og fyrir þá trú verð jeg rjettlættur.

## 25. Helgunin.

Það er ekki allt búið fyrir það, þó byrjað sje á að lifa guðrækilegu líferni; ekki bera öll trje, sem ná að blómgast, ávexti; og ekki ná allir ávextir fullum þroska. Margir gefast upp, sem sýnast hafa byrjað vel; margir smána nafn Krists með hneigslanlegu framferði og of miklum breiskleika. Þess vegna hlýtur þú að trúa á *heilagan anda*, því einungis með fulltyngi hans getur þú lifað svo, að þú afrekir eitthvað gott, allt eins og líkaminn fær einungis aðhafst með aðstoð sálarinnar. Þú ert ekki ófyrirsynju skírður í nafni hans. Andinn er útsendur af Kristi í tvenns konar háleitum eyrindagjörðum; fyrst til að leiðbeina postulunum, svo þeir gæti án allrar villu kennt fagnaðarboðskapinn, sem þeir áttu að flytja heiminum, gæti staðfest hann með kraptaverkum, og látið hann ritaðan eptir sig í heilagri ritningu handa öllum seinni kynkvíslum; og því næst til að uppfræða og helga alla limi Krists, svo þeir gæti skilið ritninguna, trúað og hlýtt hennar heilaga lærdómi. Heilagur andi hefur þá fyrst innblásið postulunum fagnaðarboðskapinn, síðan endurfæðir hann mennina með honum, og stjórnar hinum trúuðu eptir honum. Nú á dögum veitist oss hann

ekki til að opinbera nýjan lærdóm, heldur til þess vjer getum skilið og hlýtt þeim lærdómi, sem hann fyrir löngu hefur opinberað og staðfest. Eins og sólin vekur og frjófgar hið líkamlega líf með hlýindum sínum, eins vekur og viðheldur Kristur hinu andlega lífi í oss með anda sínum; og fyrir það stjórnast trú þín, elska, bæn og allar athafnir kristilegs lífernis guði til dýrðar. Allir hlutir eru heilagir fyrir þann, sem sjálfur er heilagur í guði; hann er fús til að sleppa af öllu vegna guðs, því hann hlýtur að hafa gefið sjálfan sig guði á vald fyrir aðstoð og leiðbeiningu andans. Lifðu þess vegna í guði, því að hann er allt í öllu! Láttu trú, von og elsku til hans daglega eflast í hjarta þínu! Gjörðu þjer föðurinn, sem er á himnum, handgenginn fyrst af öllu, svo að sonarleg elska geti verið grundvöllur guðhræðslunnar. Elskan til guðs er upphaf vorrar helgunar, en elskan til guðs kemur ekki með öðru en sannri trú á Krist. Þegar þú þá vilt öðlast þekkingu á Kristi, þá gjörðu það um fram allt í þeim tilgangi að geta sjeð gæzku guðs og kærleika í honum — því reiður guð, sem fordæmir, verður ekki elskaður eins og sá guð, sem er náðugur og friðþægður — og eptir því sem þú þá finnur til elskunnar á guði í hjarta þínu, eptir því er líka andi guðs ríkur hjá þjer. Því það verkar andinn sjerílagi í öllum guðs útvöldu börnum,

að þau geta með sonarlegu trausti og djörfung kallað abba: elskulegi faðir! Þannig á trúin á Krist að lífga og efla elsku þína til guðs, og sonurinn og heilagur andi eiga að leiðbeina þjer til föðursins.

Vjer elskum hann, sem elskaði oss að fyrra bragði. En hvernig getum vjer elskað guð, og þó ekki elskað náunga vorn? Æfðu þig þess vegna svo í elskunni til allra manna, að hún verði þjer að kalla að annari náttúru, og auðsýndu þeim öllum allt það gott, sem þú getur eptir efnum og ásigkomulagi. Þú átt að elska alla menn vegna guðs *meðfæddu* myndar í þeim, og þá hina heilögu vegna hans *andlegu* myndar í þeim. Vjer eigum að elska hina holdlegu bræður vora með kærleika góðviljans, en hina andlegu bræður vora með kærleika velþóknunarinnar. Æ, að menn vildu íhuga hvílíkt höfuðatriði það er í kristindóminum að elska og gjöra gott; og — hvernig fer sá að lesa fagnaðarboðskapinn, sem ekki sjer þar kærleikann á hverju blaði!

Þetta er hið rjetta eðli kristindómsins, hin sanna guðhræðsla; hún er í því fólgin, að vjer sjeum það í raun og veru, sem vjer samkvæmt trúarjátningu vorri segjumst vera. Af þessari guðhræðslu ertu auðþekktur frá öllum hræsnúrum, þú gjörir játningu þinni sóma með henni, og ert þeim til blessunar, sem þú átt að búa

saman við, enda veitir hún þjer líka frið hjartans. Sæl er sú þjóð, sá söfnuður og það heimyli, sem hefur gnægð af slíkum mönnum!

## 26. Bæn um handleiðslu Krists.

Ó, herra Jesús Kristur! þú sem sjálfur segist vera vegurinn og sannleikurinn og lífið, sjá, jeg ráfa á þessari jörðu eins og í framandi landi, og rata engan veg; þess vegna flý jeg í þeim vandræðum fyrst af öllu til þín, og bið þig að taka mig að þjer, því þú hefur svo yfirgefið bústað þinn, vort sanna föðurland og heimkynni, til þess þú gætir verið leiðtogi minn og allra manna. Kenndu mjer að þekkja rjettan veg til eilífs lífs; taktu í hönd mína og leiddu mig, svo að jeg víki ekki út af honum, hvorki til hægri nje vinstri hliðar, heldur geti fetað í þín fótspor. Já, fyrst að þú hefur með pínu þinni friðþægt fyrir syndir mínar og syndir allra manna, þá gefðu mjer náð til þess að jeg geti fyrir þá elsku, sem þú sýndir mjer að fyrra bragði, aptur auðsýnt þjer elsku mína, með því að jeg kefji og deyði í mjer holdlegar girndir, svo að þær hrífi mig ekki frá þjer, Jesús minn! og leiði út af rjettum vegi. Jeg veit og sje, að einungis sálin getur erft himnaríki og eilíft líf, en að hold og blóð getur enga hluttöku átt í því; kenndu mjer þess vegna, Jesús minn! að hafa þitt heilaga dæmi fyrir augum mjer, svo að

jeg geti deytt hið syndumspillta holld, sem stríðir á móti andanum, að það ekki tálmi mjer á leiðinni og svipti mig arfinum. Jeg veit, að jeg fæ ekki að njóta neins góðs af öllu því, sem þú hefur afrekað mjer, nema jeg vilji breyta eptir þjer; þess vegna bið jeg þig að gefa mjer náð til að breyta eptir þínu dæmi, svo að jeg geti orðið aðnjótandi þinnar friðþægingar. Já, unn þú mjer, meðan jeg lifi, að líkjast og breyta svo eptir þjer í auðmýkt, hreinlífi, miskunsemi, hófsemi og kærleika, að jeg í eilífðinni geti orðið líkur þjer í öllu, og þvílíkur sem þú ert. Um þetta bið jeg þig, Jesús Kristur! og grátbæni auðmjúklega og einlæglega, þar sem jeg nú er staddur á vegferð minni, og hef þann einlæga ásetning að þræða veginn til míns rjetta heimkynnis og föðurlands. Því jeg veit og játa, að sáluhjálparinnar er ekki að vænta af nokkrum öðrum, og að ekki er til nokkurt nafn hvorki á himni nje á jörðu, sem vjer getum orðið hólpnir fyrir, nema það eitt, sem vitnað er um, að hver sem trúir á þig, skuli öðlast fyrirgefningu syndanna og eilíft líf. Jeg bið þig því að minnast hins heilaga sáttmála, sem þú gjörðir við mig í skírninni, þegar þú miskunaðir þig yfir mig, og gjörðir mig að barni þínu, og hjezt mjer því, að jeg skyldi verða hólpinn, ef jeg tryði og væri skírður. Fyrst að þú hefur tekið mig svo hjartanlega að þjer, og vilt miskuna

mjer eins og faðir, þá er öll mín huggun og von þar sem þú ert, því jeg trúi því staðfastlega, að eins víst og jeg er skírður í þínu nafni, eins víst munir þú vera verndari minn, huggari og frelsari, hjálpa mjer í hvers kyns neyð, og frelsa mig frá allri ógæfu, svo að hvorki synd, helvíti, dauðinn eða djöfullinn geti grandað mjer. Þess vegna vil jeg vera öruggur í hverju sem fyrir kemur á leið minni, snúa hjarta mínu til þín, og trúa því staðfastlega, að þú munir aldrei yfirgefa mig, heldur gefa mjer eilífa sælu. Ó, drottinn Jesús Kristur! þú hreinsaðir oss með blóði þínu af öllum vorum syndum, þú sættir oss við þinn himneska föður og gjörðir úr oss útvalinn lýð. Þess vegna fram ber jeg fyrir þig lofgjörð og þakkargjörð fyrir alla þína velgjörninga, og bið þig að gefa mjer styrk og mátt, til að lifa eptir þínu heilaga dæmi og vilja, því án þinnar hjálpar megna jeg ekkert. Já, minn guð og drottinn, hjálpaðu mjer, frelsaðu sálu mína og vertu mjer syndugum líknsamur!

## 27. Kristur – athvarf og hæli syndaranna.

Hvernig get jeg huggað mig við þá von, að syndir mínar verði mjer náðarsamlega fyrirgefnar, og að jeg komizt rjettlátur af fyrir guði? Það er mín eina huggun og von, er jeg veit, að þó syndir mínar sjeu margar og miklar, þá yfirgnæfir samt náð guðs og miskunsemi vegna

sonar hans Jesú Krists; því ætíð er hann fús til að hjálpa oss í hvers kyns eymd og neyð. Því drottinn er líknsamur og þolinmóður, og ríkur af náð og miskunsemi; hann mun eigi ætíð ganga í dóm við oss (Sálm. 103), ekki heldur eilíflega geyma reiði sína; hann breytir ekki við oss eptir syndum vorum, og endurgeldur oss ekki eptir afbrotum vorum; því eins hátt og himininn er yfir jörðinni, eins lætur hann náð sína yfirgnæfa yfir þeim, sem óttast hann; eins langt og austrið er frá vestrinu, eins lætur hann afbrot vor vera frá sjer.

Öll þvílík fyrirheit heimfæri jeg upp á mig, auman og angráðan syndara; því það er mín aðalhuggun, að drottinn Jesús Kristur, fyrir hvern guð sætti heiminn við sjálfan sig, burtrak aldrei frá áugliti sínu nokkurn auman syndara, sem leitaði hælis hjá honum einum með sannri trú, heldur tók hann miskunsamlega að sjer, því hann vill rjettlæta og frelsa sjerhvern þann, sem snýr sjer til hans af hjarta. Ó, hver getur skýrt frá þeirri elsku, sem Kristur auðsýndi harmþrungnum syndurum? Hversu hjartanlega tekur hann að sjer hina angráðu tollheimtumenn og syndara, etur og drekkur með þeim! Og þegar Farisearnir bríxla honum um það, svarar hann með þeim orðum, sem jeg get líka haft af stöðuga og ævarandi huggun: heilbrigðir þurfa ekki læknis við, heldur þeir sem sjúkir

eru; jeg er ekki kominn til að kalla rjettláta til apturhvarfs, heldur syndara (Matth. 9). Hversu náðarsamlega miskunar hann sig yfir hina aumu hórkonu, sem grjet yfir syndum sínum, er hann segir við hana: farðu í burtu, trú þín hefur frelsað þig! Hversu miskunsamlega fyrirgefur hann ræningjanum á krossinum syndir hans, þegar hann segir: í dag skaltu vera með mjer í Paradís (Lúk. 23). Hversu hógværlega fer hann að samversku konunni, þangað til hún játar yfirsjónir sínar! Hversu blíðlega snýr hann sjer til Pjeturs (Matth. 26), sem hafði afneitað honum, og horfir á hann með þeim augum, sem viðkvæmnin skein út úr! Og þá er hann var upprisinn úr gröfinni (Mark 16), lætur hann fyrst og fremst boða honum upprisu sína, af því hann hafði misbrotið og hrasað meir en hinir lærisveinarnir, og þurfti þess vegna meiri huggunar við. Og hversu náðarsamlega miskunar hann sig yfir Sál, sem svo ákaflega hafði ofsókt hann og smánað, svo að hann ekki einungis fyrirgaf honum allar hans miklu syndir, heldur gjörði hann líka að ágætum postula og útvöldum eyrindsreka! Um það vitnar líka Páll eptir umvendun sína með þessum huggunarríku orðum (1 Tím. 1, 15): „Það er sannur lærdómur og í allan máta meðtækilegur, að Jesús Kristur er kominn í heiminn til að gjöra synduga hólpna, á meðal hverra jeg

er hinn helzti. En þess vegna hef jeg miskun öðlast; að Kristur sýndi á mjer stórsyndugum sitt mikla langlundargeð, til eptirdæmis fyrir þá, sem síðar trúa á hann, þeim til eilífs lífs". Þess vegna býður og kallar þessi hinn hógværi frelsari og sáluhjálpari enn þá til sín, eins og með útbreiddum faðmi, öllum angráðum og harmþrungnum syndurum, karli og konu: komið til mín allir þjer sem mæddir eruð undir byrði synda yðar, jeg vil endurnæra yður, og þann sem til mín kemur, skal jeg ekki frá mjer reka!

Þess vegna þarf ekki heldur nokkur angráður syndari að efast, því síður örvænta sjer og örvinglast; miklu heldur skal sjerhver kristinn maður segja með Páli: jeg veit á hvern jeg trúi, og er viss um, að hann mun geyma mjer það, sem mjer er lofað, allt til þess dags, þá er enginn hlutur skal framar skilja oss við þann kærleika guðs, sem er í Jesú Kristi.

## 28. Guð lætur Jesúm Krist kalla mennina til sín.

Þegar jeg hef sanna trú á Jesúm Krist, þá get jeg verið eins viss um útvalningu mína og sáluhjálp, eins og jeg er um nafnið, sem jeg er skírður með. En jeg dæmi það ekki eptir hyggjuviti sjálfs míns, leita ekki heldur að ástæðunum til þess í lögmálinu, eða í ytri sið-

semi breytni minnar; jeg ætla mjer ekki heldur að rannsaka guðs fólgna leyndarráð, og stíg þannig í huga mínum hvorki upp til himna, nje niður til undirdjúpanna, heldur gef einungis gaum að vilja guðs, sem opinberaður er í orðinu fyrir Jesúm Krist; því að guð hefur látið hann opinbera og birta leyndarráð vilja síns, svo það yrði mönnum kunnugt. En þegar jeg nú vil vita það sem guðs orð kennir enn frekar um þetta efni, þá svarar Páll mjer (Rómv. 8): þá sem guð hefur áður útvalið, kjörið og ákvarðað, þá hefur hann einnig kallað. Og drottinn Jesús Kristur segir, að guð hafi sent út þjóna sína, og látið þá kalla á gestina, sem hann vildi hafa í boði sínu, suma um fyrstu stundu dags, suma um þriðju, sjöttu, níundu og jafn vel um elleftu stundu. Þegar jeg nú hlýði og gegni þessari köllun og kem, þá veit jeg, að guð muni líka uppfræða mig með orðinu, snúa mjer til sín, og gjöra mig hólpinn. Því það er ætlunarverk heilags anda að útbreiða fagnaðarboðskap Jesú Krists, sem er kraptur guðs til sáluhjálpar þeim, sem trúa. Þess vegna trúi jeg orðinu og reiði mig á það, gef guði dýrðina og veit, að köllunin er meir en nafnið tómt, því það sem hann lofar í orðinu, það efnir hann líka. Til enn frekari styrkingar þessari minni trú, þá hefur guð gefið mjer hið heilaga skírnar sakramenti, þar er jeg íklæddist Kristi, sem hefur

hreinsað mig af öllum mínum syndum. Sje þá mín skírn sáttmáli góðrar samvizku við guð, sje hún mjer endurfæðingarlaug og endurnýung í heilögum anda, sem hann hefur ríkuglega úthellt yfir oss fyrir Jesúm Krist vorn drottinn, svo að vjer yrðum rjettlættir fyrir náð hans, og yrðum erfingjar eilífs lífs, þá get jeg heimfært upp á mig fyrirheitið um fyrirgefningu syndanna; og huggast eins af því og þó jeg heyrði rödd af himni, sem segði við mig: vertu hughraustur, þjer eru þínar syndir fyrirgefnar! Loksins fæ jeg í hinni heilögu kvöldmáltíð fulla vissu um mína útvalningu, að drottinn Jesús hafi látið lífið á krossinum fyrir mig, og úthellt fyrir mig blóði sínu til fyrirgefningar allra minna synda.

Þannig er það öflug og óbifanleg sannfæring mín: sjerhvern þann, sem guð vor drottinn kallar með sínu heilaga orði til apturhvarfs, þann vill hann gjöra sáluhólpinn; þeir sem leiðast af anda guðs til iðrunar, trúar, bænar, góðra verka og þolinmæði í þjáningum, þeir eru guðs börn; jeg finn líka, að þessi andi leiðir mig. Og jafnvel þó jeg megi játa, að þetta allt sje enn harla veikt hjá mjer, þá veit jeg samt, að af því mig hungrar og þyrstir eptir rjettlætinu, muni Kristur ekki brjóta í sundur hinn brákaða reir, nje útslökkva hinn rjúkanda hörkveik. Guðs andi vitnar með mínum anda, að jeg sje guðs

barn; hann hjálpar mjer í veikleika mínum, og þó jeg ekki viti sjálfur um hvað jeg á að biðja, eins og hæfir, þá gjörir andinn það fyrir mig með óumræðilegum andvörpunum.

Almáttugi, miskunsami guð! þú sem ekki hefur litið til vor í reiði, og vilt ekki að neinn glatist, heldur að allir snúi sjer, og hefur þess vegna gefið heiminum þinn eingetinn son, til þess að allir þeir, sem á hann trúa, hefðu eilíft líf; þú sem hefur boðið öllum mönnum að hlýða honum, svo þeir geti orðið hólpnir fyrir trúna á hann, og hefur þess vegna skipað fyrir um orðið og sakramentin, með hverjum þú verkar kröptuglega í oss fyrir heilagan anda! Jeg þakka þjer fyrir, að þú í þínu heilaga orði einnig hefur opinberað mjer allt þitt ráð og þinn vilja mjer til sáluhjálpar, og hefur útvalið mig í syni þínum Jesú Kristi, mínum endurlausnara og sáluhjálpara, áður en grundvöllur veraldarinnar var lagður, og hefur kallað mig fyrir krapt og meðverkan heilags anda í söfnuð hinnar heilögu kristilegu kirkju, svo að jeg skyldi líka öðlast fyrirgefningu syndanna og eilíft líf. Jeg bið þig auðmjúklega, fullkomna í mjer hið góða verkið, sem þú hefur sjálfur uppbyrjað, þínu nafni til dýrðar, en mjer til tímanlegrar og eilífrar velferðar. Ó, drottinn! þú veizt að margir heyra orðið með fögnuði, en sleppa því aptur úr hjörtum sínum.

Gjörðu mig þess vegna stöðugan, svo að jeg geti heyrt og geymt þitt orð í góðu og siðsömu hjarta, og borið ávöxt með þolinmæði.

## 29. Hin rjettlætandi trú.

Af því að náð guðs og endurlausn Jesú Krists, sem oss er fram boðin í evangelio, getur ekki náð til vor, nje komið oss að notum, nema vjer með trúnni meðtökum, tileinkum og heimfærum upp á oss tilboð þetta, sjálfum oss til huggunar og nota, þá geta syndugir menn ekki orðið sáluhólpnir nema með því skilyrði, að þeir með einlægri trú veiti meðalgangaranum móttöku með velgjörningum hans, og vilji þiggja guðs framboðnu náð; og höfum vjer fyrir oss augljósan vitnisburð um það allstaðar í heilagri ritningu. Hver sem *trúir* og verður skírður, segir guðs sonur, mun hólpinn verða, en sá sem ekki vill trúa mun fordæmast (Mark. 16, 16.). Svo elskaði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son, til þess að hver sem á hann *trúir*, ekki tapist, heldur hafi eilíft líf (Jóh. 3, 16.). Hver sem *trúir* á soninn, sá hefur eilíft líf. En hver sem ekki hlýðnast syninum, skal ekki sjá lífið, heldur varir guðs reiði yfir honum (Jóh. 3, 36.). Þurfum vjer að tilgreina fleiri vitnisburði, þar sem þá er að finna allstaðar í ritningunni, og þeir sýna allir augljóslega, að enginn geti orðið hólpinn án trúar?

Vjer verðum þó að gæta þess, að sú trú, sem vjer eigum að geta orðið hólpnir og rjettlátir fyrir, útheimtir fernt. Í fyrsta máta útheimtir hún *þekkingu* á hinum heilaga fagnaðarboðskap viðvíkjandi náðugum og miskunsömum vilja guðs með oss, og tign, embætti og velgjörningum drottins Jesú Krists; því menn verða að vita og skilja, að það sje vilji hins himneska föðurs, að enginn af þessum smælingjum glatist (Matth. 18, 11), heldur að hann elskaði oss og sendi sinn son til að friðþægja fyrir syndir vorar (Jóh. 4, 10); svo vjer getum verið vissir um að Jesús sje Kristur, það er: hinn lifandi Messías og drottins smurði, sem í heiminn er kominn til að gjöra synduga menn sáluhólpna; að hann sje guðs son, og að vjer fyrir trúna höfum lífið í hans nafni, og skulum ekki dauðann sjá að eilífu. Þesssi þekking er eins og frækorn, sem náð heilags anda sprettur upp af; og án hennar getur enginn maður trúað, eins og Páll vitnar: „Hvernig eiga þeir að trúa á þann, sem þeir ekki vita neitt um (Rómv. 10, 14)! Þess vegna segir líka guðs sonur: það er eilíft líf, að þeir *þekki* þig einan sannan guð, og þann þú útsendir Jesúm Krist. En því næst er trúin *samsinning* og viðkvæm tilfinning út af fyrir sig, sem andi guðs vekur í hjartanu, svo að vjer samsinnum öllum guðs orðum, játum að þau sjeu sönn og áreiðanleg, og tökum þau full-

gild ekki einungis að því leyti, sem bókstafinn snertir, heldur einnig að því leyti sem við víkur velferð vorri og sáluhjálp, einkum því, er vjer þekkjum og vitum af evangelíó um guðs náðuga vilja oss til handa, og um drottinn Jesúm Krist, hans friðþægingarembætti og endurlausn vora, sem vjer höfum fyrir hans blóð, sem er syndanna fyrirgefning (Kól. 1, 14). Þessi samsinning er eins og náttúrleg hlýindi, sem lífga frækorn þekkingarinnar, svo að það geti þroskast. En í þriðja lagi er trúin fólgin í *himneskri og hjartanlegri löngun eptir* að verða aðnjótandi guðs náðar, og velgjörninga drottins Jesú Krists, sem er fyrirgefning syndanna, ást guðs og eilíft líf, og sáluhjálplegt frelsi frá syndinni og þeirri ófarsæld, sem hún hefur steypt oss í. Til þeirrar hjartans löngunar fann Davíð, er hann segir: það var yndi og ánægja hjarta míns, að jeg gat vegsamað þig, drottinn! með glöðum anda; þegar jeg geng til rekkju, hugsa jeg til þín, og þegar jeg vakna aptur, tala jeg um þig (Sálm. 63, 6. 7). Sál mín þráir drottinn meir en næturvörðurinn, sem lengir eptir morgninum (Sálm. 130, 6). Þessi löngun eptir guðs náðarríku hjálp og velgjörningum Jesú Krists, er eins og getnaður trúarinnar í hjartanu. En loksins er trúin fólgin í þeirri *djörfung og trúnaðartrausti hjartans,* að vjer reiðum oss upp

á guð og frelsara vorn Jesúm samkvæmt hans náðarríku fyrirheitum, og tileinkum oss fullkomlega öll þau gæði, sem guð hefur lofað og Kristur hefur afrekað oss, svo að vjer ekki efumst af vantrú, heldur styrkjumst í trúnni og gefum guði dýrðina, með því vjer vitum upp á víst, að það sem guð lofar, það getur og vill hann efna; svo vjer erum þvegnir, helgaðir, rjettlættir fyrir Jesú nafn og vors guðs anda (1 Kor, 6, 11), og erum guðs börn, sæl í voninni án verðskuldunar sjalfra vor, og getum þess vegna kallað abba, elskulegi faðir! af því vjer höfum djörfung til að tala við hann, og megum óhræddir ganga fram fyrir hann vegna trúarinnar á Jesum Krist vorn drottinn. Þetta er fæðing trúarinnar í hjartanu, því nú endurfæðumst vjer og verðum hólpnir af náð fyrir Jesúm Krist, ekki af sjálfum oss, heldur er það guðs gjöf, og ekki vegna verkanna, svo að enginn hefur orsök til að stæra sig (Eph. 2, 9).

## 30. Bæn um stöðuglyndi í trúnni.

Ó, almáttugi og eilífi guð! jeg játa með hjartans angri og trega, að hvorki jeg eða nokkur maður annar er eptir eðli sínu rjettlátur fyrir þjer; því hvað er maðurinn, að hann skyldi vera hreinn, og hvernig getur sá verið lítalaus, sem fæddur er af kvinnu! Sjá, þú getur ekki reitt þig

á þína heilögu, og himnarnir eru ekki hreinir fyrir augum þínum, því síður maðurinn, sem drekkur í sig ranglætið eins og vatn (Jób. 15, 14—16). Æ, meðan vjer lifum hjer stutta stund og seðjumst órósemi; meðan líf vort upprætist eins og blóm, og líður yfir eins og skuggi, þá girnist holdið í móti andanum, og andinn í móti holdinu, og þetta er hvort upp á móti öðru, svo vjer getum ekki gjört það, sem vjer viljum. Heimurinn er fullur af hneigslunum, já, vjer eigum að stríða við illskunnar anda í loptinu. Þessir óvinir vilja svipta oss hinum himneska fjesjóð, sem oss er gefinn með syni þínum, en sem vjer berum í brothættum kerum; og það er enginn þróttur til í oss á móti þessum mörgu og öflugu óvinum vorrar velferðar; vjer vitum ekki hvað vjer eigum að gjöra, og mænum því augunum til þín. Drottinn! vertu þá fljótur til að hjálpa mjer; þú hefur kallað á mig með nafni, svo jeg er þín eign; vertu þess vegna hjá mjer hvar sem jeg er staddur; efldu mig með mætti þínum, og gjörðu veg minn greiðan og góðan. Gefðu mjer skjöld trúarinnar, og þín hægri hönd styrki mig, svo að jeg í þessu þunga stríði við holdið, heiminn og djöfulinn geti barizt góðri baráttu, varðveitt trúna og góða samvizku, geti allt vel af hendi leyst og yfirunnið vorn gamla óvin. Gef mjer náð þína og heilagan anda fyrir Jesú sakir, svo að

jeg ekki einungis geti trúað á hann, heldur líka þolað illt fyrir hans sakir, geti afneitað sjálfum mjer og tekið krossinn mjer á herðar, fetað á eptir honum og hræðist ekki þá, sem deyða líkamann, en geta ekki líflátið sálina; og þess vegna blygðist mín engan veginn fyrir Krist og lærdóm hans, heldur viðurkenni hann einarðlega og ákalli, horfi ekki í lífið sjálft, heldur láti það fúslega fyrir hann og lærdóm hans, ef það er þinn vilji, drottinn minn! Já, minn guð, sem jeg vona á, vertu mjer óvinnanleg borg, þar er jeg ætíð geti átt öruggt hæli! Þú sem hefur lofað að hjálpa mjer, burtskúfa mjer ekki í elli minni, yfirgefðu mig ekki þegar jeg verð veikur og hrumur! Gefðu mjer sáluhjálplegan viðskilnað og dauða, svo jeg verði talinn meðal þeirra, sem deyja í drottni! Láttu mig ekki deyja bráðum dauða, og sviptu ekki burt sálu minni í syndum hennar; unn mjer að halda meðvitund og rænu fram í andlátið; en þókknist þjer að svipta mig því, þá láttu samt náð þína vera máttuga í veikleika mínum, svo að jeg verði hólpinn af þínum mætti fyrir trúna, og geti, þegar Jesús Kristur opinberast, fagnað óumræðilegum og dýrðlegum fögnuði, og borið úr bítum endalok trúarinnar, velferð minnar sálar.

## 31. Sáluhjálplegt frelsi hinna endurfæddu.

Vjer skulum allir gefa rækilega gaum að því,

hversu mikils vjer erum metnir af vorum endurlausnara; vjer erum þjónar hans, vinir, bræður, limir á hans andlega líkama; og svo kemur að því, að eins og vjer erfum hjer, í landi trúarinnar, fyrirheitið og von eilífs lífs, svo verðum vjer líka samarfar Krists á síðan í ríki skoðunarinnar. Þeir sem eru sameinaðir guði föður og syni, þeir eru og sameinaðir heilögum anda; og það er þessi andi guðs sonar, sem gjörir sjerhvern kristinn mann stöðugan og fastan í hinu andlega frelsi, leiðbeinir honum og leiðir hann til hans rjetta föðurlands, og hjálpar honum til að sigra alla örðugleika; og eins og þessi andi endurfæðir manninn, endurnýjar hann og helgar, svo umskapar hann manninn líka eptir guðs mynd og gjörir hann æ dýrðlegri. Það er þessi andi vísdóms og opinberunar, sem lætur sjerhvern kristinn mann finna til þess, að elsku guðs er úthellt í hjarta hans, svo hann verður að játa, að Kristur, sem hefur fyrirbúið honum óumræðilega dýrð, veiti honum hjálp og aðstoð í öllum hans veikleika, vitni fyrir anda hans, að hann sje guðs barn, varðveiti hann allt að degi endurlausnarinnar, huggi hann í allri hryggð, leiði hann í allan sannleika og yfirgefi hann ekki um alla eilífð. Ó, hversu mikla yfirburði hafa þá ekki guðs börn yfir börn heimsins! Því heimsins börn geta ekki öðlast þennan anda, sjá hann ekki, þekkja hann

ekki. Það er þess vegna heiðursnafn kristinna manna, að þeir eru frelsingjar drottins, því víst er um það, að þeir sem frelsaðir eru af syninum, eru sannarlega frjálsir, og þar sem guðs andi er, þar er sannarlegt frelsi; því þeir eru frelsaðir frá bölvun lögmálsins, svo þeir verða eigi dæmdir fyrir syndir þeirra, frá valdi syndarinnar, svo hún stjórnar ekki yfir þeim, frá tímanlegum dauða, svo hann sakar þá ekki, frá eilífum dauða, svo þeir skulu ekki smakka hann. Ó, hve mikið frelsi hafa þá þeir, sem guð elskar og metur fram yfir þræla veraldarinnar! Þetta gjörir það að verkum, að kristinn maður getur gengið með upprjettu höfði mitt í gegnum allar þær þjáningar, sem fyrir hann geta komið í þessum eymdadal. Ó, guð! hversu mikil eru þau gæði, sem þú hefur fyrirbúið þeim, er óttast þig; hvað er maðurinn þess, að þú hugsir svo um hann, mannsins barn þess, að þú vitjir þess þannig, og krýnir það svo miklum heiðri og vegsemd! Hvað hef jeg til þess unnið, drottinn, að þú skulir hafa auðsýnt mjer allt þetta (2 Sam. 7, 18)! Hjálpa mjer, guð minn! að íhuga rjettilega þessa mína farsæld, og auðsýndu mjer að lokum af þinni óendanlegu miskunsemi þá náð, að það sem jeg nú hef í vændum, það verði á síðan eign mín, það sem jeg nú hef í trúnni, það verði á síðan hlutskipti mitt hjá öllum útvöldum í eilífu lífi.

## 32. Guðs orð.

Orðin eru það, sem lýsa bezt hugsunum og tilfinningum manns, og af því eðli hans er svo spillt, þar sem hið illa loðir jafnan við hann, þá hafa líka orðin mátt í sjer til að lýsa því; þau hafa þann hryggilega mátt — því neitar enginn maður — að leiða afvega og í villu, að losa um grundvöll trúarinnar, skerða sannleika og rjettlæti, að angra, særa og spilla. En hver getur aptur neitað því, að orðin hafi líka í sjer mátt til að blessa? Hlustaðu á orð hins vitra, og sjáðu hversu það leysir úr því, sem torskilið er í náttúrunni og atburðunum; það brýzt inn í sálina, eins og það kom út frá henni, vekur gáfurnar sem liggja þar í dái, og glæðir hinn heilaga eld; það styrkir veikan vilja, frelsar unglinginn eins og með handafli frá djúpi glötunarinnar, huggar hinn harmþrungna, kveikir vonina í brjósti hins örmædda, festir rætur innst í hjartanu, og kemur þaðan iðuglega í ljós á ný, og þó að árin líði og skiptist um, megna þau ekki að afmá það. En hvað helzt það er, sem vjer viljum þannig koma til leiðar með orðunum, hvort sem vjer viljum uppfræða, eða áminna, eða hugga, hversu lengi og með hvílíkri fyrirhöfn verðum vjer þá ekki að leita að þeim orðum, sem eiga bezt við, hversu óvissir erum vjer ekki opt um, hvort vjer höfum hitt á þau,

og hversu opt sönnum vjer ekki, að þau hafa ekki í sjer þann mátt, að þau geti hrundið efasemdunum, að þau geti smeigt sjer inn í merg og bein, að þau geti dæmt ráð hjartans og hugrenningar? En hefur þá aldrei rödd sannleikans heyrst í veröldinni með æðri myndugleika, en einungis mannlegum? Talar guð einungis við oss í óljósum ráðgátum gegnum náttúruna, gegnum rás hlutanna, gegnum tilfinningar hjartans? Hefur hann ætlast til, að maðurinn skyldi með eigin gáfum og hyggjuviti geta fundið og fært í letur það orð, sem eitt megnar að veita sálunni hvíld? Ó, það er til *guðs orð* — allur vor kristindómur hvílir á þessari játningu — sem boðað hefur verið á undarlegan hátt, því það er komið af himnum ofan með sjerlegum atburðum, til að leiða í ljós hið fólgna, til að skýra hið hulda, til að leysa úr ráðgátum lífsins; það er til orð, þar er guð hefur opinberað sig fyrir mönnum æ skýrara og skilmerkilegar; hann ljet það hljóma þegar snemma á öldum, og ætlaðist til, að það skyldi geymast til enda veraldarinnar. Það óx fyrst í kyrrþey eins og trjeð upp af kvistinum niður í jörðunni; en það hefur breitt lim sitt langt út yfir löndin, það hefur fest rætur djúpt niður í jörðunni; það hefur ljómað eins og ljós þeirrar stjörnu, sem daprast ekki; það hefur runnið áfram eins og ljómi sólarinnar, sem skín frá austri til vesturs,

og lýsir eins yfir hreysi aumingjans og höll konungsins. En trjeð visnar upp og sá tími kemur, er enginn getur fundið skýli undir limi þess; sterkasta eikin í skóginum fellur einhvern tíma um koll, þó hún hafi staðið í margar aldir; það kemur líka að því að stjörnuljósið hættir að blika niður yfir jörðina, og ljómi sólarinnar slokknar út af; en guðs orð varir að eilífu; og þó að grundvöllur jarðarinnar hristist, og himinhvolfið bresti í sundur, *skal þó guðs orð standa stöðugt,* því það sem það kennir, er sannleiki hins eilífa, sem aldrei getur raskast, og það sem það lofar, er ráðstöfun hins almáttuga, sem hlýtur að koma fram.

Ef annarstaðar væru til orð, sem vjer með eins miklum sanni gætum kallað guðs orð; ef annarstaðar hefðu verið töluð og trúlega geymd nokkur orð, sem guð hefði gefið slíkan myndugleika til að birta ráð hans og vilja, og sem guð hefði eins fyllilega staðfest, þá skyldum vjer með gleði veita þeim móttöku. En nú er allt það, sem vjer dirfumst að nefna nafni þessu, safnað og geymt oss í *ritningunni,* og þess vegna köllum vjer hana líka heilaga; sjerhver þjóð, sjerhver öld skal leita að speki í henni, hún skal ganga frá einni kynslóð til annarar, og allar skulu þær bera vitni um hve ágæt hún er.

En sje þvílíkt orð til, þá eigum vjer að

lúta því með djúpri lotningu. Það á ekki að sækja vizku til vor, heldur vjer alla vizku til þess; vjer eigum ekki að drottna yfir því, heldur það yfir oss. Að sönnu er guðs orð ekki gefið oss til þess, að vjer skulum sjálfir hætta allri ransókn, stara á dauðan bókstafinn og láta hann fjötra alla hugsun vora. Það er gefið oss til að skerpa gáfur vorar, til að efla þekkingu vora og hyggindi, til að lífga anda vorn, svo hann geti sýnt sig í öllu sínu fjöri; vísindamaðurinn á að útþýða það fyrir öllum, sem hann getur náð til, og kennimaðurinn fyrir hinum fjölmennu kirkjusöfnuðum; og þýðingin má hafa allt löglegt frjálsræði, svo hún geti reynt að komast sem næst helgidómi sannleikans, og geti æ betur og betur útskýrt leyndardóm trúarinnar. En orðið sjálft áttu að láta halda sjer, við það ertu bundinn; það á að leiðbeina ransókn þinni og eptirgrennslan, en þú mátt ekki víkja því og snúa eptir vild þinni; *það á að dæma þig, en þú ekki það.*

## 33. Guðs orð.

Ekkert meðal er til, sem geti helgað mennina, nema einungis guðs orð; það er eina rjetta meðalið til þess. Gott uppeldi getur mentað oss, en ekki helgað; vjer getum hegðað oss siðsamlega, og lifað sómasamlega fyrir manna sjónum, já, vera má að vjer af náttúrufari sjeum

viðkvæmir og samvizkusamir, svo vjer hvorki viljum sjálfir gjöra rangt, nje getum þolað ó-rjett af öðrum, sjeum hreinskilnir í umgengni, svo vjer eigi tölum annað en það, sem vjer meinum, ekki lofum öðru en því, er vjer ætlum að efna. Allt þetta getur heiðinginn haft til að bera, af því hann er svo góður í sjer af náttúrunni, hefur fengið gott uppeldi og gætir sjálfur sóma síns. En getur þú kallað þetta helgun? Nei, fjærri fer því; *guðs orð* eitt kennir hana, og *andi guðs* verkar hana með *orðinu*; svo að guðs orð er bæði mælisnúra vorrar helgunar og meðal til hennar, því guðs orð er lagað til þess að kefja niður syndina, og gjöra manninn hæfan til dyggðar; guðs orð, sem inniheldur leyndardóm guðhræðslunnar, er sjálft vissasti leiðarvísir til guðhræðslu. Í guðs orði er hin sáluhjálplega náð opinberuð, sú er kennir oss að afneita óguðlegu athæfi og veraldlegum girndum, en lifa siðsamlega, rjettvíslega og guðrækilega í heimi þessum; og þennan tilgang, sem orðið hefur, eflir það ekki einungis með boðorðum sínum og leiðbeiningum til sannrar helgunar, ekki einungis með því að það veitir hinar sterkustu hvatir til helgrar breytni, jafnframt því sem það skipar hana, ekki einungis með því að það setur oss fyrir sjónir ágætustu dæmi upp á dyggð og heilagleika, og einna helzt Jesú algjörða eptirdæmi, ekki einungis

með því að það heitir oss dýrðlegustu umbun fyrir sanna helgun bæði þessa heims og annars; því jafn vel þetta allt væri þó ekki einhlýtt til að þrýsta voru spillta eðli, sem guði er orðið svo fráhverft, til að stunda af kappi eptir heilagleika, ef guðs orð hefði það ekki fram yfir öll manna orð, að það veitir *máttinn til að verða heilagur,* og er ekki einungis dauður bókstafur, sem að sönnu getur skipað, kennt, áminnt, upphvatt og jafnvel hrært, en verður svo að láta allt annað vera komið undir sjálfum oss og vorum eigin mætti. En það er öðru nær en svo sje! Guðs orð er líf og andi, og hefur yfirgnæfanlegt lífsafl til að verka það í oss, sem það heimtar; því það er aldrei einsamallt, heldur verkar ætíð með orðinu *guðs andi,* andi heilagleika og helgunar, svo þegar orðið snertir skilningarvit líkamans, þá hrærir guðs andi jafnframt hugskot allra þeirra, sem ekki forherða hjörtu sín. Þetta gjörir það að verkum, að guðs orð er ekki einungis mælisnúra fyrir helguninni, heldur líka *hjálparmeðal* til hennar. Heyri því allur lýður! Sje helgunin svo nauðsynleg, að án hennar geti engum auðnast að sjá guð (Hebr. 12, 14), og sje guðs orð eina meðalið til helgunar, þá hljóta allir, sem girnast helgun sína, að halda sjer við þetta orð, lesa það og heyra með kostgæfni, íhuga það rækilega, og hafa það fyrir þá fæðu, sem mett-

að geti til eilífs lífs. Sæll er sá maður, sem vakinn og sofinn hefur ánægju af lögmáli drottins! Hann er eins og eik sú, sem gróðursett er á vatnabökkum, sem ber aldini á rjettum tíma og fellir ekki laufblöð! (Sálm. 1, 2—3).

## 34. Bænin.

Málfærið er sjerleg guðs gjöf; það hefur góður guð gefið manninum einum, svo sem ágætustu skepnu á jörðunni. En að hafa málfærið til að tala við guð, það er mikla betra og háleitara, en þegar maður talar einungis við mann. Þetta himneska samtal gjörir ekki einungis aðskilnað milli mannsins og dýranna, heldur gjörir það einkum aðskilnað milli hinna vantrúarfullu og hinna trúuðu guðs barna; því þar sem hin vantrúuðu og óguðlegu börn heimsins selja sig á vald jarðneskum hlutum með óseðjandi fýkn, þá leita allir sannkristnir menn og guðs börn síns æðsta fagnaðar og sælu í því, að þau í hjartnæmum og innilegum bænum og ákalli lypta huga sínum upp til drottins, og ásamt með hinum heilögu englum tilbiðja, lofa og vegsama hinn hæsta.

Tvennt er það, sem um fram allt útheimtist af sjerhverju guðs barni, sem rjettilega vill biðja, og ber hverjum manni að gefa nákvæmar gætur að því, ef hann á annað borð vill fá bænheyrslu; fyrst að hann *treysti ekki upp á*

*verðugleika sjálfs síns,* þar næst að hann ekki *örvænti* vegna *óverðugleika* síns.

Eins og bænin megnar ekkert án trúar, eins er hún líka með öllu árangurslaus án auðmýktar; því eins og frækornið, sem sáð er í jörðina, gefur aldrei af sjer neinn gróða, nema það áður deyi út af í jörðunni, eins getur ekki heldur maðurinn fengið styrk heilags anda til að biðja rjettilega, nema hann áður deyði allan sjálfsþótta, og afneiti rjettlæti sjálfs síns. Eins og enginn maður getur með sama auganu horft bæði á himin og jörð, eins getur ekki heldur nokkur maður, sem lítur á verðugleika sjálfs síns, og metur hann nokkurs, þó hann sje einskisvirði, lypt augum hjartans í bænum sínum upp til drottins, og horft inn í hans himnesku híbýli. Þar á móti þegar maðurinn í sannri hjartans auðmýkt játar, að hann af eigin ramleik megni alls ekki neitt, þá leiðist hann af því til að leita drottins í auðmjúkri og guðrækilegri bæn, og biðja hann um náðarríka hjálp og aðstoð, svo að hið góða í oss geti bæði uppbyrjað og ávaxtast; enda úthellir líka drottinn þá fyrst ríkuglega yfir hann straumum sinnar náðar fyrir heilagan anda; því heilagur andi er það einmitt, sem styrkir oss og stöðuga gjörir í bæninni, trúnni og kærleikanum.

En hitt, sem sjerhvert guðs barn, er rjettilega vill biðja, verður að hafa hugfast, er að

það engan veginn má örvænta um bænheyrslu vegna óverðugleika síns. Því þess konar freistni fælir opt auman syndara frá bæninni. En til þess að ekkert guðs barn örvænti um bænheyrslu, þá skal það gæta þess, að eins og verðleiki og styrkleiki sjálfra vor getur engan veginn hjálpað oss, eins getur ekki heldur óverðugleiki vor hamlað því, að vjer verðum bænheyrðir, svo framarlega sem vjer ekki höfum látið andvaraleysi aptra oss frá sönnu apturhvarfi. Því þeim, sem snúa sjer einlæglega til guðs, þeim fyrirgefur guð syndir þeirra og lesti, og afmáir öll þeirra afbrot vegna pínu og dauða sonar síns, svo að hann vill ekki minnast þeirra að eilífu. Þess vegna kemur ekki fordæming yfir þá, sem eru í Jesú Kristi. Hver sem því örvæntir um bænheyrslu vegna óverðugleika síns, hann metur ekki rjett pínu og dauða Jesú Krists, sem er þó eina meðalið til þess að vjer fáum áheyrn og bænheyrslu; og sá hinn sami getur á endanum fallið í örvinglun.

Gættu þín þess vegna, guðhræddi maður! að þú ekki í hinni háleitu og heilögu bænariðju víkir út af rjettum vegi, hvorki til hægri nje vinstri hliðar; gættu þess, að eins og þú mátt ekki treysta upp á verðugleika sjálfs þíns, eins áttu ekki heldur að örvænta þjer vegna óverðugleika þíns; því þá hina fávísu heimsins hefur guð útvalið, svo hinum vitru gjörðist kinnroði, og þá

sem ekkert þótti í varið, hefur hann útvalið til þess að gjöra ekkert úr þeim, sem nokkuð þótti í varið, svo að enginn skuli hrósa sjer fyrir guði. En honum er það að þakka, að vjer erum komnir í samfjelag við Jesúm Krist, sem oss er orðinn speki frá guði til rjettlætis, helgunar og endurlausnar, svo hver sem vill hrósa sjer, hann hrósi sjer af guði (1 Kor. 1, 27—31). Guð komi til! — ef drottinn ætti ekki að bænheyra oss og hjálpa, fyr en vjer sjálfir yrðum þess maklegir, þá fengjum vjer aldrei hjálpina.

## 35. Bænin.

Ef að einhver, sem menn væru að brýna fyrir nytsemi bænarinnar, skyldi hafa á móti henni og segja: það kemur þó opt fyrir, að guðs börn fá ekki það, sem þau biðja um; og hvernig getur það staðizt með því, sem Kristur fullvissar menn um, að hvað helzt sem hinir trúuðu biðji guð um, þá muni hann veita þeim það? þá svarast því á þessa leið: guð hlustar föðurlega á bænir allra sinna barna, og þegar hann heyrir þær, fer hann að með þrennu móti: sumum bænum barna sinna fullnægir guð þegar í stað; aptur frestar hann að fullnægja sumum; og sumir, sem biðja, öðlast alls ekki það sem þeir biðja um, en þeir fá þá annað í þess stað, sem þeim er betra og hollara.

Hin fyrsta aðferðin kom fram við lærisvein-

ana, þegar þeir báðu um hjálp í sjáfarháskanum; Jesús stóð þá upp án tafar, hastaði á vind og sjó, svo það varð logn (Jóh. 5). Sama kom líka fram við Pjetur, þegar hann bað um hjálp, er honum lá við að sökkva; Jesús tók þegar í hönd hans og frelsaði hann. Sama náð veitist enn í dag sumum guðs börnum; það kemur fram, sem ritningin segir, að áður en þeir kalla, svarar guð, og meðan þeir eru að biðja, bænheyrir hann þá (Es. 65, 24). Eptir þessu breytir þá guð við oss, eins og guðhræddur maður við bágstaddan náunga sinn; hann hefur ölmusuna á reiðum höndum óðar en um hana er beðið; já, stundum mætir guð bænum barna sinna á miðri leið, eins og faðirinn, sem fór að heiman langa leið, og gekk með ást og eptirþrá á móti syni sínum, sem í ógæfuna hafði ratað (Lúk. 15, 19).

Annar mátinn, sem guð hefur, er hann frestar bænheyrslunni, sjáum vjer að kom fram við blóðfallssjúku konuna, sem í 12 ár hafði verið þjáð af sjúkleika sínum (Matth. 9, 20). Það er enginn efi á því, að í svo langan tíma hefur hún opt sent andvörp til drottins um hjálp og frelsi; en hún varð að bíða eptir því þann tíma, sem ráð guðs hafði ákvarðað; sjúklingurinn við Bethesdubrunn varð að liggja rúmfastur í 38 ár, áður hann varð heilbrigður. Jeg gæti komið með fleiri dæmi; en jeg ætla einungis að vitna til þess, sem Jesús svaraði móður sinni, þegar

hún tjáði honum vínskortinn, er hann segir: stund mín er enn ekki komin; en hún kom eigi að síður. Eins máttu vera viss um það, kristinn maður! að hjálpin, sem þú biður um, kemur einhvern tíma seint eða snemma; en meðan þú bíður eptir henni, máttu ekki láta hugfallast, eða fara að örvænta; þú mátt ekki segja eins og Zíon: drottinn hefur yfirgefið mig, drottinn hefur gleymt mjer (Es. 49, 14). Nei, það hefur aldrei komið fyrir, og mun aldrei verða að guð yfirgefi sína. Guð gleymir ekki nokkrum smáfugli; skyldi hann þá geta gleymt þjer, sála mín! sem hann álítur eins og barn sitt. Það mátt þú aldrei ímynda þjer um hann. En fari svo, að órósemi og kvíði ásæki hjarta þitt á meðan þú bíður, þá farðu að eins og Davíð, rektu sorgina burt með sálmasöng og bæn til guðs, sem er þinn lífgjafari; og hvað gjörir það í rauninni til, þó þú eigi getir sungið og beðið þjer til friðnnar og gleði? Það bregzt þó ekki, að guð gefi börnum sínum á endanum það, sem þeim er fyrir beztu. Þó það kæmi ekki í gjær, sem þú baðst guð um, þá getur það komið í dag; og komi það ekki heldur í dag, þá getur guð sent þjer það á morgun. Ó, hvað lengi bíður guð ekki eptir oss mönnunum! Hversu langt líður ekki um, áður hann geti snúið hjörtum þeirra til sín, hversu opt verður hann ekki að berja á dyr, áður en þeir ljúka upp fyrir

honum! Og þegar vjer gætum að þessu öllu eins og það er, þá ætti oss ekki að furða á því, þó vjer þyrftum um stund að bíða eptir bænheyrslunni.

En komi það líka fyrir, að hinir trúuðu öðlist ekki það, sem þeir biðja um — því um bænir hinna óguðlegu vil jeg ekki tala; af því þeir gjöra ekki neitt, sem guði líkar, þá er einnig bæn þeirra einber synd fyrir guði, og fórn þeirra andstyggð fyrir honum, og því fer svo fjærri að guð geti fullnægt bænum þeirra; hvað mikið sem þeir biðja, þá vill hann ekki heyra þá, því hann snýr augliti sínu frá bænum þeirra (Sal. Orðskv. 1, 26), — en jeg tala einungis um bænir hinna guðhræddu, og svara þeim, sem spyrja: hvers vegna þeir fái ekki allar bænir sínar? svara þeim því: auk þess að guð, sem er óransakanlegur í ráðstöfunum sínum, hefur sínar sjerlegu og huldu orsakir til þess, sem vjer getum ekki skilið í, fyr en vjer komum til hans í himnaríki, þá eru því líka til fyrirstöðu aðrar kringumstæður, sem vjer getum allir þekkt. Stundum ber það við, að oss yfirsjest í því, sem vjer biðjum um; ætti þá guð líka að láta sjer yfirsjást í því að veita oss það? Ætti speki guðs að laga sig eptir fávizku vorri? Þegar barnið vill hlaupa út í eldinn, af því það hefur ekki vit fyrir sjer, þá lofar faðir þess því það ekki, af því hann vill barninu vel; þegar bæn vor stefnir að einhverju, sem oss er

skaðlegt, þá lætur guð henni ekki verða fram gengt, svo vjer eigi skulum ratà í ógæfu. Oss yfirsjest í mörgum greinum; oss yfirsjest líka opt í bæninni, því vjer vitum ekki hvers biðja ber. Hugleiddu þetta, og láttu þjer ekki fallast um það, þó þú öðlist ekki ætíð það sem þú biður um; gættu þess heldur, að þjer er það sjálfum fyrir beztu, að guð synji þjer um það. Maður nokkur, sem var fæddur haltur, svo hann gat ekki gengið, sat við musterisdyrnar (Post. Gjörn. 3, 3) og bað ásamt öðrum fleiri Pjetur og Jóhannes um ölmusu; hana fjekk hann ekki, því Pjetur átti hvorki gull nje silfur til að gefa honum; en hann fjekk það sem var dýrmætara öllu gulli og silfri, hann fjekk fulla heilsu; því Pjetur læknaði hann í Jesú nafni, svo maðurinn gat gengið, stökk upp og lofaði guð. Gjör þú slíkt hið sama, lofaðu og vegsamaðu guð einnig þá, er hann synjar þjer um það, sem er minna í varið, af því hann ætlar í þess stað að gefa þjer það, sem ágætara er. Sjerhvað sem þú biður guð um af andlegum og himneskum gæðum, það veitir hann þjer ríkuglega; og þannig er þá bæn þín aldrei árangurslaus; þó hún veiti þjer ekki ætíð það, sem hold og blóð girnist, þá veitir hún þjer það, sem gagnar þjer um alla eilífð. Svo hagnýttu þá, kristinn maður! þennan hamar bænarinnar, og berðu með honum seint og snemma á dyr náðarinnar í nafni

frelsara þíns; láttu það vera fyrstu og seinustu iðju þína á hverjum degi að tala við guð í bænum þínum!

## 36. Skìrnin.

„Hjer er guðs hús og dyrnar á himnaríki, og jeg vissi það ekki,“ sagði forðum daga forfaðirinn Jakob, þegar hann vaknaði eptir hinn blíða næturblund, er hann hafði dreymt svo bert fyrir sjer, þar sem hann þókktist sjá engla líða upp og ofan milli himins og jarðar, og sjálfur meðtaka blessun drottins af hæðum ásamt fyrirheiti um landið, þar sem hann þá að eins hafði stein til að halla upp að höfði sínu. Þannig fórust honum orð, og víst mætti sjerhver af oss segja hið sama, þegar vjer, sem höfum vaknað upp í helgu dagsljósi með Kristi, minnumst *skírnar* vorrar; því ef vjer trúum því og finnum það, að endurgetningarlaugin í heilögum anda frelsi sálu vora, þá er skírn vor sannarlega dyr handa oss á guðs húsi, og inngangur fyrir oss í himnaríki, og vjer getum með sanni sagt: *vjer vissum það ekki,* vjer sem hlutum skírn áður en vjer vissum handa vorra skil, vjer sem meðtókum blessan drottins með fyrirheiti um hlutskipti heilagra í ljósinu, meðan vjer láum í reifum, og megnuðum ekki sjálfir að vegsama guð, föður vors drottins Jesú Krists, sem af sinni miklu miskunsemi, hefur endur-

fætt oss til lifandi vonar fyrir upprisu Jesú Krists frá dauðum, svo að vjer erum greptraðir með honum í skírninni til dauða, til þess að vjer rísum upp með honum, og byrjum nýtt blessunarríkt líferni fyrir augliti guðs í ljósi lifandi manna!

Æ, látum þá þetta innilega hræra hjörtu vor og hugskot, og innræta oss eilíft og óendanlegt þakklæti við þríeinan guð, vorn heilsu- og lífgjafara; og látum alla sorg og hryggð yfir því að vjer urðum hluttakandi í syndinni og dauða sekir, áður en vjer vissum af, hverfa eins og næturþoku á sumarmorgni fyrir árgeislum sólarinnar, fyrir gleðinni yfir því, að, áður en vjer vissum líka af, hljómaði rödd drottins með krapti og dýrð yfir skírnarvatninu, þá er vjer vorum fyrst nefndir á nafn; svo að verndarenglar ungbarnanna báru oss brosandi í gegnum skuggadal dauðans inn í guðs hús og að borgarhliðum himnaríkis, þar er vjer vöknuðum af himneskum draumi, mitt á lífsins vegi, með blessaðan ferðastafinn, sem guð hafði fengið oss til að styðja fætur vora, og til að taka í höndum vorum smátt og smátt þeim umskiptum með undarlegu móti, að verða úr blómkvisti að pálmaviðargrein, sem aldrei fellir blöð, heldur býr til yfir oss laufskála, þar sem eilíflega er gott að vera fyrir augliti hans, sem ljómar eins og sólin í sinni dýrð! Já, ef vjer kunnum nokkurn veginn að meta gæfu vora, og,

eins og Jóhannes segir, þann kærleika, sem faðirinn hefur elskað oss með, svo að vjer getum með sanni kallast börn hins hæsta, og eigum meira í vændum, en nokkur af oss geti vitað, fyr en sá opinberast, sem mun gefa oss augu til að sjá sig með, eins og hann er, svo að vjer getum grannskoðað hans eilífu guðdóms dýrð, sem einungis er augljós fyrir líkum hans; ef vjer kunnum að meta þá blessun, sem yfirgengur allan mannlegan skilning, þegar vjer hugleiðum hana með lifandi tilfinningu, og lætur alla þá meðvitund, sem til er í oss um guðs sannleika, brjótast fram í gleðitári, sem er eins og einn dropi úr þeim lífsins straumi, er dýrð drottins speglar sig í, æ, þá látum oss aldrei gleyma, *hvar* vjer urðum guðs börn, og *hvað það er*, sem veitir oss borgararjett í föðurlandi voru á himnum, þar sem Jesús Kristur situr hjá guðs föðurs hægri hönd, og þaðan er hann mun koma til að verða dýrðlegur í sínum heilögu og dásamlegur í öllum sínum trúuðu! Því það er áreiðanlegur lærdómur, sem hinn mikli postuli kennir oss, að þegar miskun og gæzka guðs vors frelsara opinberaðist oss mönnunum, þá frelsaði hann oss ekki vegna góðverka þeirra, sem vjer höfðum gjört, heldur af miskun sinni fyrir *endurfæðingarlaugina* og endurnýungina í heilögum anda, sem hann hefur ríkuglega úthellt yfir oss vegna Jesú Krists vors frelsara, svo að vjer

rjettlættumst fyrir náð hans, og yrðum erfingjar eilífs lífs eptir voninni. Á þessum hæga vegi leiðir oss guðs góði andi aptur frá þeim mörgu villustigum, sem vjer höfum sjálfir valið oss og kjörið, svo það skuli ekki verða oss til ásteytingar, falls og villu, heldur til auðmýktar, til framfara og upplýsingar, er vjer vorum teknir í samfjelag heilagra og komum inn í guðs hús, áður en vjer vissum af, og vorum, áður en vjer höfðum vit á, lifandi sjónarvottar að því, að hann varðveitir inngang og útgang sinna til eilífðar.

## 37. Skìrnin.

Láttu skíra þig og afþvo syndir þínar, sagði Ananias við Pál, eins og Pjetur hafði sagt við Gyðinga þá, sem fyrstir tóku trú eptir himnaför Krists: látið skíra yður í nafni Jesú Krists til fyrirgefningar syndanna, og þjer skuluð öðlast gjöf heilags anda. Vjer erum nú áður skírðir í nafni hins þríeina guðs, og höfum meðtekið heilagan anda til fyrirgefningar syndanna, svo vjer skulum eigi láta skíra oss upp aptur, að vjer eigi óvirðum heilagan anda. En því miður vitum vjer það líka af hryggilegri reynslu, að vjer höfum ekki meðtekið heilagan anda í skírninni öðruvísi en svo, að vjer getum eptir á hryggt hann og staðið í móti honum (Eph. 4, 30); vjer höfum ekki öðlazt synda

fyrirgefningu í skírninni öðruvísi en svo, að vjer getum mist hana aptur, já, dáið út af í syndunum, ef vjer deyjum í vantrú án samfjelags við þann, sem vjer vorum sameinaðir í skírninni; því sá sem ekki trúir skal verða fordæmdur (Mark. 16, 16). Þess vegna eigum vjer allir daglega að láta skírnargáfuna þróast, og bera ávöxt með endurnýungu í heilögum anda. Þess vegna áttu, kristinn maður! að endurnýja skírnarsáttmála þinn, að þú skulir varðveita góða samvizku alla ókomna æfidaga. Svo gjörðu þig þá aptur að barni, að guðs barni í Kristi, allt eins og þú ljetir skíra þig á ný; snúðu þjer til guðs þíns skapara með sonarlegri hlýðni og auðmýkt, því þú ert svo skírður í föðursins nafni; haltu þjer með trúnaðartrausti í hönd hans eingetins sonar Jesú Krists, þíns frelsara, því þú ert svo skírður í sonarins nafni; láttu hjarta þitt umskapast og endurnýjast af anda föðursins og sonarins, því þú ert svo skírður í nafni heilags anda. Og láttu afþvo syndir þínar! Páll hafði ofsókt söfnuð drottins; þess vegna mátti með sanni bera honum á brýn, að hann væri syndugur og þyrfti fyllilega með syndafyrirgefningar. En heyr þú, maður! hefur þú ekki gjört hið sama? Líkamlega getur þú ekki ofsókt drottinn, því hann situr of hátt til þess í híbýlum föður síns; og óvinir hans geta þar ekki náð til hans. En andlega

getur hver sá ofsókt hann, sem stendur í móti anda hans. Hefur þú þá ekki ofsókt hann, þegar þú ljezt varir þínar tala orð lýginnar? Varstu þá ekki uppi á móti því ríki *sannleikans*, sem hann kom til að stofna? Hefur þú ekki ofsókt hann, þegar þú geymdir hatur og reiði í hjarta þínu? Varstu þá ekki uppi á móti því ríki *friðarins*, sem hann kom til að hefja? Hefur þú ekki ofsókt hann, þegar þú ljezt öfund og sjerplægni ríkja í brjósti þínu? Varstu þá ekki uppi á móti því ríki *kærleikans*, sem hann kom til að útbreiða? Hefur þú ekki ofsókt hann, þegar þú ljezt girndir holdsins yfirbuga andans góðu hræringar — eða ertu þá ekki uppi á móti því ríki *heilagleikans*, sem hann kom til að efla? Láttu því afþvo syndir þínar? Hvar get jeg látið gjöra það? spyr þú. Upp úr sandinum á Golgata sprettur heilög lind. Sá sem þar úthelti blóði sínu til að afþvo syndir þínar, skipar oss að standa á fætur, en gefur oss sjálfur jafnframt máttinn til þess; hann skipar oss ekki að endurnýjast í heilögum anda og byrja nýtt líferni, án þess að fyrirgefa oss áður drýgðar syndir. Hann hefur ekki hálfverk á neinu sem hann gjörir. Þeir sem komast á fund hans, finna á sjer krapt bæði endurlausnarinnar og endurfæðingarinnar. Svo heyr þú þá, maður! sem frelsaður ert úr fangelsi syndarinnar, sem hefur risið upp

úr þinni andlegu eymd, heyrðu hvað hann, sem frelsaði þig, segir enn þá við þig: syndgaðu ekki framar, svo eigi hendi þig annað verra! Þannig endurskírir hann þig með anda sínum; þannig afplánar hann syndir þínar með blóði sínu.

## 38. Kvöldmáltíðin.

Fyrst að vjer höfum í skírninni öðlast hlutdeild í rjettlæti Jesú Krists, og höfum fyrir það fengið aðgang til guðs ríkis, hvers vegna gjörist þá þörf á öðru sakramenti? Æ, því er eins varið fyrir oss og þeim manni, sem farið hefur í hreint og fallegt fat, en hefur látið hvern blettinn falla á það eptir annan, hann verður að neyta allra meðala til að ná blettunum úr aptur. Eins höfum vjer í skírninni íklæðzt hreinleika og sælu Jesú Krists, eins og hvítum skrúða; en þennan skrúða sakleysis vors höfum vjer opt flekkað, þar sem vjer í frá æsku vorri höfum þjónað syndinni og rofið skírnarsáttmála vorn. Þess vegna er þá hið heilaga kvöldmáltíðar sakramenti stofnað til þess, að vjer skulum þar endurnýja skírnarloforð vort, huggast á ný og fullvissast um þá sameiningu, sem er á milli Krists og vor, og á að verða um alla eilífð. Að sönnu hefur heilagur andi í skírninni tendrað eld trúarinnar í hjörtum vorum; en eins og þess þarf við með allan jarðneskan

eld, að hann sje glæddur, að honum hlynnt, og í hann borið eldsneyti, ef hann á ekki að slokkna út af, eins er kvölmáltíðar sakramentið meðal til þess að tendra og glæða á ný trú vora og aðrar dyggðir, sem henni eru samfara, t. a. m. elskuna, guðrækuina, guðs óttann. Jesús, vor frelsari! þú ert ætíð vinur vor, en hvergi finna trúmenn þínir betur til ástríkis þíns og miskunar, en í þessari *kærleiksmáltíð;* og þess vegna er öll jarðnesk gleði og ánægja eins og ekkert í samanburði við þann fögnuð, sem guðs börn njóta í þessu sakramenti. Því þegar vjer göngum að þessu borði, þá er eins og vjer í anda og trú sjáum þig, drottinn Jesús! Það er eins og vjer heyrum þig kalla með eigin munni: komið til mín allir þjer sem erviðið og eruð þjáðir, hjá mjer skuluð þjer finna hvíld! Það var elskan, sem þrýsti Jesú á hjervistardögum hans til að umgangast alla menn svo ástúðlega; allt sem hann kendi var kærleiki; allt sem hann gjörði var kærleiki; kærleikinn rjeði hverju hans orði og atviki; og allan þann kærleika frambýður hann oss í einu í kvöldmáltíðinni. Víst mátti það þó vera nægur vottur um náð hans og undrunarverðu miskun, er hann seldi líkama sinn í dauða fyrir oss; en hann hefur líka bætt því við alla sína undrunarlegu elsku, að hann í kvöldmáltíðinni er sjálfur nálægur með sínum dýrðlega líkama, og lætur oss minnast

orða sinna: „mitt hold er sannarlegur matur, og mitt blóð er sannarlegur drykkur“! Ó, drottinn, hvílíka miskun hefur þú auðsýnt mjer! En sjá þú þá líka til mín, minn sáluhjálpari! er jeg geng að þessu þínu ástríka náðarborði, og láttu mig finna náð fyrir augliti þínu, því hvernig get jeg verðskuldað það, að þú skulir bjóða mjer slíka miskunsemi? Þó jeg væri heilagri en englarnir, þá væri jeg þó eigi verður þessarar máltíðar; og hvernig get jeg þá verið verðugur, eins og jeg er, nema þú gjörir mig það sjálfur; þess vegna bið jeg þig að koma mjer til hjálpar með náð þinni, og undirbúa mig. Þú hefur sjálfur lofað að útskúfa þeim ekki, sem til þín kæmi; svo taktu þá líka, miskunsami frelsari heimsins! sálu mína að þjer, og útbú hana með náð þinni. Hversu feginn vildi jeg ekki geta gengið að borði þínu með brennandi guðrækni, og fullri lotningu í algjörðri trú; en hvernig, get jeg gjört það, nema jeg fái hjálp hjá þjer, sem ert höfundur og fullkomnari trúarinnar? Gjörðu mig þess vegna þóknanlegan fyrir augliti þínu, taktu náðarsamlega burt frá mjer sjerhvað sem þjer geðjast ekki að, eða hyl það að minnsta kosti með þínum rjettlætisskrúða! Opnaðu augu sálar minnar, svo jeg megi sjá dásemdarverkin þinna ráðstafana; hrærðu hjarta mitt, og rektu burt úr því allar annarlegar hugsanir, efldu von

mína, auktu mjer kapp, láttu guðrækni mína vera brennandi, og helgaðu mig algjörlega, svo jeg geti mætt fyrir þjer með glaðværu trúnaðartrausti og hjartanlegri löngun, og geti með hreinu og heilögu hjarta etið og drukkið til lífs, sælu og blessunar sálu minni.

## 39. Kvöldmáltíðin.

Ef vjer erum innilega sannfærðir um, að vjer með verðugri nautn kvöldmáltíðarinnar komumst í nána sameining við Krist, og ef vjer þannig finnum til þeirrar óumræðilegu elsku hans, að lítillækka svo sjálfan sig fyrir oss synduga menn, þá hlýtur líka endurminning pínu hans og dauða, sem vakir svo glögglega fyrir oss í kvöldmáltíðinni, að tendra í hjörtum vorum *innilegustu elsku til hans aptur á móti.* Hafi kærleiki guðs og náðarríka miskun lagt hið mikilvægasta í sölurnar, þrýst honum til að senda í heiminn sinn eingetinn son, og að jeg taki svo til orða, að gróðursetja í mannlegt eðli sinn guðdómsmátt og dýrð, til að gjöra manninn betri og ágætari; hafi hinn eingetni ekki einungis íklæðzt eðli voru, kennt oss veginn til sáluhjálpar og sjálfur gjörzt leiðtogi vor á honum, heldur líka af elsku til vor þolað mótgjörðir og háðungar, þjáningar og dauðann sjálfan til að friðþægja fyrir syndir vorar, þá minnumst vjer þessarar elsku betur í kvöldmál-

tíðinni, en nokkurn tíma endrarnær, því í henni gjörir Kristur oss hluttakandi í sjálfum sjer; og fyrir það hlýtur elskan til guðs og Jesú að yfirgnæfa alla aðra elsku í oss, já, gjörsamlega gagntaka og fylla brjóst vor. Ó, skyldi jeg ekki elska þig, sem í lífi og dauða elskaðir mig! æ, skyldi jeg ekki elska þig, sem inn í þitt ríki leiðir mig, já, í himnaríki leiðir mig! Þú skipar mjer í kvöldmáltíðarsakramentinu að gjöra mjer háleita hugmynd um eðli mannsins, því í þjer er það nákvæmlega og innilega sameinað guðdóminum, og er upphafið í þjer til hægri hliðar föðurnum. Þú vilt að vjer gjörum oss háleita hugmynd um jörð vora, því þó hún sje ekki meir úr alheimsbyggingunni, en eins og einn hlekkur úr heilli festi, og sje að eins lítill depill í hinu ómælanlega rúmi, þá ert þú þó fæddur á henni, hefur kennt og ferðazt á henni, hefur þjáðzt á henni og þitt heilaga blóð hefur helgað hana, og á þriðja dag hefur líkami þinn hvílt í skauti hennar. Líka skal barátta vera á jörðunni milli ljóss og myrkurs, sannleika og lýgi, milli guðs og hersveita hans og hinna óvinveittu anda; og guð og ljós og sannleiki skal bera sigurinn úr býtum, því sjerhvað, sem hefur farið aflaga í hinum andlega heimi, skal aptur lagast, og guð sjálfur verða allt í öllu. Láttú þetta upplypta sálu þinni, maður! og hrífa svo á hana, að þú gjörir þjer háleita hug-

mynd um ákvörðun mannsins vegna guðs eingetins sonar; en láttu það jafnframt hvetja þig til auðmýktar, því allt er það að þakka náð guðs, guðs einskærri náð fyrir Jesúm Krist. Þessi tilfinning hlýtur að verða lifandi hjá oss í kvöldmáltíðinni.

En þetta á líka að uppörfa oss til að elska hvor annan, eins og bræður, sem allir eru endurleystir hvor með öðrum; því sje hjarta þitt verulega glóandi af elsku, þegar þú gengur burt frá altarinu, og þó að jafnvel vesti óvinur þinn gengi þaðan við hliðina á þjer, þá er hann hefur ásamt með þjer setið að máltíð kærleikans og friðarins, hlýtur þú þá ekki ósjálfrátt að líta til hans með grátandi tárum af ást og elsku? Hlýturðu ekki að rjetta honum bróðurelskunnar hægri hönd, og hlýtur ekki þitt hið ástríka og vingjarnlega handaband að hræra hjarta hans? Eruð þið ekki neyddir til að líta hvor framan í annan og segja: já, hann, vor himneski drottinn og meistari, vor ástríki endurlausnari hefur sætt oss með blóði sínu. Ef þú elskar guð, sem auðsýnir þjer miskun og elsku, þá hlýtur þú líka að elska bræður þína, því þeir eiga kost á miskun hans og kærleika, ekki síður en þú. Elskir þú frelsara þinn, hvernig getur þú þá annað en elskað þá, sem hann elskaði sjálfur svo heitt, að hann gekk í dauða fyrir þá? Vjer höfum allir einn drottinn, eina trú, eina skírn, einn guð og föður

allra, sem er yfir öllum og — í oss öllum. Til að glæða þessa elsku til allra manna, til að efla í oss trúna, þá er kvöldmáltíðarsakramentið hið ágætasta hjálparmeðal, þegar það er verðuglega meðtekið.

## 40. Kvöldmáltíðin.

„Þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn, þetta er mitt blóð, sem fyrir yður úthellist til fyrirgefningar syndanna“ sagði drottinn vor til postula sinna, en hann sagði einnig, að blóði hans yrði úthellt „fyrir marga“ og postularnir sögðu: hann er friðþæging fyrir syndir vorar, og þó ekki að eins vorar, heldur og gjörvallrar veraldarinnar (3 Jóh. 2, 2). Þegar vjer komum saman til hinnar heilögu kvöldmáltíðar, ná því þessi orð „fyrir yður“ einnig til vor, já, til sjerhvers af oss, hins háa og hins lága, hins vitra og hins fákæna, þess, er heimurinn kallar syndara, og þess, er hann telur meðal hinna rjettlátu. Engum er vanþörf á hinni himnesku gjöf, og enginn er frá henni útibyrgður. Fegurð sakramentanna í kristinni kirkju er þar í fólgin, að þau snerta hvern og einn sjer í lagi. Þess vegna er sagt yfir kvöldmáltíðinni ekki að eins um alla jafnt, að Kristur sje friðþæging fyrir syndir gjörvallrar veraldar, heldur og til hvers kristins manns út af fyrir sig: þigg hinar helgu gjafir, þetta er líkami Jesú, er í dauð-

ann var seldur eins fyrir þig og aðra, þetta er blóð Jesú, sem úthellt var eins fyrir þig og aðra til fyrirgefningar syndanna. Þessi orð „fyrir yður“ krefjast trúar af sjerhverju hjarta; þú verður að heimfæra til þín það, sem þú veizt um endurlausn Krists, áður en þú getir haft not af henni. En hin heilögu náðarmeðöl eru einmitt til þess ætluð að glæða trúna, sem dylst í hjörtum mannanna, eins og daufur neisti, svo hún verði að skærum loga til hreinsunar, fræðingar og vermingar. Þetta er kaleikur hins nýja sáttmála, og þegar kaleikurinn er rjettur að þjer út af fyrir þig, þá verður hinn almenni sáttmáli um leið sáttmáli við þig sjer í lagi; hinn eingetni sonur guðs, hinn mikli meðalgangari milli guðs og manna, kemur þá til þín, sem meðalgangari þinn, hann er á millum guðs og þín, og gleymir þjer ekki, þó manngrúinn sje ótölulegur. Fyrir því er þessi kaleikur bikar fróunar og huggunar; kom þú hingað, aum og þjáð mannskepna! hann er rjettur þjer í bágindum þínum, svo að þú örmagnist ekki, svo að þú haldir ekki, að þú sjert yfirgefinn, svo að kraptur hans lífgi þig, og þú vitir og sjáir og trúir, að þú eigir einnig guð og frelsara. Það er friðþægingarkaleikur (1 Kor. 10, 16), því hann er hluttekning Krists blóðs, þeirrar fórnar, sem fram var borin fyrir syndir allrar veraldarinnar. Æ, það er kominn aðskilnaður milli mannanna og guðs,

þú hefur einnig orðið var við hann, og fundið að þú varst fjarlægur guði og lífinu í honum; þegar þú vildir nálægjast guð, fannstu opt að þjer var frábægt, þú sást að þú varst skrifaður til skuldar, sem þú ert ekki fær um að borga; hryggileg reynsla kenndi þjer, hvað það er, að hræðast þann, sem vjer eigum að elska yfir allt fram, sem er allt hæli vort, sem einn saman megnar að senda oss huggun og von. Sjá, hjer er bikar friðþægingarinnar, hann er eins og hver annar bikar fyrir þá, sem bergja á honum, án þess að hafa trúna í hjarta sínu, og ef trúin leiðir ekki til apturhvarfs, er hún einskisverð, eða verri en einskisverð — því hún er þá ekki annað en leikfang og vanbrúkun hins heilaga; en fyrir trúaða er kaleikurinn pantur guðs miskunar, og felur í sjer læknisdóm hinna dýpstu sára, og fyrirgefningu syndanna og von eilífs lífs. Það er bikar kærleikans; sjá, hinn eilífi kærleiki lætur rjetta oss hann til svölunar í mæðu vorri, til huggunar í sorg vorri, til friðþægingar í synd vorri; ó, látum oss elska hvorjir aðra, eins og Kristur elskaði oss og gaf sig sjálfan út fyrir oss. Og þá skal þessi kaleikur einnig vera oss frelsisbikar, svo vjer finnum, að vjer sjeum upphafðir yfir jarðneska baráttu og jarðneska eymd, og verðum nú þegar varir við það frelsi, er bíður vor, þegar sá kaleikur verður oss rjettur, er eyðir öllum jarðneskum

draumum og vígir oss til eilífra unaðsemda, og til þess samfjelags, er lætur oss skoða augliti til auglitis.

## 41. Kristilegt líferni.

Ef vjer höfum þegið anda kosinna sona, svo vjer getum ákallað guð, eins og vorn föður; ef guð er sá, sem með speki og gæzku hefur stjórnað öllum vorum æfikjörum, einnig þar sem ráð og hyggindi manna reyndust ónóg; ef vjer eigum honum að þakka alla þá þekkingu á æðri sannindum, sem Jesú himnesku trúarbrögð hafa útbreitt í heiminum, þá von um syndafyrirgefningu, sem friðþæging Jesú veitir oss, þá tryggu leiðbeiningu á vegi dyggðarinnar, sem Jesú hreini og fullkomni siðalærdómur lætur oss í tje, þá von um dýrð og sælu eptir dauðann, sem Jesús svo opt fullvissaði hvern sannkristinn mann um, og staðfesti sjálfur með upprisu sinni og himnaför: víst er það þá heilög skylda vor að elska hann og þakka honum, og láta með því ásannast, að vjer sjálfir álítum oss börn en ekki þræla. Allur andi í Jesú lærdómi er andi kærleikans; með því játum vjer undir eins, að hann sje andi *dyggðarinnar* og *ráðvendninnar*. Sjerhver annar vottur um elsku vora á guði er óáreiðanlegur og ónógur. Meðan mannkynið var í barnæsku og uppfræðing engin, var mönnum vorkun, þó þeir hjeldi, að þeir með

löngum bænum, mörgum fórnfæringum, með föstum og sjálfviljugum píningum gæti bezt látið í ljósi hollustu sína við guð og trúarbrögðin; en vjer, sem ekki höfum þegið þrældómsanda, svo vjer þyrftum aptur að vera hræddir, heldur höfum fyrir Krist þegið anda kosinna sona, svo vjer getum ákallað guð, eins og vorn föður, vjer vitum, að hreint hjarta, dyggðug breytni er eina vissa merkið um hreinskilna hollustu vora við guð og þann, sem hann út sendi, Jesúm Krist. Andi Krists trúar er andi kærleikans, en hvernig getum vjer elskað guð og Krist, ef vjer ekki elskum meðbræður vora, ef vjer ekki látum stjórnast af sama anda góðvilja, hógværðar og sáttgirni, eins og Jesús gjörði, ef vjer ekki í orði og verki auðsýnum bræðrum vorum sömu hreinskilni og ástúð eins og hann? Jesú lærdómur gefur oss djörfung til að ákalla guð, eins og föður; en erum vjer þá, sem kristnir erum, einir saman börn guðs? Var það ekki einmitt kristindómurinn, sem braut niður hinn óvinsæla skilrúmsvegg á milli stjetta, þjóða og trúarflokka? Allir menn eru bræður vorir, þess vegna eigum vjer að auðsýna þeim bróðurlegan kærleika, þess vegna eigum vjer með óþreytandi alúð að efla heill meðbræðra vorra, hjálpa nauðstöddum í bágindum þeirra, dæma breyska bræður með vorkunsemi, fyrirgefa þeim, sem brjóta á móti oss, svo vjer getum verið börn

föðurs vors á himnum, hans, sem upplýkur sinni hendi og seður allt, sem lifir, með sinni blessan, sem lætur sína sól upprenna yfir góða og vonda, lætur rigna yfir rjettláta og rangláta, sem fyrirgefur oss syndirnar og huggar oss í raunum vorum. Þó megum vjer ekki gleyma því, þar sem um þessa almennu mannelsku er að gjöra, að það er sonurinn, sem af miskun guðs leiðir oss alla að lokum til föðursins; og þess vegna ætti oss um engan hlut að vera eins annt, eins og að leiða vora villiráfandi bræður til hans.

Andinn í Jesú lærdómi, sá andi kosinna sona, sem vjer höfum þegið, er andi *trúarinnar* og *vonarinnar*. Hafi guð að undanförnu með svo mikilli speki sjeð fyrir þörfum vorum, hafi föðuraugu hans til þessa vakað yfir oss á hinum villigjörnu vegum lífsins, hönd hans leitt oss á þess mörgu þyrnumstráðu stigum, þá eigum vjer staðfastlega að trúa því, að hann muni ekki eptirleiðis yfirgefa oss; þess vegna skulum vjer líka með trúnaðartrausti og undirgefni taka á móti hinum beiska kaleik, sem hann rjettir að oss, fullvissir um að einnig hann muni að lokum verða oss að góðu. Þó hann synji oss um vorar innilegustu óskir, þá gjörir hann það engan veginn af hatri, hann, sem ekki þyrmdi sínum eigin syni, eins og Páll kemst að orði, heldur seldi hann í dauða fyrir oss alla. Einhvern tíma fáum vjer að

sanna, þó vjer gjörum það ekki hjer, þá samt í eilífu lífi, að vjer höfðum ekki vit á, hvers vjer báðum, að sá vegur, sem guð leiddi oss á, lá nær takmarkinu, en hinn, sem skammsýni vorri leizt betur á. Þó vjer rötum í sjúkleika, fátækt og eymd, þó vjer ekki getum haft ánægju af unaðsemdum lífsins, jafnvel ekki von um að fá að njóta þeirra, þá verði guðs vilji! Hann hefur með Jesú gefið oss kost á að njóta meiri sælu, en heimurinn getur nokkurn tíma veitt oss. Ættum vjer að láta hugfallast fyrir það, þó vegurinn sje erviður og þröngur? Því færri ginningar, sem fyrir oss bera á leiðinni til að glepja fyrir oss, þess stöðugar getum vjer horft á kórónu lífsins, sem blikar á móti oss við enda vegarins; því veikari sem von vor er um alla hjálp og liðsinni manna, þess sælli prísum vjer oss fyrir að eiga föður að á himnum, sem vjer óhult getum reitt oss upp á; því optar sem oss bregzt eptirvænting vor um jarðneska hluti, þess öruggar reiðum vjer oss upp á hina síðustu og einu von, sem aldrei svíkur, vonina um eilífa sælu. Veri því öll jarðnesk gleði svo fánýt og stopul, sem vera vill, hvað þarf það að angra oss eður hryggja, þegar sá andi kosinna sona, sem Jesú trú innrætir oss, lífgar oss og hressir. Örnggir göngum vjer á fram lífs leið vora, eins og kristnum hæfir, þeir eð hafa öðlazt frelsi, eru guðs börn og erfingjar

eilífs lífs, og þegar vjer loksins leggjum þreyttir niður ferðastafinn, sofnum vjer sætt út af í trú og von, áköllum guð í andlátinu eins og föður, og mætum honum eins og föður í híbýlum sælunnar á himnum.

## 42. Máttur guðs í breyskleikanum.

Tvennt er það, sem hver kristinn maður verður að íhuga, fyrst að það útheimtist mikill styrkleiki til að lifa kristilegu líferni, þar næst að vjer tökum eigi styrkleikann til þess af sjálfum oss, heldur kemur hann frá Kristi. Það er sannarlega mikil ofdirfska og yfirsjón af kristnum mönnum, að nokkur þeirra skuli treysta upp á sjálfan sig, og mátt sinn og megin, svo hann ímyndi sjer, að hann af eigin ramleik geti áorkað hinu minnsta í andlegum efnum; en aptur á hinn bóginn er það eins mikil villa og spilling, að örvænta um mátt guðs og þá aðstoð, sem vjer eigum að vænta af honum til þess, sem oss ber að gjöra, og láta ófreistað að uppfylla nokkra skyldu, af því vjer vitum og finnum, að máttur *sjálfra vor* er of veikur til þess. Svo lengi sem vjer þykjumst vera færir til að gjöra nokkuð svo sem af sjálfum oss, svo lengi verður oss alls ekkert ágengt; og þó vjer freistum einhvers og byrjum á því tíu sinnum, já, hundrað sinnum, þá komum vjer engu til leiðar, fyr en vjer lærum að sjá og

skilja, að máttur sjálfra vor er til einskis nýtur. En aptur er það líka til eins mikillar tálmunar kristilegu líferni, er menn álíta það ómögulegt og vantreysta mætti guðs, af því þeir finna, að þeir eru sjálfir veikir og vanmáttugir. Það er sjálfsagt, að guð heimtar mikið af oss í kristindóminum; og það er auðvitað, fyrst hann heimtar það, þá hlýtur það að vera nauðsynlegt; en eins víst er hitt, að vjer megnum ekki að gjöra það af eigin ramleik. En hins vegar er það þá líka allt eins vist, að guð vill gefa oss krapta til þess, sem hann heimtar af oss, þegar vjer viljum treysta honum, fela oss honum og gefa á vald, og gjöra fyrstu tilraunina í trausti til máttar hans. Þess vegna er og verður það þó sjálfum oss að kenna, ef vjer ekki gjörum, eða getum gjört það, sem kristindómurinn heimtar, vjer hefðum sannarlega getað gjört það ekki af eigin ramleik, heldur fyrir fulltyngi guðs; vjer hefðum getað öðlazt þann styrk, sem þurfti til þess að gjöra það. Heimurinn segir: vjer getum það ekki, það er ómögulegt að fullnægja öllum boðorðum kristindómsins, eða hver getur gjört það? og heimurinn hefur mikið fyrir sjer í þessu. Heimsins börn geta það ekki; því þau vita ekki af öðrum mætti að segja, en mætti sjálfra sín; en guðs börn geta gjört það, sem heimurinn álítur ómögulegt, því þau hafa styrkleika sinn frá guði, sem máttugur er í breysk-

leika þeirra; þau segja með Páli: jeg megna alla hluti fyrir aðstoð hans, sem eflir mig; hver sem vill hrósa sjer, hann hrósi sjer af drottni.

## 43. Kristileg trúmennska.

„Vertu trúr til dauðans, þá skal jeg gefa þjer lífsins kórónu (Opinb. Jóh. 2, 10).“ Þannig ávarpar hinn fyrsti og síðasti, sá sem dó og reis upp aptur, söfnuðinn í Smyrna. Það er sú rödd hinnar eilífu miskunsemi, er hann kallar með til allra þeirra, sem aðhyllast hann og játa af einlægu hjarta. Vjer játum frelsarann, drottinn Jesúm Krist, en erum vjer þá líka fastlega, innilega og óslítanlega sameinaðir honum með hinu sáluhjálplega bandi trúarinnar og kærleikans? Er þá líka breytni vor þrátt fyrir allar — já, hinar margföldu yfirsjónir og breyskleika — þó sannarleg breytni í drottni? Er þá líka Jesús Kristur og allt það, sem hann afrekaði fyrir oss með lífi sínu, sálarangist, blóðsúthellingu og dauða á krossinum, er oss það þá líka dýrmætara en allt annað? Sje þetta fyrir guðs náð orðið hjörtum vorum svo innlífað, að vjer getum sagt með sanni: jeg met mig ekkert vita nema Krist, og hann krossfestan, svo það jeg lifi, það lifi jeg í trú guðs sonar, sem elskaði mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig — þá

kallar rödd hinnar eilífu miskunsemi til vor: vertu *trúr* til dauðans.

Það er þá *trúmennskan,* sem krafizt er; og hennar er krafizt af öllum sanntrúuðum. En hverjir þeir sjeu, getum vjer sjeð af orðum Jesú sjálfs, og lærisveina hans og postula. Það eru þeir menn, sem friðarins evangelíum hefur verið boðað, og hafa þess vegna með angráðu hjarta leitað hælis hjá Jesú, er þeir fundu bæði glöggt og rjett, hve aumt og ófarsælt ástand þeirra var, og voru sjálfir orðnir sárleiðir á að þjóna lengur heiminum, syndinni og djöflinum; og af því þeir hafa þá aðhyllzt Jesúm svo sem þann, er einn gæti frelsað sálu þeirra, hafa fengið náð til að verða guðs börn, svo þeir með öllum lífs og sálar kröptum hafa gefizt honum á vald, og eru með hinu ljúfa og sáluhjálplega bandi elskunnar og þakklátseminnar háðir honum og þjónustu hans, af því hann frelsaði þá undan valdi myrkursins, og setti þá í ríki síns elskulega sonar, þar er þeir finna hvíld og frið sálum sínum; þessir menn finna, að þeir eru skuldbundnir höfundi þeirra sáluhjálpar, og kannast þakklátlega við það — og af þeim heimtar hann *trúmennsku.*

En hvað á þessi trúmennska að vara lengi? Vertu trúr — trúr í játningunni, trúr í kærleikanum, trúr í eptirbreytninni til *dauðans!* Sjálfsagt kemur það fyrir við einstöku tækifæri, að

hjörtun í brjóstum vorum eru glóandi af fjöri — en eru þau það þá til lengdar? Þú játar drottinn Jesúm Krist, þú elskar hann heitt og hjartanlega, þú vilt feginn feta í fótspor hans, og vilt ekki vísvitandi brjóta á móti honum — en getur þú þá líka staðið stöðugur í þessu til þíns sáluhjálplega endadægurs, alla þína æfi, í meðlæti og mótlæti, fyrir vinum og óvinum? Og þó áskilja þessi orð: til dauðans, enn þá meira. Vera má, að þú hafir borið sigur úr býtum í margri baráttu, en þegar að því kemur að sigra skal þann óvininn, sem sterkastur er allra, þegar um er að gjöra, að sigra dauðann sjálfan — æ löngu áður — gugnar hinn veiki máttur manna, ef kraptur guðs á hæðum styrkir hann ekki því öflugar; en hann bregzt heldur aldrei Jesú Krists sönnu hermönnum. Vertu trúr til dauðans, kallar rödd hinnar eilífu miskunsemi. Þú mátt ekki horfa í nokkurn hlut, hversu kær sem hann er þjer — ekki jarðneskan ávinning, álit þitt eða mannorð, líf eða blóð — æ, vertu trúr til dauðans!

En sama röddin kallar líka: jeg skal gefa þjer kórónu lífsins! Hversu ósegjanlega yfirgnæfir þessi elska endurlausnarans, þessi sæla í samfjelagi við hann allt það, sem menn geta farið á mis við og verða að leggja í sölurnar af jarðneskum gæðum, til þess að geta verið trúir í elskunni til hans, í að játa hann og

breyta eptir honum? Festu sjónir, sála mín! á þessari sælufullu dýrð, þegar þú heyrir í hjarta þínu þessa rödd hinnar eilífu miskunsemi: vertu trúr til dauðans, þá skal jeg gefa þjer lífsins kórónu!

## 44. Elskan til guðs.

Elskan er aðalatriði Jesú lærdóms. Svo ástríkt er það samband, sem vjer erum í við guð, eins og börn við ástfólginn föður, svo marga velgjörninga hefur hann auðsýnt og auðsýnir hann oss daglega, að vjer mættum vera mjög óþakklátir, ef vjer eigi elskuðum hann, sem elskaði oss að fyrra bragði, ef vjer ekki með einlægu kappi vildum til þess vinna, að geta átt von á og átt vísa velþóknan þessa vors ástríka velgjörara, og reyndum, að svo miklu leyti sem í voru valdi stendur, að þakka honum fyrir þessa hans föðurlegu umhyggju. Sjerhver jarðneskur faðir, sem annast og varðveitir börn sín á hinum veiku æskuárum, sem leiðbeinir þeim með nytsamlegri uppfræðingu og eptirdæmi sjálfs síns til vizku, dyggðar og sannrar farsældar — enginn getur neitað því, að hann hafi rjett til að vænta elsku barnanna í staðinn, að heimta það, að þau ekki einungis með vörunum, heldur einnig með verkunum votti honum þakklæti og ást. Ef vjer höfum þess vegna þegið anda kosinna sona, svo vjer getum ákallað guð, eins

og föður, ef hann er sá, sem alla vora æfi hefur stjórnað kjörum vorum með speki og gæzku, einnig þar sem ráð og hyggindi manna voru ónóg, ef vjer eigum honum að þakka alla þá þekkingu á æðri sannindum, sem Jesú himnesku trúarbrögð hafa útbreitt í heiminum, þá tryggu leiðbeiningu á vegi dyggðarinnar, sem Jesú hreini og fullkomni siðalærdómur lætur oss í tje, þá sælufullu von eptir dauðann, sem Jesús svo iðuglega fullvissaði sjerhvern mann um, sem stæði stöðugur í trú og dyggð, og sem hann staðfesti sjálfur með upprisu sinni og himnaför: víst er það þá skylda vor, að tjá honum tvöfalt þakklæti og elsku, og með því láta ásannast, að vjer sjálfir álítum oss börn en ekki þræla. En eins og það eru beztu þakkirnar, sem vjer getum látið í tje jarðneskum velgjörðamanni, eins og það er ljósasti votturinn um að vjer elskum hann, ef vjer hagnýtum rjettilega þá velgjörninga, sem hann hefur auðsýnt oss, og gjörum það, sem honum geðjast bezt, eins er það líka bezti votturinn, sem vjer getum sýnt um elsku vora til guðs, ef vjer hlýðum boðum hans með fúsum og einlægum hjörtum, ef vjer látum oss daglega fara fram í dyggð og heilagleika, og verðum svo hæfilegir til að njóta þeirrar farsældar, sem föðurást hans hefur fyrirbúið oss. Elskan er aðalatriði Jesú lærdóms: með því játum vjer undir eins,

að *dyggðin* og *ráðvendnin* sje það. Sjerhver annar vottur um elsku vora á guði er óáreiðanlegur og ónógur; einungis hreint hjarta, dyggðug breytni er eina óbrigðula merkið um hreinskilna hollustu vora við guð og þann, sem hann útsendi, Jesúm Krist. En hvernig getum vjer elskað guð, og þó ekki elskað meðbræður vora? Hvernig getum vjer fengið að njóta þeirrar farsældar, sem játendum Jesú er heitin, ef vjer ekki látum stjórnast af sama anda góðvilja, hógværðar og sáttgirni, eins og Jesús gjörði; ef vjer ekki í orði og verki auðsýnum bræðrum vorum eins einlæga ástúð og hann? Vjer erum allir guðs börn, vjer erum allir bræður; þess vegna er það skylda vor að auðsýna hvorjir öðrum bróðurlegan kærleika; þess vegna eigum vjer með óþreytandi alúð að efla heill meðbræðra vorra, hjálpa nauðstöddum í bágindum þeirra, dæma breiskan bróður með vorkunsemi, fyrirgefa þeim, sem brjóta á móti oss, svo að vjer getum verið börn vors himneska föðurs, sem upplýkur sinni hendi og seður allt sem lifir með blessun, sem lætur sína sól upprenna yfir góða og vonda, og lætur rigna yfir rjettláta og rangláta, sem fyrirgefur oss syndirnar og hugsvalar oss í raunum vorum.

## 45. Elskan til guðs.

Hið fyrsta boðorð: þú skalt ekki hafa annar-

lega guði, heimtar af þjer slíka ást á guði, að þú elskir hann um fram alla hluti í heiminum; þvílík elska felur ein í sjer alla guðhræðslu, því ef þú elskar guð og breytir ráðvandlega af elsku til hans, þá veitir þjer sú elska rósama samvizku, og rekur allan ótta burt úr hjarta þínu, svo þú getur með sonarlegu trúnaðartrausti og djörfung andans kallað guð, já, þann guð, sem þú elskar, abba: þinn ástkæran föður, mátt ganga fram fyrir náðarstólinn og leita þjer líknar, og átt náðina vísa þjer til hjálpar í tækan tíma. Þessi elska aptrar syndinni í hjörtum vorum, því eins og Jóhannes segir um þá smurningu (1 Jóh. 2, 27), sem vjer höfum meðtekið af hinum heilaga, að hún fræði oss um alla hluti, þá getum vjer sagt hið sama um þessa elsku á guði. Því sá sem elskar guð, elskar líka rjettlætið, þar eð hann veit að sá guð, sem hann elskar, er rjettlátur; sá sem elskar guð, hatar lýgi, þar eð hann veit, að sá guð, sem hann elskar, er sannleiki; sá sem elskar guð, lifir ráðvandlega og siðsamlega, því hann veit að sá guð, sem hann elskar, er heilagur guð. Þar næst hreinsar þessi elska, sem vjer höfum á guði, þá elsku sem vjer berum til alls annars, með því vjer elskum guð í öllu, sem oss er annars kært og ástfólgið. Ef þú þess vegna hefur mætur á einhverju, sem er gott og fagurt, þá elskaðu það ekki út af

fyrir sig, heldur elskaðu það vegna guðs, því það hefur allt sitt ágæti af guði, en ekki af sjálfu sjer, og þú mátt vita, að hvað gott sem það er, þá er þó guð miklu betri; og láttu þannig elskuna til guðs ætíð hafa fyrirrúm í hjarta þínu; og þakkaðu guði fyrir það, að hann með þeim hlutum, sem hann hefur skapað, lætur þjer daglega í tje gæzku sína og elsku, og hafðu þá fyrir þjóna þína, en hann ætíð fyrir guð þinn. Þegar þú svo les þetta boðorð, og íhugar þá ríkuglegu huggun, sem þú hefur af því að elska guð, þá láttu hjarta þitt komast við, svo þú vegsamir og viðurkennir drottinn þinn guð, sem af sjálfsdáðum, óbeðinn og óverðskuldað vill vera guð *þinn*. Því sjálfum sjer er hann nógur án vor, og getur verið ánægður með sig, svo allt sem hann gjörir við oss, af því hann elskar oss, það gjörir hann af einskærri náð; hann gjörir oss hluttakandi í náð sinni, og vill ekki vera guð út af fyrir sig, heldur guð fyrir oss, með því hann vill vera vor hjálp, vor upphefð, vor styrkleiki, vor sæla. Í hvert sinn sem þú íhugar og aðgætir þetta, þá skaltu gjalda honum þakklæti fyrir, og segðu af innstu hjartans rótum: lofaður veri góður guð, sem vill vera minn guð, svo jeg má ákalla hann, og hann vill bænheyra mig; lofaður veri góður guð, sem jeg má treysta, og mjer vill hjálpa, sem jeg má vona á, og lætur

mig ekki til smánar verða. Lofaður veri guð drottinn, Israels guðs, hann sem einn gjörir dásemdarverkin, blessuð sje hans dýrðarfulla hátign að eilífu, og öll lönd uppfyllist með hans dýrkun!

## 46. Undirgefni undir guðs vilja.

Það hugarfar, sem er svo hóglátt, að þó það biðji guð um betri lífskjör, og reyni til að afla sjer þeirra, lætur þó aldrei heyra til sín mögl við hinn alvalda, sem með rósemi og stillingu ber þær þrautir, er það á stundum neyðist til að andvarpa yfir, sem án umkvörtunar þiggur hin bágbornu kjör, er hin eilífa speki í gæzkuríkum, en þótt óskiljanlegum tilgangi, lætur verða þess hlutfall, og horfir stundum, ef til vill, með döpru og grátnu auga, en þó með blíðri von, gegnum myrkrið, sem grúfir yfir eymd þess og þjáningum, fram á hinn bjarta dag, sem á sínum tíma skal upprenna allri eymd — þetta hugarfar skapar *trúin* ein í manninn, það eflir og styrkir hjá honum einungis æðri og háleitari von, og það eitt verðskuldar með rjettu að heita auðmjúk og trúarörugg *undirgefni undir guðs vilja.* Að innræta hjarta mínu æ betur og betur þá tilhugsan: að vísdómsfullt og alsjáandi auga vaki yfir heiminum, og öllum gleði- og sorgardögum, sem upprenna í honum, að máttug hönd, sem

nær út yfir alla hluti, ráði bæði stóru og smáu, stjórni biltingunum, sem koma fram í lífi heilla þjóða, og breytingunum, sem verða á högum einstakra manna, láti afleiðingarnar af athöfnum manna, og afdrif öll af því, er þeir misbrúka frjálsræði sitt, snúast til góðs, riti hörmungarnar, sem tortýna mönnum þúsundum saman, og hið heimuglega böl, sem smátt og smátt gjörir út af viðraunamanninn í afskekktu hreysi, í hina miklu skuldabók, sem upp verður lokið í eilífu lífi, ó, að gjöra þessa tilhugsan vakandi fyrir sálu minni, að halda mjer stöðugt við hana, eins og atkeri, sem bifast ekki í brimrótinu, að hugga mig við hennar blessuðu áhrif, þegar biltingar æða yfir löndin, eins og skelfilegir og óviðráðanlegir fellibiljir; og þegar beisk og brennandi tár hrynja niður af sárum harmi, sem leynilega kvelur hjartað í brjóti manns, að lypta þá augunum upp til himins, fagna og gleðjast af því, að sá friður, rósemi og farsæld, sem hjer fjekkst ekki, ríkir án afláts í hinni konunglegu höll vors eilífa föðurs — Já, þetta er sannarlega sú trú, sem sigrar heiminn, þetta er sá sigur, sem trúin vinnur yfir tímanum vegna eilífðarinnar; þetta er hin glaðværa og trúarörugga undirgefni undir vilja hins algóða, sú er linar sjerhverja þjáningu, lýsir í sjerhverju dimmviðri, ljettir sjerhverja byrði, og gjörir hvert sár, sem hjartað nýstir, minna sárt og

svíðandi. En — guð veit — það er ekki auðgjört að öðlast þetta hnoss. Einungis stöðug, hlutdrægnislaus og nákvæm aðgæzla á mörgu, sem heimurinn kallar hamingju, en sem síður en ekki reynist svo; einungis sífeldleg, alvarleg barátta við margar tælandi ginningar, við margar sterkar freistingar, við ístöðulaust og sjergott hjarta og óstýrilátar og heimskulegar óskír þess; einungis óbifanleg sannfæring um, að sjerhvað sem guð gjörir, sje vel gjört, að allír hlutir skuli verða þeim að góðu, sem elska guð, eínungis þetta og ekkert annað skapar í manninn hógláta og auðmjúka undirgefni undír vilja föðursins. En þar sem máttur sjálfra vor er of veikur, þar víljum vjer leita til þín, vor guðdómlegi endurlausnari! þú sem komst niður til vor veikra manna frá hinum ósýnilega heimi, þar er þú lifir og ríkir í eilífu ljósi, mitt í sannleika og friði, þú sem verkar á vorn innra og betri mann með þeim krapti, sem er æðri og öflugri, en hin skynsemdarlausu öfl, er æða í náttúrunni með ofsa og eyðileggingu — því þú ert sá, sem einn megnar að innræta oss þessa hina guðrækilegu og sonarlegu undirgefni undir heilagan vilja hins óransakanlega; þú ert sá sem með máttugri og ástríkri hönd styður hinn veika, svo hann ekki fellur, þegar byrðin ætlar að beygja hann til jarðar; þú ert sá sem sefar ofsann, er geysar í brjóstum

vorum, sem gjörir bjart umhverfis oss, þegar myrkur hörmunganna skyggir á lífsleið vora; þú ert sá, sem með þeirri rödd, er heimurinn hvorki fær heyrt nje skilið, kallar svo ástúðlega, en þó svo áminnilega inn í hjörtu vor: gegnum þjáningar liggur vegurinn til dýrðarinnar!

## 47. Auðmýkt.

Vjer erum handaverk drottins; hann skapaði oss, hann elur önn fyrir oss, og sjerhvað sem vjer höfum, þá höfum vjer það þegið; hann á eignarrjett yfir oss, og vjer erum honum háðir fyrir sjerhvað, sem vjer eigum og erum. Vjer vorum eptir eðli voru reiðinnar börn, minni allri þeirri miskun og trúfesti, sem hann hefur auðsýnt þjónum sínum. — Æ, hvað er jeg og mitt hús þess, að þú skulir hafa leitt mig hingað til; jeg er ómaklegur þeirrar náðar, sem þú daglega auðsýnir mjer svo ríkuglega; jeg finn það með djúpri auðmýkt; sú tilfinning gjörir mig hæfilegan fyrir meðlætið, og sjer mjer borgið í andstreymi lífsins. Auðmýkt fyrir guði kennir mjer það sem mest á ríður að vita af öllu, og það er, að þekkja sjálfan mig. Jeg er að sönnu meiri en líflaus myndin, sem hangir á veggnum, meiri en dýrið, sem gengur í blindni eptir fýsnum sínum; en sje jeg meiri, hverjir eru þá yfirburðir mínir, og hverjir brestir mín-

ir? og þó jeg kunni að hafa nokkra kosti, yfirgnæfa þá ekki ókostirnir? Jú, guð, sem þekkir mig, sjer í hverju mjer er ábótavannt, því hann veit af mínum heimuglegustu girndum; og þegar jeg kem fram fyrir hann, hlýt jeg að auðmýkja mig og blygðast mín fyrir sjerhvað, sem ekki getur staðizt fyrir augliti guðs og dómi samvizkunnar. Ó, þegar jeg tala um þetta og hugleiði það með sjálfum mjer, þá hef jeg síður en ekki af nokkru að stæra mig, allt miðar til þess að aukmýkja mig; hann sem þekkir hjartað, og sjer það sem framið er í leynum, verður ekki á tálar dreginn; æ, menn hafa gott af því að játa sig fyrir honum; menn verða styrkari til að mæta öllum lífsins umbreytingum, er þeir þekkja sjálfa sig rjett. Af auðmýkt fyrir guði lærum vjer að lúta handleiðslu hans, og það er sannreynt, að það burtrýmir frá oss öllum sjálfbyrgingsskap, og innrætir oss sonarlega undirgefni undir guðs vilja í öllu, sem að höndum ber. Svo lengi sem vjer lítum mikið á sjálfa oss, finnum ekki til óverðugleika vors og sjáum ekki sekt vora fyrir guði, svo lengi sem vjer dirfumst að deila við skapara vorn, svo lengi getur engin rósemi náð að festa rætur í sálu vorri. Vjer finnum þó innra með oss til kvalar yfir eymdinni, er vjer þykumst ekki vera valdir að, og það er sár tilfinning og verri en nokkur líkamleg þjáning; því hjarta

vort er í ólgu eins og hið ókyrra haf, sem ýfist af öldunum. Þar af kemur það, að hin dramb-láta sál er leynt eða ljóst óánægð við þá hönd, sem sendir þjáninguna, og möglar á móti þeirri stjórn, sem hún þrátt fyrir alla óánægju megnar þó ekki að umbreyta. Það tjáir þá ekki, þó oss sjeu sýndir allir fjársjóðir trúarinnar, og öll sú endurnærandi huggun, sem þaðan streymir, það tjáir ekki þó vjer reynum til að stöðva órósemi hjarta vors, svo lengi sem vjer látum dramblætið stjórna oss, áður en neyðin ber að höndum. Það er auðmýktin ein, sem kennir oss að temja tilhneigingar vorar, að afneita sjálfum oss vegna guðs. Því þegar vjer setjum oss fyrir sjónir hátign, almætti og speki guðs, sem í einu orði að segja, er alfullkominn, þá innrætist oss það hugarfar, sem felur óskir sínar guðs vilja á vald, og vjer venjumst á að segja af einlægu hjarta, áður en hinir vondu dagar koma: drottinn, ekki minn, heldur verði þinn vilji! Og þessi sjálfsafneitun er viljug. Hún er ólík þeirri undirgefni, sem þrællinn sýnir þar sem hann liggur í fjötrunum, eða Faraó, þegar hann gefur Ísraelslýð burtfararleyfi, af því hegningin vofir yfir og hann sjer, að hann megnar ekki að afstýra henni; ekki er hún heldur þess konar ráða- og rænuleysi, er margir segja sem þjást: mönnum er nauðugur einn kostur, að sætta sig við það, sem guð

vill! — nei, hin ljúfa og sonarlega undirgefni undir guðs vilja — afneitar sjer ekki af nauðung, heldur af eigin sannfæringu, og segir í sjerhverju ástandi: drottinn minn og konungur, jeg er þjón þinn, verði mjer eptir vilja þínum! Hvað er jeg vesæll maður þess, að þú skulir miskuna mjer, og gæta mín innan um allan þann ótölulega grúa, sem mænir upp að hásæti þínu! Þess vegna bið jeg þig að breyta við mig, eins og sjálfum þjer þykir bezt — því þetta er hið eina, sem óhætt er að byggja upp á, þegar ógæfan kemur í gæfunnar stað.

## 48. Traustið á guði.

Þú hin eilífa uppspretta allra velgjörninga, mannkynsins ástríki forsorgari, faðir himins og jarðar, vjer vörpum oss niður fyrir þjer, og tilbiðjum mátt þinn og miskun; því afardjúpur er brunnur þinnar náðar; en hvað eigum vjer að gefa þjer í staðinn, hvernig getum vjer endurgoldið þjer? Allt sem vjer eigum, er þín eign; allir kostir sálar og líkama, allur vor hæfilegleiki, öll líkamleg og andleg gæði — allt er það þjer að þakka; frá þjer er valdið, sem höfðingjar heimsins eiga að hrósa; frá þjer er auðurinn, jafnvel þó heimskinginn gleymi þjer og þakki hann sjálfum sjer. Hvað getum vjer veikar, vanmáttugar skepnur látið þjer í tje, almáttugi skapari og stjórnari óteljandi veralda?

Eitt er það þó, sem vjer getum þjer í tje látið; og sú fórn er þjer þóknanleg: þakklát og ástrík hjörtu, sem treysta þjer, vænta alls góðs frá þinni mildu hendi, vantreysta aldrei nje örvænta, þó ískyggilega líti út, heldur vona og bíða eptir hjálpinni frá þjer, jafnvel þó hún eigi komi á þeim tíma, sem sjálfum oss þykir hagkvæmast. Þú heimtar af oss trúarörugg hjörtu, og þau viljum vjer líka færa þjer. Sjerhver dagur umliðinnar æfi ber vitnisburði um þína náð; ættum vjer þá ekki líka að sýna, að vjer kunnum að meta hana, með óbifanlegu trausti á þjer alla vora ókomnu æfidaga, þó þeir sjeu oss enn þá huldir? Auglit guðs hvílir með velþóknun yfir hinum trúrækna iðjumanni, sem brýnir fyrir sjer og sínum þeim til uppörfunar: þó að heimurinn freisti mín daglega með fortölum sínum, þá skal jeg á hverjum degi hugleiða í næði með sjálfum mjer allt það, sem hinn algóði hefur gjört fyrir mig og mína, og varpa allri minni áhyggju upp á hinn almáttuga. Því hinn himneski faðir lítur náðarsamlega til sjerhvers, sem hefur öruggt trúnaðartraust á honum, og getur vitnað fyrir samvizku sinni, að hann í hretviðrum lífsins hafi treyst guði, og að honum hafi orðið eptir trú sinni. Traustið á skapara mínum og drottni, þessi ágæta og háleita tilfinning, sem lífgar og styrkir, skal festa rætur í hjarta mínu, og útbúa mig með himneskum styrkleika

í öllu mínu athæfi og athöfnum, svo jeg aldrei láti hugfallast, heldur geti hrundið frá mjer öllum ósæmilegum áhyggjum, sem vanar eru að hlaðast á þá, er ekki hafa öruggt trúnaðartraust á guði. Þetta trúnaðartraust ætla jeg að leitast við að efla og rótfesta í brjósti mínu; jeg skal endurnæra anda minn með orðum Jesú, og nota sjerhvert ljós, sem hann lætur upprenna fyrir mjer yfir vegi forsjónarinnar; og ætli einhver órósemi eigi að síður að óspekja huga minn; ef að þær áhyggjur, sem hafa náð að brjótast inn á mig, halda á fram að ásækja mig innan húsveggjanna, þá ætla jeg að ganga út undir guðs fríða himinn, svo mjer hægist fyrir brjósti; einnig þar kemur guð á móti mjer; einnig þar talar hann við mig blíðum huggunarorðum; því öll náttúran umhverfis mig er líka musteri hans; allir hlutir kunngjöra þar fyrir mjer hans ástríku umhyggju; margar raddir vekja mjer þar huga á þá leið: hví ertu hugsjúkur, líttu í kringum þig, hresstu upp hugann, treystu guði og vertu ekki vantrúaður! Náttúran umhverfis mig brýnir einnig fyrir mjer þetta kristilega boðorð: varpið allri yðar áhyggju upp á guð, því honum er annt um yður (1 Pjet. 5, 7). Þessi áminningar orð eru stíluð til allra þeirra, sem hugsjúkir leita fæðis og klæðis, sem lifa hugfallnir og kvíðandi vegna ímyndana, sem þeir skapa sjer um hörmungar, þrautir og þjáningar,

er ókomni tíminn kunni að hafa í för með sjer; þau ná til eins og sjerhvers manns; því vjer finnum þó allir til þeirrar áhyggjunnar, sem þyngst er allra, þegar vjer setjum oss fyrir sjónir ímynd dauðans og rotnunarinnar. Eigi að síður getum vjer sagt, af því vjer erum kristnir: „hann sem ekki þyrmdi sínum eigin syni, heldur seldi hann í dauða fyrir oss, því skyldi hann ekki gefa oss alla hluti með honum“? Þess vegna getum vjer líka sagt óhræddir: dauði, hvar er þinn broddur? helvíti, hvar er þinn sigur? Guði sjeu þakkir, sem gefur oss sigur fyrir Jesúm Krist!

## 49. Sjálfsafneitun.

Frelsari vor segir: hver sem vill fylgja mjer, hann verður að afneita sjálfum sjer. Að afneita sjálfum sjer er sama sem að hafna sjálfselskunni (Matth. 16, 24. Mark. 8, 34. Lúk. 9, 23). Enginn getur elskað Krist nema sá, sem getur afneitað sjálfum sjer. Ef frækornið, sem sáð er í jörðina, náir ekki að deyja og rotna, ber það engan ávöxt; allt eins getur þú ekki, hjarta mitt! öðlast eða fengið ávöxt heilags anda, nema sjálfselskan deyi út af í þjer. Eins og Abraham hlaut að skilja við ættjörðu sína, áður hann gæti orðið hinn mikli forfaðir, eins hlýtur þú líka að ganga frá sjálfum mjer, sem þú hefur svo miklar mætur á, til þess þú getir orðið

rjettur lærisveinn og andlegur maður. Enginn getur með sama auganu í senn horft bæði á himinn og jörð; eins getur þú ekki heldur með sama sinni elskað bæði sjálfan þig og guð. Elskan er ágætasti kostur sálarinnar, þess vegna á hún líka einungis að koma fram við þann, sem einn er ágætastur og alfullkominn, eins og guð er; ó, elskan í brjósti þínu er þitt átrúnaðargoð! því sjerhvað sem þú elskar heitt og innilega, metur þú eins og guð, og það sem þú elskar mest, álítur þú vera kezt; hver sem því elskar sjálfan sig, hann gjörir sig að guði, sem er hin versta afguðadýrkun. Að afneita sjálfum sjer er því næst að hafna *eigin heiðri*. Hver sem leitar sjálfum sjer heiðurs, getur ekki leitað guðs dýrðar, því svo sagði Kristur við Fariseana: hvernig getið þjer verið trúaðir, sem takið heiður hvor af öðrum? Ó, þú fávísa hjarta, allar þínar gáfur þiggur þú af guði, þess vegna áttú líka að gefa honum einum dýrðina fyrir þær; allar góðar gjafir streyma út frá guðs gæzku brunni; þess vegna ber líka að þakka honum fyrir allt sem gott er. Að afneita sjálfum sjer, er að hafna *eigin vilja*. Vjer eigum að hlýða vilja þess, sem vill oss bezt; nú er guðs vilji ætíð hinn bezti, því hann leiðir oss ávallt til lífs og sælu, þar sem vilji sjálfra vor leiðir oss svo opt til dauða og fordæmingar. Hafi drottinn vor Jesús Kristur, þegar hann var staddur

í dauðans angist rjett á undan pínu sinni, hafnað vilja sjálfs síns til að hlýða guðs vilja, og með því gjört guði þægt verk, ó, þá ber þjer líka, hjarta mitt! að láta guðs vilja ganga fyrir þínum vilja í lífi þessu, svo að þú, sem nefnir þig eptir Kristi, getir gjört það, sem Kristur heimtar, afneitað sjálfum þjer og sagt í fullri alvöru: ó, drottinn, verði þinn vilji svo á jörðu sem á himni!

## 50. Hreinleiki sálarinnar.

„Þar eð vjer höfum þvílíkt fyrirheit, þá hreinsum oss af allri saurgun holdsins og andans, og fullkomnum helgun vora með guðs ótta“ segir postulinn Páll (2 Kor. 7, 1); en hver þessi fyrirheit sjeu, frá því segir hann líka, þar sem hann færir til þau orð, er drottinn sjálfur talaði til þeirra, sem trúa á hann: jeg vil búa hjá þeim og fylgja þeim, jeg vil vera guð þeirra, og þeir skulu vera minn lýður, og jeg vil taka þá að mjer og vil vera faðir þeirra, og þeir skulu vera synir mínir og dætur (2 Kor. 6, 16—18). Ó, sú miskun guðs yfirgengur alla aðra miskun hans, að hann skuli vilja vera minn guð, og heita mjer náð sinni, mjer, sem er hennar með öllu ómaklegur; ó, sú elska yfirgnæfir allt, að góður guð skuli vilja vera faðir minn, og vilja gjöra mig að barni sínu, mig, sem eptir eðli mínu er reiðinnar barn, skuli vilja

breyta við mig í öllu eins og barn sitt, elska mig, hugga mig í raunum mínum, annast mig í allri neyð, refsa mjer og aga mig, þegar jeg er óhlýðinn, fyrirgefa mjer yfirsjón mína og taka mig aptur í sátt, þegar jeg auðmýki mig fyrir honum, Ef jeg vil nú ekki brjóta af mjer þá náð guðs, sem hann býður mjer og veitir með þessu, heldur vil verða hluttakandi í þessum dýrmætu fyrirheitum, þá er það sjálfsagt að jeg hlýt að ganga þann veg, sem guð hefur lagt fyrir, hlýt að *hreinsa mig af syndunum* og starfa að helgun minni. Guð minn er svo góður, að hann vill koma til mín og vera guð minn og faðir, og gjöra mig aptur að bústað sínum, ástvin og barni; en vilji jeg hafa gott af þeirri náð, og framvegis halda guði hjá mjer, þá verð jeg að gæta mín, að jeg ekki með ásetningssyndum, með mótþróa og illsku saurgi sálu mína og líkama, sem hann á að búa og byggja í, heldur hreinsi mig æ betur og betur af allri saurgun syndarinnar. Vilji jeg að guð sje framvegis minn guð, þá er það sjálfsagt, að jeg hlýt að haga mjer við hann, eins og hæfir hans lýð, hlýt að elska hann, heiðra hann, dýrka hann, þjóna honum, tilbiðja hann, ákalla hann, og í öllum hlutum hlýða honum eins og guði mínum. Vilji jeg að guð sje framvegis faðir minn, þá er það með öllu ómissandi, að jeg eins og sannarlegt guðs barn líkist þessum mín-

um himneska föður, og breyti eptir honum í heilagleika, hegði mjer við hann, eins og hlýðið barn við föður sinn, forðist að styggja hann og láti mjer annt um í öllum hlutum að gjöra hans vilja. Þetta er innibundið í þeim orðum: látum oss hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og fullgjöra helgun vora í guðs ótta. En til þess útheimtist það, að vjer skoðum sjálfa oss daglega í spegli guðs orða, svo að vjer lærum að þekkja þá saurgun og bletti, sem enn loða við oss; því þó vjer höfum hreinsað oss af einni synd, þá þurfum vjer óðar að hreinsa oss af annari, og þó vjer höfum unnið einn sigur, þurfum vjer óðar að berjast fyrir öðrum. Og þess vegna er oss nauðsyn á, að andvarpa daglega til guðs vors um náð hans og hjálp til þessa verks, og biðja eins og Davíð: guð minn, skapaðu í mjer hreint hjarta, og endurnýaðu í mjer stöðugan anda, burtskúfa mjer ekki frá augliti þínu, og taktu ekki þinn heilaga anda frá mjer (Sálm. 51, 12)!

## 51. Elska til guðs og náungans.

Það guðs barn, sem vill hafa álit fyrir að trúa satt og rjett á drottinn Jesúm Krist, hlýtur um fram allt að leggja stund á kærleikann, þessa háleitu og ágætu dyggð, svo framarlega sem guð á ekki að álíta trú þess dauða, kalda og hræsnisfulla; því það bregzt ekki, að sje trúin

rjett og sönn, þá hlýtur hún að hafa kærleikann í för með sjer, því hann er einmitt inntak og aðalatriði lögmálsins. Í þessum tveim boðorðum, að elska guð og náungann, er innibundið allt lögmálið og spámennirnir, segir frelsari vor; og Páll segir, að elskan sje lögmálsins uppfylling (Rómv. 13, 10), já, hann segir: nú er trú, von og kærleiki, þetta þrennt; en af þessu er kærleikinn mestur (1 Kor. 13, 13). Hann meinar þetta: að sönnu er mikið í trúna varið, því með henni höndlum vjer Jesúm ásamt með öllum hans velgjörningum, og tileinkum oss rjettlæti hans og sælu; að sönnu er mikið í vonina varið, því með henni þráum vjer og bíðum eptir eilífu lífi og eilífri dýrð, sem á síðan skal á oss opinber verða; en kærleikinn er þessa mestur, því með honum auðsýnum vjer bæði trúna og vonina, og byrjum þegar hjer það líferni, sem vara skal um alla eilífð; því líka á kærleikinn að eiga sjer stað í öðru lífi, með því vjer eigum þar að elska guð, heilaga engla og alla sæla menn; en þá er bæði trúin og vonin að þrotum komin. Þessi kærleiki guðs barna kemur fram bæði við guð og náungann; hjartað hlýtur að unna báðum; elska á guði án elsku til náungans er ekki annað en hugarburður; elska til náungans án elsku á guði, er ekki annað en yfirskin, heiðinglegur kærleiki, sem kemur af náttúrufari, en ekki af því

að trúin eða guðs andi hafi vakið hann í hjartanu; því einnig heiðingjarnir auðsýndu hvorjir öðrum sátt og samlyndi, rjettlæti og miskunsemi, vináttu og velvilja; en slíkt kom ekki af trú, eða frá því hjarta, sem Jesú blóð hefði hreinsað. Margt er það, sem ætti að hvetja oss til þessarar innilegu og einlægu elsku. Vjer skulum gæta þess, að það er guð sjálfur, sem skipar oss: þú átt að elska guð þinn. Hversu heitt hefur ekki guð elskað oss? Þegar syndafallið hafði gjört oss dauða- og dómsseka, elskaði guð oss svo innilega, að hann gaf oss sinn eingetinn son, til þess að allir þeir, sem á hann trúa, glatist ekki, heldur eignist eilíft líf; ó, hvílíka elsku hefur frelsarinn auðsýnt oss, er hann stje niður af himni vor vegna, ljet taka sig höndum, smána sig, húðstrýkja, krossfesta og deyða; já, það er ljósasti votturinn um elsku hans, að hann ljet lífið fyrir oss. „Og náungan eins og sjálfan mig“. Hver ætli sje þessi náungi? Jeg veit að allir menn eru náungi minn, hvort sem þeir eru kunnugir eða ókunnugir, skyldir eða vandalausir, vinir eða óvinir, vondir eða góðir, sömu trúarbragða eður ekki, yfirmenn, jafningjar eða undirmenn, allir menn, hverju nafni sem þeir heita. Guð vill að sú elska, sem vjer höfum á sjálfum oss, sje sú fyrirmynd eða mælikvarði, sem elska vor til náungans sje löguð eptir. Nú elskum vjer

sjálfa oss svo innilega; eins á þá líka elska vor til náungans að vera, því svo segir Jóhannes postuli: börn mín, látum oss ekki elska með orði, ekki heldur með tungu, heldur með verki og sannleika! Vjer elskum sjálfa oss, jafnvel þó vjer vitum af brestum hjá oss, eins eigum vjer líka að láta elsku vora til náungans hylja bresti hans og yfirsjónir; vjer eigum að biðja fyrir honum, að guð vilji gefa honum náð til apturhvarfs, ef hann er óguðlegur, og efla hann og styrkja í öllu góðu, ef hann er guðhræddur. Vjer eigum af elsku til hans að uppfræða hann og áminna, hugga hann, þegar hann er veikur og freistaður, bera byrðina með honum, ef hann er breiskur, leiðrjetta hann, þegar honum yfirsjezt, og ganga á undan honum með góðu eptirdæmi til orða og verka. Þú sem trúaður ert, átt að ráðleggja hinum ráðalausa, vitja hins sjúka af meðaumkun, hjálpa honum, að svo miklu leyti sem í þínu valdi stendur, og ala önn fyrir honum, eins og hinn góðhjartaði Samarítan gjörði fyrir sínum nauðstadda náunga. Og þá máttu vera viss um, að guð skal ekki gleyma ástverkum þínum (Hebr. 6, 16). Loksins eigum vjer að auðsýna þessa elsku ekki einungis vinum vorum, heldur líka óvinum, sem leitast við að vinna oss mein og tjón. Þetta er að vísu — vjer vitum það vel — þung ræða fyrir hold og blóð, sem vant er að brenna af hefndargirni

við óvini sína; en eigi að síður er það heilagur sannleiki, því drottinn vor hefur sjálfur sagt: elskið óvini yðar, blessið þá sem yður bölva; og hann vottaði sjálfur þessa elsku oss til handa, sem urðum óvinir hans vegna syndarinnar, með því að hann ljet lífið fyrir oss; hann elskaði svo heitt sína bitrustu óvini, sem negldu hann á krossinn, að hann bað fyrir þeim: faðir, fyrirgef þeim! Ó, guð, gefðu oss öllum þann anda, að vjer getum gjört hið sama, gefðu oss náð þína til þess fyrir sakir Jesú Krists, vors meðalgangara og frelsara!

## 52. Elska til heimsins.

Spegillinn tekur á móti mynd þess hlutar, sem haldið er upp fyrir honum; eins gjörir sál mannsins. Sje henni snúið til guðs og himneskra hluta, þá lagast hún eptir því og verður himnesk; þegar vjer, segir postulinn, skoðum svo sem í spegli með beru andliti dýrð drottins, ummyndumst vjer, svo sem af anda drottins, eptir þessari sömu mynd til meiri og meiri dýrðar (2 Kor. 3, 18). Þegar sálin þar á móti snýr sjer til skepnunnar og jarðneskra hluta, tekur hún keym af þeim og verður jarðnesk. Þess vegna bannar oss líka guðs andi að elska heiminn og þá hluti, sem eru í heiminum, svo að vjer hegðum oss ekki á heimsins hátt, og glötumst síðan með honum. Gæt þín því, krist-

in sál! að þú ekki verðir fjötruð af ást á heiminum og girnd til jarðneskra hluta. Þú ert of vegleg og ágæt til þess að leggja ást þína á heiminn og þá hina hjegómlegu hluti, sem eru í honum. Íhugaðu að þú ert sköpuð eptir guðs mynd, endurleyst með guðs sonar dýrmæta blóði, endurfædd af anda guðs með guðs lifanda orði, sem varir eilíflega, og með hinum háleitu sakramentum, til himneskrar og eilífrar dýrðar og sælu. Skyldir þú þá sjálf vilja gjöra svo lítið úr þjer að þjóna skepnunni, þú, sem guð hefur metið svo mikils og gjört að sinni eign? Ef þú finnur eitthvað hjá skepnunni, sem þjer þykir indislegt og ánægjusamt, þá máttu vita, að það er að eins lítill geisli, já, ekki annað en skuggi af þeirri fullkomnun, sem guð hefur sjálfur til að bera. Hver sem því heldur sjer til guðs, hann hefur alla hluti; en hver sem ekki er ánægður með að eiga guð að, hann er þess ekki verðugur, að njóta góðs af nokkrum hlut. Einmitt í því áttu að sýna afl trúarinnar, að þú takir ósýnilegan guð fram yfir sýnilega hluti, og ókomna himneska sælu fram yfir nærverandi jarðneska farsæld. Því að vísu erum vjer guðs börn nú þegar, allir vjer, sem höfum lifandi trú; en þó er það enn þá ekki opinbert, hvílíkir vjer munum verða; en það vitum vjer, að þegar hann opinberast, þá munum vjer verða líkir honum, því vjer skulum sjá

hann, eins og hann er. Og hver sem hefur þessa von, hreinsi sjálfan sig, svo hann verði hreinn eins og hann! En hversu aumt er það ekki af oss mönnunum, að vjer skulum gjöra oss svo mikla óþarfa áhyggju einungis fyrir þessum hinum hjegómlegu hlutum, sem eru í heiminum, er vjer þó ekki getum verið vissir um að mega njóta eina stund, eins og oss líkar; því það er oss ávallt hulið, hvenær guð muni krefjast sálu vorrar af oss með aðkomu dauðans og dómsins. En svona getur ást á heiminum villt sjónir fyrir oss, og útrýmt svo frá oss öllum huga og hugsun um hið andlega, að vjer gleymum því með öllu, að vjer erum einungis ferðamenn á jörðunni, útlendir í þessum heimi, er höfum hjer engan varanlegan samastað, heldur eigum að leita hans í öðrum heimi. Þess vegna ef vjer eigum að geta gjört það, þá er það með öllu ómissandi, að þú, mín endurleysta sál! setjir þjer daglega fyrir sjónir hverfulleik allra jarðneskra hluta og vissu dauðans, og biðjir með Móses: drottinn, kenn oss að telja daga vora, svo vjer verðum vitrir! Já, kenn oss það!

## 53. Elska til náungans.

Skýlaus og ljós eru þessi orð drottins: hver sem vill fylgja mjer, afneiti sjálfum sjer, taki sinn kross upp á sig og fylgi mjer eptir (Matth.

16, 2). Fyrst að hann nú heimtar af oss sjálfsafneitun, þá heimtar hann líka af oss elsku til þeirra, er vjer eigum að afneita oss fyrir. Eða má nokkur sá dirfast að tala um elsku sína, sem ekki afneitar sjálfum sjer einmitt vegna elskunnar? Ef þú elskar konu þína, maður! þá neitar þú þjer fúslega um unaðsemdir, skemmtanir og makindi, þó þú sjert þeim aldrei svo vanur. Ef þú, móðir! elskar barn þitt, þá neitar þú þjer fúslega barnsins vegna um næði á daginn og svefn á nóttunni, jafnvel um heilsu og heilbrigði líkamans, ef á þarf að halda. Börn! ef þjer elskið foreldra yðar, þá neitið þjer yður fúslega þeirra vegna um yðar æskuskemmtanir, já, hafnið — ef til þess kemur — jafnvel þeirri lífsstefnu, sem þjer hafið gjört yður blómlegustu von um. Ef þjer, hinir dýrkeyptu! elskir endurlausnara yðar, þá neitið þjer yður fúslega um þær tilhneigingar og girndir, þau áform og athafnir, sem gagnstæð eru hans heilaga vilja. En það sem hann heimtar — það innibindur postulinn í þessari áminningu: „verið engum skyldugir um neitt, nema það að elska hvor annan“; og með því lætur hann í ljósi, að vjer að sönnu getum í vissri stöðu, eða í vissum viðskiptum við menn fullnægt öllu, sem þeir geti krafizt af oss með sannsýni; einungis megum vjer ekki ímynda oss, að vjer getum nokkurn tíma orðið kvittir við boðorð kærleikans, eins og t. a. m. við húss-

bónda, sem vjer með trú og dyggð höfum þjónað hjá árið út, eða við kaupmann, sem vjer höfum skilvíslega borgað allar skuldir. Hvenær sem vjer vinnum annaðhvort kærleiks- eða rjettlætisverk, þá gjörum vjer að sönnu náunganum ekki illt á meðan; en þó vjer af sannri virðingu fyrir rjettlæti og skyldu gjörum náunganum ekkert illt, þá höfum vjer þar fyrir ekki það hugarfar, sem fullnægir lögmálinu og fullvissar um eilíft líf. Getum vjer gjört oss nokkra von um elsku guðs, nema því að eins að vjer elskum hann, sem elskaði oss að fyrra bragði? En getum vjer elskað hann, og þó ekki elskað börn hans, sem hann lætur *sýnilega* verða á vegi fyrir oss, til þess vjer auðsýnum á þeim elsku vora; *sýnilega* segir postulinn, og tekur það orð fram, því hann gefur oss þá hugvekju: hver sem ekki elskar bróður sinn, þann er hann sjer, hvernig getur hann elskað guð, þann er hann sjer ekki (1 Jóh. 4, 20)? Postulinn leggur þessa spurningu fyrir þig, sem stærir þig af elsku þinni til skaparans, en afsakar kærleiksleysi þitt til skepna háns með því, að þær sjeu svo ómaklegar allrar elsku. Hvernig getur þú gleymt því, að þú ert sjálfur ómaklegur miskunar og elsku guðs þíns og frelsara? Postulinn vill vekja þjer huga um, að þú sjert sjálfur svo gjörður, að þú eigir hægra með að elska þá, sem sjeu jafningjar

þínir, heldur en þá, sem sjeu miklu æðra eðlis en sjálfur þú, að elska þann velgjörðamann, sem þú sjerð að hefur góðar gjafir á reiðum höndum, heldur en hinn ósýnilega velgjörara, sem þú aldrei hefur sjeð höndina á, að elska hinn nauðstadda, sem horfir upp á þig bænaraugum, og þakkar þjer með mörgum fögrum orðum fyrir þá hjálp og frelsi, sem þú lætur í tje, heldur en hinn almáttuga, sem ekki þarf þín með, og sem þú aldrei getur auðsýnt neitt gott, er þú getir átt skilið þakkir hans fyrir. Ef þú getur nú ekki gjört það, sem auðveldara er, þá getur þú því síður hitt, sem er torveldara; ef þú getur ekki auðsýnt kærleika, þar sem jafnvel þitt hið holdlega eðlisfar þrýstir þjer til þess, þá getur þú því síður alið í brjóti þínu þann kærleika, sem er alveg andlegs eðlis og sprettur af trúnni. Nei, vjer sjáum hvergi í guðs orði talað um aðra sáluhjálplega trú, en þá sem sýnir sig ávaxtarsama í kærleikanum, ekki heldur um annan sáluhjálplegan kærleika, en þann, sem kemur fram bæði við guð og menn. Þetta boðorð höfum vjer af honum, að sá sem elskar guð, hann á líka að elska sinn bróður.

## 54. Fyrirheit guðhræðslunnar.

Veröldin líður undir lok og hennar unaðsemd, en sá sem gjörir guðs vilja, varir að eilífu (1 Jóh. 2, 17). Ef vjer eigum kost á þessu hvoru-

tveggju, hvort af tvennu eigum vjer þá að kjósa — heimsins hverfulu unaðsemd, eða himinsins eilífu gleði? Annað af því getum vjer fengið með því að elska heiminn, hitt getum vjer öðlast með því að gjöra guðs vilja. Ef þú værir staddur á einhverjum stað, og vissir að hann innan fárra augnablika ætti að bresta í sundur undir fótum þjer, mundir þú þá vilja dvelja þar til lengðar, eða ætli þú vildir taka þar á þig náðir? nei, þú mundir flýta þjer burt þaðan, til að forða þínu vesæla lífi, sem þó á einu sinni að enda. Æ, því flýtir þú þjer þá ekki frá heiminum til guðs? Hví ertu svo óhultur um þig í veröldinni? Er þar enn svo margt, sem þú þarft að girnast og óska? Bjargaðu þinni aumu sál, áður en hún tortýnist með heiminum; hví viltu af ásettu ráði bendla þig við heiminn, og fjötra þig áhyggjum hans og unaðsemdum, þangað til hann brestur í sundur undir fótum þjer? Æ, hertu upp hugann og rífðu þig lausan frá hinni svikulu veröld, sem er sæt eins og Dalila, en er það einungis til þess að geta veitt þig! Jeg vil fara burt úr heiminum, ekki að líkamanum til — hann má vera þar, þangað til guði þóknast að kalla hann burt þaðan — en jeg vil losa huga minn við heiminn, og innilega sameina mig drottni mínum og frelsara; jeg vil vera í heiminum, en ekki lengur þjóna heiminum; jeg er skapaður

til eilífs lífs, þangað vil jeg þá snúa huga mínum, því þar á jeg eilíflega að vera. Óskandi væri að vjer vildum allir taka þennan ásetning, þá skyldum vjer líka allir öðlast eilíft líf; þó það kunni að kosta oss mikla fyrirhöfn að gjöra guðs vilja, þó vjer fyrir það verðum að fara á mis við marga unaðsemd, sem vjer höfum áður notið, þó það kosti margfalda baráttu við hold og blóð — æ þá megum vjer ekki setja það fyrir oss; guðhræðslan hefur fyrirheit um eilíft líf; og sannarlega eru hinir óblíðu dagar, sem lifað er í ótta drottins, betri en sældardagar heimsins. Móses kaus heldur að líða illt með lýð drottins, en að njóta syndarinnar skammvinnu kæti (Hebr. 11, 25). Já, það er betra að vera sameinaður guði, en samlaga sig heiminum; í heiminum er ekkert annað en hverful kæti, sífeld mæða og órósemi og synd; en þar sem guð er, þá er svo að orði kveðið: hjer er gott að vera, gott að þjóna guði, því vjer fáum góð verkalaun; gott að vera veikur hjá guði, því í sjúkleikanum endurnærir hann oss með huggun sinni; gott að þola illt hjá guði, því þjáning vor, sem er skammvinn og stutt, aflar oss yfirgnæfanlegrar dýrðar; gott að vera lítillækkaður hjá guði, því hann upphefur oss; já, gott er að lifa hjá guði og deyja hjá guði, því hver sem gjörir guðs vilja, varir að eilífu. Opna þú þess vegna augu vor, drottinn Jesús Kristur! og snú

hjörtum vorum, til þess vjer getum sjeð og skilið, hve fallvaltur og óstöðugur heimurinn er, og getum gætt þess, hvernig hann gengur daglega af sjer, svo að vjer reynum æ betur og betur að losa oss við hann. En kenndu oss þá líka að þekkja sjálfan þig og hina andlegu hluti, svo sem þau einu dýrðargæði, er staðföst sjeu, og ein geti friðað, glatt og fullnægt sálu vorri um tíma og eilífð. Þú hefur með þínu blóði keypt oss frá þessari vondu veröld, þú hefur með anda þínum helgað oss eilífðinni. Hjálpaðu oss til að íhuga þetta, svo að vjer, þegar vjer loksins eigum að skilja við heiminn, glötumst ekki með honum, heldur fáum að vera hjá þjer í eilífðinni, seðjast af þínum kærleika, og fagna eilíflega af þeirri dýrð, sem þú hefur heitið; því, hver sem gjörir guðs vilja, varir að eilífu!

## 55. Líferni hins guðhrædda.

Kristinn maður, sem lætur þjer vera annt um velferð þína, daglega færist þú æ nær og nær dauðanum og dóminum og eilífðinni; láttu það þess vegna vera umhugsunarefni þitt á hverjum degi, hvernig þú fáir staðist í baráttu dauðans, og fyrir guðs stranga rjettlætis dómi, og hvernig þú getir öðlast eilíft líf. Hafðu því nákvæmar gætur á öllum þínum hugrenningum, orðum og athöfnum; því á síðan áttu að standa

reikning af öllu þessu. Árla á morgnana, þegar sól drottins lætur þig líta dagsins ljós, þá láttu þjer koma til hugar: í dag nálægist dauðinn mig; seint á kveldin, þegar sól gengur til viðar og dagsljósið hverfur, þá íhugaðu: í kveld er dauðinn nær mjer en í morgun. Fresta ekki apturhvarfi þínu til morguns; morgundagurinn er harla óviss; dragðu það ekki til elliáranna að lifa guðhræddu líferni, heldur skaltu þjóna guði í blóma æsku þinnar. Eða ætlarðu þjer að fórna djöflinum blómi æskunnar, en guði hismi ellinnar? Að jeg ekki tali um það, að æskumaðurinn á ekki nærri eins víst að verða gamall, eins og ungur maður iðrunarlaus á það víst að deya. Aldrei eru menn eins vel lagaðir til að þjóna guði, eins og á æskuárunum. Áformaðu, aldrei guðhrædda hjarta! nokkurt verk, sem guði þínum er á móti, jafnvel þó öðrum kunni að líka það vel; því það er ekki maðurinn, sem fellur út af eins og grasið, heldur guð, sem lifir eilíflega, er mun á síðan dæma líferni þitt; þess vegna skaltu aldei taka hylli manna fram yfir vináttu guðs; enginn megnar á móti þeim, sem óttast guð, hver skyldi geta grandað honum? Á vegi drottins göngum vjer annaðhvort áfram eða aptur á bak. Rannsakaðu þess vegna líferni þitt á hverjum degi, svo þú vitir hvort þjer fari heldur fram eða aptur í guðs ótta. Að standa við í sömu sporum á

vegi drottins, er sama sem að láta sjer fara aptur. Láttu ekki þá freistni koma yfir þig, að vilja staldra við á vegi guðhræðslunnar, heldur skaltu kosta kapps um, að taka sífeldum framförum á vegum drottins; lærðu að lifa honum þá stund, sem þjer kann enn vera ætluð. Í þessu lífi gjöra menn annaðhvort að afla sjer eilífs lífs, eður hafna því; því framar sem þú losar þig við heiminn og lyptir sálu þinni upp frá honum, þess ástkærari verður þú guði. Það sem þú vilt fá, þá bið guð um það; það sem þú hefur fengið, þá þakkaðu guði fyrir það; sá er þess ekki verður að honum sje gefið, sem vill ekki þakka fyrir það, sem hann hefur fengið; en þeim er æ gefið, sem þakkar. Hvað helzt sem fram við þig kemur, þá skaltu gjöra þjer svo gott af því sem þú getur; þegar þú átt að hrósa meðlæti, þá láttu það minna þig á iðrun og yfirbót; vald þitt sýni sig í auðmýkt, vizkan í guðrækilegu líferni, auðlegð þín í góðum verkum. Láttu ekki mótlætið yfirbuga þig og stær þig ekki af meðlætinu. Láttu þjer í öllum hlutum einkar annt um, að sýna djúpa auðmýkt og brennandi kærleika; elskan skal hefja hjarta þitt til guðs, svo þú haldir þjer stöðugt við hann; auðmýktin skal beygja dramblæti hjartans, svo þú ekki stærir þig. Óttastu drottinn og vonaðu á hann, kannastu við eymd þína og

kunngjörðu miskunsemi hans. Jesús hjálpi þjer til þess!

## 56. Farsæld hins guðhrædda á jörðunni.

Guð minn, sem ræður kjörum manna! þú ljezt mig ekki eiga að fagna ánægju þeirra, sem komast af í heiminum beina leið og baráttulaust; jeg hef svo opt orðið að kefja niður ákafa löngun í brjósti mínu, sem þó ekki var eptir neinu forboðnu hnossi; jeg hef svo opt orðið að sefa ókyrrleika huga míns með tárum mínum í einrúmi, af því jeg mátti ekki láta heiminn sjá þau; þú ljezt mig ekki eiga að hrósa rósemi þeirra, sem álíta veröldina ekki annað, en forðabúr fullt með jarðneska ávexti, sem láta öll störf sín lenda í því að geta náð í þá, og sækjast ekki eptir annari umbun, en fá að njóta þeirra. En þú gafst mjer, guð minn! það hjarta, sem er stórlátara en svo, að nokkuð af þessu geti fullnægt því; þú bjóst mig út með styrkleika til að geta hrundið frá mjer sjerhverri jarðneskri sorg; þú ljezt streyma fram í brjósti mínu lind himneskra tilfinninga, sem sprettur upp til eilífs lífs. Jeg hef litið annað meira, en einungis hjegómadýrð veraldarinnar; jeg hef sjeð sjálfan þig í verkum þínum, hef þreifað á almætti þínu, fundið til þinnar miskunar, og trúin vaknaði í sálu minni, svo jeg kallaði þig, þú hinn eilífi og almátt-

ugi! fyrir hvers bendingu himin og jörð titra; jeg kallaði þig föður minn og föður allra manna. Þú lagaðir hjarta mitt handa þjer, og vonin bjó snemma í því ásamt með friði æskunnar; síðan barst jeg út í heiminn, og sá að hann var öðru vísi, en jeg hafði búizt við; allt varð svo dimmleitt umhverfis mig; jeg fór þá að leita þín, og mjer virtist eins og þig væri ekki framar að finna; jeg heyrði sögur af eymd og neyð, sem einlægt viðhjelzt og aldrei vildi linna, og sjálfur reyndi jeg minn skerf af henni; jeg leitaði mjer huggunar hjá spekingum veraldarinnar, en þeir gátu ekki huggað mig; jeg leitaði mjer allstaðar hælis á jörðunni, en gat ekki fest höndur á neinu; jeg litaðist um í kringum mig, eins og ferðamaður, sem viltur er á eyðimörku, hvort hvergi rynni svaladrykkur, sem gæti sefað angist minnar þreyttu, örmæddu sálar; og sjá! þú ljezt mig þá finna — ekki ljóma veraldarinnar, því það voru ekki allar hennar gjafir til samans, sem þú sefaðir með mína sáru löngun, heldur fullnægðir þú mjer með öðru betra, langt fram yfir alla mína eptirvænting og von, með því þú ljezt mig komast að raun um, að fagnaðarboðskapur Jesú Krists hefur krapt frá þjer til sáluhjálpar fyrir sjerhvern þann, sem trúir. Þú greiddir honum, guð minn! veg inn í hjarta mitt, og jeg fann sjálfur hvað mjer var gefið, vinur á himnum, sem stje niður á jörðina, og

gjörðist hluttakandi í kjörum mínum, sem snjeri aptur til þín, og gjörðist hluttakandi dýrðar þinnar; jeg geymdi boðskapinn um hann innst í hjarta mínu, og þegar jeg sá stríð og styrjöld og óstjórnlegar biltingar, og alla hina eyðileggjandi refsidóma reiði þinnar ganga yfir jörðina, þá minntist jeg hans, sem þú helgaðir og í heiminn sendir, og jeg sagði sjálfum mjer með fullri djörfung, að þú værir þó náðugur guð. Orð Jesú ruddu sjer til rúms í sálu minni og heptu ofsa geðshræringanna, vöktu samvizkuna, en sefuðu jafnframt órósemi hennar, glæddu hjá mjer löngun og kapp til allra góðra og guði þóknanlegra athafna, en kenndu mjer jafnframt að fela árangurinn, eins og öll mín kjör, í þínar föðurhöndur. Hann gekkst undir alla mína byrði og gaf mjer frið; hann frelsaði sálu mína úr hinum þungbæru fjötrum hryggðarinnar og hræðslunnar, og dauðann sjálfan svipti hann allri hans beiskju, því hann kenndi mjer að lifa við vonina, þar sem holdlegur maður getur ekki annað en skolfið af kvíða, og álíta þá stund, er líkamans líf þrýtur, þá er öllum mínum störfum hjer á jörðu er lokið, þá er allar mínar jarðnesku unaðsemdir hverfa á burt, álíta hana sælustund mína, fyrir því að þá yrði fangelsinu lokið upp, og andinn skundaði til heimkynnis síns, til sinnar sönnu ákvörðunar, til frelsis eptir ánauð, til friðar eptir órósemi,

til himneskrar gleði eptir skammvinna og stopula kæti! Ó, þú mikla umbun guðhræðslunnar, þú sigursæla hugrekki, þú háleiti himneski kraptur, sem heldur þeim manni, er þú býrð í, upprjettum, þar sem flestir hníga niður, á stundu þjáninga og ofsókna, þú sem kennir hinum rjettláta að hræðast ekki það, sem flestir hræðast, heldur einungis að óttast guð, aðhyllast hann af öllu hjarta, og hræðast svo ekki hvað sem fyrir kemur; skyldi ekki sjerhver sá, sem einhvern tíma hefur fundið til þín í hjartanu með lifandi tilfinningu, meta þig meir en allt, sem heimurinn metur mest? skyldi hann ekki með fögnuði gjöra þá játningu, að guðhræðslan hafi fyrirheit einnig fyrir það líf, sem nú er?

## 57. Hin kristilega von.

Veglegir og dýrðlegir eru þeir hlutir, sem hver guðhræddur og sanntrúaður kristinn maður á í vændum, og sem hann líka má staðfastlega byggja upp á. Hversu ólík er ekki þessi von kristins manns öllum þeim vonum, sem veröldin getur gefið? Vera má þó, maður! að þjer þyki veröldin líka hafa á boðstólum handa þjer margar girnilegar vonir; þú ert, ef til vill, ungur, heilsugóður og hraustur; í því trausti gjörir þú þjer von um að njóta margra unaðsemda í lífinu, og væntir að þjer muni haldast lengi á þeim. En hve óviss er ekki þessi von! Hve

auðveldlega og fljótlega getur hún ekki brugðizt! Sjúkdómur getur niðurbrotið heilsu þína, mótlæti getur beygt þig, og sorgin getur fljótt látið fölna blóma kinna þinna, getur slökkt fjör augna þinna, og gjört þjer allar lífsins unaðsemdir beiskar og ógeðfeldar. Já, dauðinn getur fljótlega vitjað þín, og í einu vetfangi gjört að engu alla þá kosti, sem þú reiddir þig á. En þá er allt öðru vísi varið sælu þess manns, sem byggir von sína á drottni guði vorum, sem skapaði himininn og jörðina og sjóinn, og allt sem í þeim er, á honum, sem heldur tryggð æfinlega. Sælir erum vjer, þegar vjer byggjum ekki von vora á hinu jarðneska, sem er svo hverfullt, heldur á guði, sem er óumbreytanlegur. Sú von svíkur oss aldrei, því guð er sannsögull og trúfastur, og hann einn er megnugur að hjálpa og frelsa. Sá sem byggir von sína á guði, örvæntir ekki í mótlæti, heldur er öruggur í allri armæðu lífsins, því guð er hans hellubjarg og hlutskipti að eilífu (Sálm. 73, 26). Því lengur sem hann lifir, þess betur sannfærist hann um það af reynslunni, að öll jarðnesk von er óáreiðanleg og ónóg, þess framar kemst hann að raun um, að hvorki auðlegð nje vald, eða ánægja skilningarvitanna, eða hylli manna getur fullnægt löngun anda vors eptir farsæld, þörf hjarta vors á því að vona, og geta fundið hvíld í voninni. Því optar sem hann sjer að

sú von bregst, sem hann gjörði sjer um meðbræður sína, því optar sem hann er vitni til þess að menn bregðast í loforðum, og á margan hátt mótsegja sjálfum sjer til orða og verka, því þyngra og sárara sem honum sjálfum fellur að reyna þetta, þess sælli þykist hann af því, að eiga guð að sem tryggan vin, almáttugan verndara, öruggt hæli, er aldrei getur brugðist; þess innilegar þakkar hann Jesú, sem gaf honum kost á hinni sælustu von, þess fúsari og glaðari hlýðir hann þeirri áminningu Jesú, sem kennir honum að leita fyrst guðs ríkis og þess rjettlætis, sem guði er þóknanlegt. Glaðir og sælir af von til drottins segjum vjer: hvað er það, sem heimurinn fláráði heilla nafn ljer? hvað auður, hvað heims magt, hans oflæti stakt? hvað snilli, hvað heilbrigði og heppileg kjör? — Reikandi skuggi og skýjaflug hratt, skjótt uppþotin bóla, sem hjaðnaði og datt; í sút vafin missýning sannkölluð hjer, hjegóminn einber!

Því far þinn veg nú,
þú heimur fallvalti
og hjálp þín ótrú;
jeg sný hug til himins og hann stunda á,
til herra míns Jesú, minn frelsara sjá;
þar einkis jeg sakna, en ávinn gjörvallt,
því guð er mjer allt,
minn guð er mjer allt.

## 58. Hið rjetta heimkynni kristins manns.

Þegar Pjetur postuli segir: þjer ástkæru! jeg áminni yður sem gesti og útlendinga, að þjer haldið yður frá holdlegum girndum, sem stríða í gegn sálunni, (1 Pjet. 2, 11) þá meinar hann þetta með því: kæru, kristnu vinir! þjer eruð skírðir, kallaðir og leiddir inn í hið konunglega og kennimannlega ríki Jesú, ekki til þess að þjer lifið eins og herramenn í heimi þessum, heldur eigið þjer að álíta yður sem ferðamenn og gesti í heiminum. Þess vegna áminnir hann einnig oss, sem höfum gjörzt kristnir og þegnar himnaríkis, að vjer hegðum oss og breytum eins og þeir, sem ekki eiga framar heimili á þessari jörðu. Vjer eigum að skoða oss sem vegfarendur, því vjer erum ekki skírðir og kristnaðir til þess, að vjer skulum drottna og dvelja til lengdar á jörðunni, heldur á himnum. Þess vegna eigum vjer líka að hegða oss hjer á jörðu, eins og ferðamenn, og leita vors verulega heimkynnis á himnum. En ekki getum vjer öðlast þekkingu á þessu voru rjetta heimkynni og himneska föðurlandi, nema fyrir trúna á Krist, því hún er það sem gjörir oss að guðs börnum og þegnum himnaríkis. Að sönnu lifum vjer líka á þessari jörðu, og eigum þess vegna sem útlendir menn, að sýna veröldinni þann sóma, sem henni ber, eigum að láta gesta-

herbergið njóta rjettar síns, þiggja með þakklæti það sem oss er gott gjört, vinna og byggja, plægja og sá, stjórna og þjóna; en allt þetta þó á þann hátt, að vjer aldrei missum sjónar á voru sanna heimkynni, því vjer eigum ávallt að muna til þess, að vjer höfum engan varanlegan samastað hjer á jörðu, og eigum þess vegna að haga oss svo á henni, að vjer að kalla komum ekki við hana, megum engan veginn binda við hana huga vorn og hjarta, trú vora og traust. En á því ríður líka, að vjer forðumst holdlegan munað og holdlegar girndir, af því þær stríða í gegn sálunni. Þetta tvennt getur ekki sameinast: þú segist vera gestur hjer á jörðunni, sá er girnist og sækist eptir betra herbergi, og þó lifir þú í holdlegum munaði, eins og þú skyldir eiga að dvelja eilíflega í heiminum. Það tjáir ekki; öðru hvorju verður þú að sleppa, því hvorutveggju fær þú ekki haldið. Ef þú sökkur þjer niður í holdlegan munað, og gleymir föðurlandi þínu, þá missir þú alveg af því, og færð aldrei að komast í það; því til hvers væri líka að þú fengir það, sem þú sjálfur einskisvirðir og fyrirlítur? Góður guð gefi oss því öllum sinn heilaga anda og náð, og hjálpi oss til að halda oss frá holdlegum munaði, og fram ganga með varúð í heimi þessum, svo að vjer eptir ferðalag vort á þess-

ari jörðu fáum að komast til vors rjetta heimkynnis og lifa þar um alla eilífð!

## 53. Kristilegur kærleiki.

Ó, þú náðarríki Jesús! ef það er einkennið á þínum lærisveinum, að þeir elski hvor annan, æ, hvar á þá að leita lærisveina þinna? Drottinn minn! í hvert sinn sem jeg les þau orð: á því skal hver maður þekkja það, að þjer eruð mínir lærisveinar, ef þjer elskið hvor annan (Jóh. 13), þá getur hjarta mitt ekki annað en titrað af ótta, og skolfið af undrun! Ó, drottinn! sagðir þú ekki sjálfur forðum daga: jeg er kominn til að kveikja eld á jörðu, og hversu feginn vilda jeg, að hann væri þegar farinn að loga (Lúk. 12). Hvers konar eldur ætli það hafi verið? Skyldi það hafa verið þess konar hefndar eldur, eins og þeir Jóhannes og Jakob óskuðu forðum að fjelli niður af himni, og eyðilegði þá hina Samversku, sem ekki vildu hýsa þá? Nei, drottinn! þess konar eldur var það engan veginn, heldur var það eitthvert æðra líf, eins konar kærleiks eldur, sem þú vildir þá þegar að væri kviknaður og farinn að loga í hjarta sjerhvers manns. Það er þessi eldur, sem drottinn vor vill að nái að tendrast, það er að skilja, sönn kristileg elska til guðs og náunga vors, svo að menn geti sjeð neista hans og geisla, já, að þeir nái að skína og

lýsa svo fyrir heiminum, að vor himneski faðir verði vegsamaður. Því hann kom sjálfur með þennan eld frá himnum niður á jörðina, og þegar vjer látum hann loga í hjörtum vorum, þá sýnum vjer að vjer erum lærisveinar hans. Og þar sem þessi ástareldur sjest ekki, nje logar í lífi mannsins og líferni, þá er það viss vottur þess, að þar vantar hinn andlega il, já, að sálin er dauð, fyrst að heilagur andi verkar ekki í henni. En hvernig eigum vjer þá að elska náunga vorn? hvílík á sú elska að vera, sem vjer auðsýnum honum? Nægir það ekki, að vjer unnum honum alls góðs af öllu voru hjarta og hugskoti? Að vísu er það líka rjett og guði þóknanlegt, að vjer elskum á þennan hátt með huga vorum og hjarta; það er sjálfsagt að vjer eigum einnig með því móti að auðsýna elsku vora til náungans, en þó nægir sú elska í engan máta; elskan á að koma fram allt öðru vísi en í orðum og á vörunum, hún á að sýna sig í sannleika og í verkunum, og færa sönnur á það fyrir heiminum og mönnum, að hún sje einlæg og alvarleg, en ekki full flærðog hræsni; þessi hin kristilega elska er ávöxtur heilags anda, sem verkar í hjarta þess manns, er óttast guð; og talar Jóhannes postuli um hana, þar sem hann segir: börn mín! látum oss ekki elska með orði og tungu, heldur með verki og sannleika (Jóh. 3). Almátt-

ugi guð, faðir vors drottins Jesú Krists, þú sem sjálfur ert kærleiki og friðarins elskari, úthelltu í hjörtu vor krapti þíns heilaga anda, svo að vjer elskum hvor annan af hjarta! Rektu burt frá oss hatur og illgirni, úlfbúð og ósamlyndi, og gjörðu hjörtu vor að þínu heilögu musteri og stöðugum bústað, þú kærleikans og friðarins höfðingi, svo að vjer getum lifað hvor með öðrum kyrrlátu og rósömu líferni í guðsótta og dyggð, og fáum á síðan eptir þetta tímanlega líf að njóta hjá þjer í eilífðinni ævarandi og eilífs friðar ásamt með öllum þínum útvöldu börnum!

## 60. Guðs börn viðurkenna fagnaðarboðskap Jesú Krists með djörfung og gleði.

Páll postuli segir, að með hjartanu verði trúað til rjettlætis, en með munninum viðurkennt til hjálpræðis (Rómv. 10, 10). Það hjarta sem trúir, og sá munnur sem viðurkennir, getur ekki annað en verið guði þóknanlegur. Hjartað hlýtur að ganga á undan tungunni, og trúin á undan játningunni. Sje nú trúin fyrir í hjarta mínu, því skyldi jeg þá ekki hafa í mjer djörfung til að lýsa því með munninum? Eða skyldi jeg eiga að blyggðast mín fyrir viðurkenningu drottins míns? Gjörði ekki drottinn minn góða játningu frammi fyrir Pilatusi? (1 Tím. 6, 13) og

jeg skyldi þó tregðast við að gjöra góða játningu fyrir honum! Sáluhjálpari vor Jesús Kristur, sá hinn trúfasti og sannsöguli vottur, er til þess fæddur og í heiminn kominn, að hann skyldi bera vitni um sannleikann; því skyldum vjer þá ekki, sem sjálfir höfum aðhyllzt sannleikann, vilja tala það sem vjer vitum, og vitna það sem vjer höfum heyrt, þó að þeir kunni að vera til, sem ekki vilji meðtaka vitnisburð voru? Davíð segist vilja skýra bræðrum sínum frá nafni guðs; Pjetur vill vitna fyrir gjörvöllum heiminum, að Kristur sje sonur lifanda guðs; Páll blyggðast sín ekki fyrir fagnaðarboðskap Jesú Krists; Timotheusi er talið það til gildis, að hann hafi gjört góða játningu frammi fyrir mörgum vottum; margar þúsundir píslarvotta hafa viðurkennt Jesúm, og borið vitni um hans dýrmæta sannleiks orð; því skyldi mjer þá farast miður en þeim? Skyldi jeg ekki eiga að sýna þess merki, að jeg sje sannarlegt guðs barn, með því að jeg með heilagri játningu viðurkenni djarflega dýrð föður míns? Þar sem er fyrir elskan til Krists, þar þvingar hún manninn, neyðir út af honum opinbera játningu um Krist og sannleiksorð hans, svo að hann megnar allt fyrir sannleikann, en ekkert á móti honum. Getur þú annars látið þjer hugsast það, maður! að guð og Kristur vilji hirða um heiður þinn og velfarnan, ef þú ekki svo mik-

ið sem reynir til að efla dýrð hans á jörðunni meðal meðbræðra þinna? Það hljóðar svo vitnisburðurinn um þig, kristinn maður! að þú sjert lýður guðs, erfðahluti hans, að þú sjert brúður Krists, líkami hans, að Kristur sje þinn drottinn, þinn meistari, þitt höfuð; og allt þetta er um þig sagt þjer til vegs og virðingar; skyldir þú þá mega þegja, þar sem ekki er skeytt um dýrð drottins, þar sem nafn hans er fyrirlitið? Skyldi jeg af ótta fyrir mönnum, eða til að ávinna mjer heiður og virðingu af heiminum, ekki vilja viðurkenna drottinn minn og meistara? Nei, drottinn minn og guð minn! sál mín brennur af heilagri vandlætingu fyrir þinni dýrð; þess vegna vil jeg ekki, þess vegna get jeg ekki látið vera að tala um þig; jeg skal einlæglega án hræsni, djarflega án ótta og blyggðunar, staðfastlega án allra brigða, með öruggum trúaranda viðurkenna nafn þitt og sannleika. Jeg skal prýða játningu míns munns með guðrækilegu líferni, og leita svo þinnar dýrðar hjer á jörðunni, að jeg á síðan fái að verða dýrðlegur hjá þjer í eilífri sælu.

## 61. Sigur guðs barna yfir heiminum.

Er ekki skírn þín, kristinn maður, sá hinn heilagi sáttmáli þinnar endurfæðingar, að þú skulir berjast við heiminn og sigra hann, er hún ekki eins konar skuldbinding fyrir þig til að

berjast undir merkjum Krists? Þú ert skírður í nafni Krists, og hefur með trúnni íklæðst honum eins og hreinum skrúða; með því hefur þú skuldbundið þig til að snara burt blettum syndarinnar og hjegómleikans; því þeir, sem eru skírðir, eiga að lifa í Kristi og þjóna honum, en vera dauðir heiminum og frábitnir allri þjónustu við hann. Og þú færð aðstoð til þess hjá drottni, í hvert sinn sem þú í kvöldmáltíðarsakramentinu meðtekur líkama Krists, og svo opt sem þú uppörfast þar til að hafna veraldlegum og holdlegum girndum, og útrýma þeim úr sálu þinni. Er það þá tilhlýðilegt fyrir þig að leggja árar í bát, og gefast upp í baráttunni, þar sem þú þó sjerð, að Jesús, þinn sáluhjálpar höfundur, hefur svo að segja sigrað heiminn á krossinum? Þú þykist þó vera trúaður. Svo ertu þá líka hluttakandi í guðlegu eðli og berð mynd guðs; og þess vegna máttu ekki hugsa til þess, að ætla þjer að bera mynd heimsins. Hvers vegna fram seldi Kristur sig í dauða? Gjörði hann það ekki vegna synda vorra, til þess að hann gæti frelsað oss frá þessari vondu veröld? Af því vjer erum trúaðir, þá erum vjer ættingjar guðs; og fyrst vjer erum það, þá megum vjer ekki samlaga oss börnum heimsins. Vík þú þess vegna burt frá oss, veröld! með öllum þínum ginningum, öllum þínum tálsnörum. Sá sem er trúaður

megnar að lifa Kristi, og deyja veröldinni! Eða vantreystir þú því, kristinn maður! að þú munir hafa í þjer mátt og styrkleika, til að geta veitt mótstöðu svo voldugum óvin, þú sem með trú þinni hlýtur að hafa sigrað heiminn? Þó að barátta þín vari alla þína æfi, og þó þú eigir að berjast við heiminn fram í andlátið, þá er þjer þó sigurinn vís, sá er þú hefur fengið fyrir trúna. Færðu þjer þann sigur í nyt, og óttastu ekki þær árásir, sem veröldin veitir þjer. Ef þú hrasar, þá stattu óðar á fætur aptur með innilegri og hjartanlegri iðrun; því algjört apturhvarf frá syndinni til guðs er hinn eini óyggjandi vottur um sigursæla trú. Gjörðu bæn þína til guðs og segðu: veit mjer, guð minn góður! að jeg fyrir náð þína og aðstoð falli ekki nje bregðist í þessari minni baráttu, að jeg með hugrekki geti gengið á móti óvin mínum, að jeg ekki sjálfur gefist upp fyrir honum, heldur geti ávallt sigrað hann, og loksins höndlað kórónu sigursins, sem geymd er þeim öllum, er berjast fyrir rjettlætið!

## 62. Trúnaðartraust guðs barna á drottni.

Vjer köllum guð vorn Immanuel, það þýðir: guð er með oss; því vjer vitum að guð vor himneski faðir, og sonur hans Jesús Kristur, sem seldi sig í dauða fyrir syndir vorar, er hann vildi frelsa oss frá hinni vondu veröld, og hugg-

arinn, heilagur andi, eru ekki iðjulausir, því þeir styrkja oss og hugga og leiðbeina til sáluhjálpar; já, eins og gullsmiður hreinsar gullið frá soranum, eins er vor miskunarríki faðir á himnum, vor trúfasti frelsari, vor sanni huggari, heilagur andi, ætíð nálægur, eins og hann hefur lofað í orði sínu, og ber nákvæma umhyggju fyrir því, að eldur mótlætinganna og eymd heimsins skuli ekki granda sálu vorri og sáluhjálp, því svo segir Davíð: sjá, augu drottins vaka yfir þeim, sem óttast hann og vona á hans miskunsemi, að hann frelsi sálu þeirra frá dauðanum, og viðhaldi lífi þeirra í báginda tíð. Og þó hann fresti hjálpinni lengi, og sýnist hvergi nálægur á tíma neyðarinnar, þá er það engan veginn af því að hann sje búinn að yfirgefa oss, því hann hefur engan annan tilgang með krossinum, en að vjer deyðum í oss hinn gamla Adam, snúum oss til guðs af öllu hjarta með trúnaðartrausti og tárum, með andvörpum og kveini, og verðum vottar miskunsemi hans, er hann hefur útvalið sjer til dýrðar, til að birta á dásemd sína. Þó að hann þess vegna fresti hjálpinni, þá skulum vjer samt, eins og spámaðurinn ræður til, bíða eptir honum, því einhvern tíma skal þó fyrirheitið koma fram og fyllilega rætast. Jeg veit að minn himneski faðir, sem hefur skapað mig og alið önn fyrir mjer, og frelsari minn Jesús Krist-

ur, og huggari minn, heilagur andi, er nálægur mjer eins og hann hefur lofað. En sje guð með mjer, hver getur þá verið á móti mjer? Hann sem ekki þyrmdi sínum eigin syni, heldur seldi hann í dauða fyrir oss alla, því skyldi hann ekki gefa oss alla hluti með honum? Því skyldi hann ekki efla og varðveita mína veiku trú og sáluhjálp, jafnvel þó djöfullinn, heimurinn og allar hörmungar æði og geysi á móti mjer? Nei, þó jeg gangi um hinn dimma dauðans dal, þá skal jeg ekki hræðast að heldur, því þú, drottinn! ert hjá mjer, þinn vöndur og stafur hugga mig. Þegar jeg hef þig að eins, þá hirði jeg hvorki um himin nje jörð. Drottinn er minn hjálpari, hvað geta mennirnir gjört mjer? Hver vill ásaka guðs útvalda? Guð er með oss, sá er rjettlætir. Hver vill fordæma? Kristur er með oss, sem dó fyrir oss, meðan vjer vorum óvinir hans; því heldur skulum vjer þá verða hólpnir fyrir upprisu hans frá dauðum, þar vjer nú erum teknir í sátt. Drottinn er með oss, þess vegna óttumst vjer ekki!

## 63. Hið æðra líf.

Öllum þeim, sem leita sjer fullnægju og fagnaðar og friðar í einhverju, þar sem það er ekki að finna, öllum þeim, sem hafa verið fráhverfir lífinu í guði, og hafa lifað eptir þeirra holdlega hugarfari í saurugum girndum og löstum, öllum

þvílíkum býður Jesús að koma til grafar sinnar, þar er hann reis upp frá dauðum, og hann brýnir þar daglega fyrir þeim, eins og hann gjörði forðum daga: jeg er upprisan og lífið; vaknið líka allir þjer sem sofið, og látið af syndunum; rísið upp frá dauðum, frá dauðanum í þrældómi ágirndarinnar, hjegómagirninnar, munaðarlífsins, syndanna og lastanna, og elskið guð af öllu yðar hjarta“; því í elskunni, sem hlýðnin, traustið og undirgefnin er samfara, er fólgið hið sanna, hið æðra líf; og það líf er rótin til eilífs lífs, því elskan varir eilíflega. Hjer á jörðu getur hún ekki þróast nema með mikilli baráttu, því þegar góðar og guðrækilegar tilfinningar vilja koma í ljós út frá því hjarta, sem elskar drottinn sinn skapara, þá kemur óðar á móti þeim kuldi veraldarinnar, sem viðbúinn er að slökkva ástaril hjartans; það er svo margt sem freistar, en krapturinn, sem á að sigra freistinguna, er opt veikur; og þó hið guðelskandi hjarta lypti sjer í trú og trausti upp til himins, þá hefur veröldin ótal bönd til að draga það aptur til jarðar. Þess vegna andvarpar hjartað opt og einatt yfir því, hvað elskan til guðs er fjörlaus og dauf, og það þráir að losast úr þessu ástandi veikleikans og dauðleikans; það horfir með fögnuði fram á hina síðustu umbreytingu, þá er hinn ódauðlegi andi fær að losast úr fangelsi sínu, og getur flogið

laus og liðugur til þeirra bústaða, þar sem engar freistingar eru framar til, þar er elskan náir að vera hrein, staðföst og brennandi. Já, drottinn vor og frelsari! þú lifir og vjer skulum lifa. Og það líf, sem þú heitir oss, byrjar ekki þá fyrst, þegar hin jarðneska tjaldbúð hrynur, andinn er laus úr hýði sínu og hefur þegið dýrðleg umskipti, vegsamlegri og æðri tilveru; nei, þegar hjer í þessu landi dauðlegleikans getur líf þetta byrjað, eiga öfl þessa lífs að gjöra vart við sig í hjörtum vorum, eigum vjer að smakka unaðsemdir eilífs lífs. Þess vegna býður þú, upprisni frelsari! öllum oss, sem þú hefur endurfætt til lifandi vonar, að koma til þinnar opnu grafar, og þú áminnir oss að stunda eptir þeim hlutum, sem eru hjer fyrir ofan, að losa veru vora við allan óhreinleika, við sjerhverja vonda ástríðu, munaðarlífi og ágirnd, því öll þess konar ánauð hefur andlegan dauða í för með sjer, svo að vjer skrýddir ávöxtum rjettlætisins getum fram gengið í hreinleika hjartans hneigslislaust, unz dagur sá ljómar, er þú sjálfur opinberast, og það líf, sem fólgið er með þjer. Já, hvert sinn er trúin á Jesúm eflir mig svo og styrkir, að jeg get hafið mig yfir heimskulegar athafnir, ósæmilegar áhyggjur, girndir og lesti, svo að jeg fyrir aðstoð trúarinnar get staðið af mjer alla freistingu; hvert sinn er trúin á Jesúm innrætir hjarta mínu auðmýkt, og læt-

ur tilfinningarleysi þess og harðúð breytast í blíðlyndi, ástríki, sáttgirni og veglyndi; hvert sinn er trúin á Jesúm sefar órósemi og kvíða í brjósti mínu, og fyllir það staðföstum og himneskum friði, — þá finn jeg forsmekk einhvers æðra. Lofaður veri góður guð, sem lætur mig þegar hjer í lífi höndla hið eilífa líf!

## 64. Syndin hefnir sín sjálf.

Það er hegning syndarans hjer á jörðu, að hann getur aldrei þjónað einni synd út af fyrir sig, heldur eru optast nær fleiri syndir saman. Þegar syndin hefur á annað borð fengið inngöngu hjá manninum, og náð yfirráðum yfir honum, þá fer hún að eins og hinn vondi andi, sem frelsarinn segir að taki með sjer sjö aðra anda sjer verri. Hinn drambsami er sjaldan eingöngu dramblátur og metorðagjarn, heldur fylgir drambseminni líka öfund og hefndargirni; hinn svikula og undirförula skortir auk hreinskilni hjartans elsku til sannleikans; hann lofar og lastar, lýgur og rægir rjett eins og hann álítur best henta, til að koma fram ásetningi sínum. Hinn ágjarni er opt ómiskunsamur, óráðvandur og órjettvís, til þess hann geti því betur fullnægt fjegirnd sinni. Hversu margar syndir kvikna ekki hjá hinum sællífa, þegar hann sökkur sjer niður í óhóf og iðjuleysi, leitast við að seðja allar sínar óhreinu girndir,

og vill heldur þjóna munaðinum, en guði sínum? Gættu þess, maður! að syndin yfir höfuð að tala, að hver ein drottnandi synd, sjerhver löstur út af fyrir sig, fæðir fljótt af sjer fleiri lesti, fleiri syndir. Hvílíka umhyggju ætti það þá ekki að vekja hjá þjer, til að brynja þig út á móti sjerhverjum lesti, svo að þú eigi, með því að hrapa í einn, hrapir í fleiri, og bætir synd á synd ofan!

Víst er um það að syndin bakar manninum reiði guðs, og ef hann heldur áfram í henni, þá eilífa hegningu. En syndarinn líður líka þessa hegningu að nokkru leyti hjer í lífi. Summum löstum er svo varið, að þeir hefna sín sjálfir á eðlilegan hátt, og sýna það bezt þau harmkvæli, sem þeir menn eru undirorpnir, er þjóna slíkum löstum. Þannig hefnir sín sjerhver löstur með þeirri beisku og sáru afleiðingu, að allir leggja á hann fyrirlitningu, og enginn getur vorkennt hann. Jafnvel hinir lastafullu sjálfir hafa andstyggð á löstunum hjá öllum öðrum, og fyrirlíta sjerhvern, sem er þræll þeirra. Þeir sem með syndum sínum steypa sjer í eymd og volæði, hafa því ekki þá huggun, að aðrir kenni í brjósti um þá, heldur er þetta næstum æfinlega viðkvæðið við þá: það er sjálfum þeim að kenna, þeim er það rjett maklegt! Og þegar þeir barma sjer yfir bágindum sínum, er þeim vísað á bug með sama svari og Júdasi: hvað varðar oss um

það, sjá þú sjálfur þar fyrir! Ó, hve þung og særandi er sú hegning fyrir syndarann hjer á jörðu, að vita það, að enginn vill aumkva hann í bágindum hans! Og skyldu þessar hryggilegu afleiðingar ekki eiga að vera til þess, að setja oss glögglega fyrir sjónir viðbjóð syndanna, og sannfæra oss um sannleika þess, sem Páll segir, að ávextir syndarinnar sjeu þvílíkir, að vjer höfum orsök til að blyggðast vor, og að afdrif þeirra sje dauðinn. Æ, að syndugir menn, þeir er þjást undir byrði synda sinna, vildu sem fljótast hverfa frá þeim, og ekki loka fyrir sjálfum sjer náðardyrunum, sem enn þá standa opnar, heldur þar á móti leita náðar guðs, meðan hana er að finna! Æ, að þeir, sem hafa þegar snúizt frá myrkrinu til ljóssins, og hafa frá satans valdi gengið á guðs vald, æ, að þeir ljeti sjer aldrei gleymast að þakka guði fyrir það, aldrei gleymast, að vera ávallt árvakrir yfir sjálfum sjer, og efla sáluhjálp sína með ótta og andvara, að lifa ætíð honum, sem endurleysti þá með dauða sínum, svo að þeir líka geti dáið honum, og bæði í lífi og dauða verið hans eign!

## 65. Afsakanir manna.

Dirfist ekki syndarinn opt að segja, eins og Pilatus, þvert á móti samvizku sinni og sannfæringu: „jeg er saklaus maður“, þegar hann

hefur *látið aðra koma sjer til* að fremja hið illa, með því þeir hafa haft hann eins og verkfæri, til að framkvæma þeirra vondu áform, jafnvel þó guð hafi gefið honum skynsemi og frjálsræði, til að hafna hinu illa og útvelja hið góða, og það þess vegna er ábyrgðarhluti sjálfs hans, ef hann misbrúkar þessar gáfur. Heyrast ekki opt og tíðum enn í dag þessi orð: „saklaus er jeg“, af munni þeirra manna, sem afsaka brot sín á skyldunum, með því þeir þykjast hafa verið neyddir til þeirra, vegna kringumstæðanna og vissra atvika, sem fyrir þá komu? — Stundum ertu hræddur um, ef þú uppfyllir skyldur þínar, að þú munir gjöra þig óvinsælan af heiminum, og baka þjer óvild hinna voldugu; og þú hefðir, ef til vill, mikið tjón af því. Hversu fljótur ertu þá ekki til að kasta skuldinni fyrir þær yfirsjónir, sem þú drýgir, upp á aldarháttinn, sem ræður svo miklu, upp á þann vanda, sem þú varst staddur í, þar sem þó hinu spillta hjartalagi sjálfs þíns er mest um það að kenna! Er það ekki opt viðkvæðið enn, eins og hjá Pílatusi: „jeg er saklaus“, þegar menn leita allra bragða til að fegra lestina, svo að hvorki sjálfur maður, nje aðrir skuli sjá viðbjóð þeirra? Hinn ágjarni vill ekki heyra það, að hann sje ágjarn; það er ekki annað en skynsamleg sparsemi, hyggileg forsjálni, sem hann þykist iðka. Hinn drambláti álítur dramblæti

sitt ekkert annað, en heiðvirða sómatilfinningu; eyðslumaðurinn útbruðlun sína hrósvert örlæti; sælkerinn bílífi sitt leyfilega skemmtun; hinn harðhjartaði og tilfinningarlausi þykist rjettlátur í sjálfs síns augum; hinn óhreinlyndi hygginn og gætinn! Æ, hversu mikið þykir jafnvel hinum dyggðuga og sannkristna manni fyrir því að játa yfirsjónir sínar; hversu fljótur er hann ekki til að bera í bætifláka fyrir sig; hversu hlífist hann ekki við að taka hart á þeim brestum, sem hann drýgir! Þetta táldræga óhreinlyndi við sjálfan sig þekkti Davíð, svo einlægur sem hann þó var í því að viðurkenna afbrot sín og játa synd sína. Hann var svo hræddur við það, að hann trúði ekki sjálfum sjer, og þess vegna biður hann: drottinn, hver getur þekkt villu sína? hreinsaðu mig af mínum heimuglegu brestum! Ættir þú ekki, sem þykist vera sannkristinn, að gjöra þessa Davíðs bæn að þinni bæn? Ættir þú ekki að varast að hamla betrun þinni, með því að leyna yfirsjónum þínum, með því að afsaka þær og gjöra lítið úr þeim! Ættir þú ekki heldur að flýta betrun þinni, með því að ransaka einlæglega yfirsjónir þínar og játa þær hreinlega! Eða nægir það, að þú með orðunum einum vottir sakleysi þitt, að þú þvoir höndur þínar í augum heimsins, án þess þú leggir stund á að hafa hreina og óskerta samvizku fyrir guði og mönnum, og

votta trú þína í öllu þínu framferði? Það er sá rjetti handa þvottur, sá hreinleiki og skírlífi hjartnanna, sem Jakob postuli talar um, þegar hann segir: hreinsið höndur yðar, þjer syndarar, og gjörið flekklaus hjörtu yðar, þjer tvílyndu! (Jak. 4, 8).

## 66. Breiskleiki og styrkleiki kristins manns.

Hversu opt hlýtur ekki sannkristinn maður að angrast af því, hvað skilningarvitin hafa mikið vald yfir sálu hans! Hann veit að hann á fyrst og fremst að leita guðs ríkis og hans rjettlætis, og hann lætur sjer líka í raun og veru annt um að gjöra það. Eigi að síður er þó hugur hans opt svo hlaðinn jarðneskum sorgum og áhyggjum, að það hamlar honum frá að efla sáluhjálp sína með tilhlýðilegù kappi. Vjer vitum að kristindómurinn leyfir oss að njóta unaðsemda lífsins á saklausan og hóflegan hátt; en njótum vjer þeirra þá ætíð á eins saklausan og leyfilegan hátt, eins og vera ætti? Aldur vor, staða, embætti og aðrar kringumstæður í lífinu gjöra oss opt að skyldu, að taka meiri hlutdeild í unaðsemdum heimsins, en aðrir; en hvað fegnir sem vjer viljum hlýða þeirri áminningu Páls, að brúka svo heiminn að vjer ekki misbrúkum hann, getum vjer þá samt ætíð hrósað oss af því, að vjer höfum brúkað hann, eins og vera bar? Vitnar samvizka vor það með

oss, að vjer mitt í syndugri veröldu þó ætíð geymum oss óflekkaða af veröldunni, að vjer komumst með öllu hreinir og saklausir úr þeim samkvæmum, sem vjer á stundum erum neyddir til að vera í? Nei, svo framarlega sem vjer ekki viljum hræsna fyrir sjálfum oss, mun hjarta vort öllu framar bera oss það á brýn, að andinn hafi verið reiðubúinn, en holdið veikt. Já, líf sannkristins manns í veröldu þessari líður fram í sífeldri baráttu við breiskleika og bresti. Á hverju augnabliki finnum vjer til vanmáttar vors, og sannfærumst um, eins og Páll segir, að í oss, það er: í voru holdi býr ekkert gott, að viljann til hins góða höfum vjer að sönnu, en ekki kraptinn til að framkvæma það. En eigum vjer að láta hugfallast fyrir það? Vjer hefðum þá illa tileinkað oss friðþægingu Jesú, og hefðum ekki mikið samfjelag við frelsara vorn í dýrðinni, því einmitt með hans fulltyngi eigum vjer þó að megna alla hluti (Fil. 4, 13). Fyrir þá fullgyldu friðþægingu, sem hann afrekaði oss til handa, og fyrir það að vjer erum limir á þeim líkama, þar sem hann er sjálfur höfuðið, þá öðlumst vjer djörfung og styrkleika; því þetta einmitt fullvissar oss um, að vjer þrátt fyrir allan vorn breiskleika sjeum þó í vinfengi við hann; og fyrir það öðlumst vjer styrk til að berjast við breiskleika vorn. Vakið og biðjið, er ráðið sem hann kenndi oss til

þess; því einungis fyrir náð guðs getum vjer orðið hæfir til að gjöra það sem gott er; og því betur sem vjer finnum sjálfir til breiskleika vors, og því framar sem vanmáttur vor og breiskleiki knýr oss til bænarinnar, þess styrkari verðum vjer til að sigra allan vorn breiskleika fyrir mátt hans, sem í oss verkar. Drottinn Jesús, þú sem sjálfur hefur skipað oss að biðja, þú ert líka sá sem einn getur gefið oss styrkleika og náð til þess! Láttu náðargeisla frá Gethsemane, þar er þú hlauzt að líða svo mikið vegna vor, náðargeisla frá himnum, þangað sem þú fórst að tilbúa oss stað, láttu hann skína inn í hjörtu vor! Og þegar vjer ætlum að sofna út af í syndinni, æ, þá vektu oss með náð þinni, svo að vjer ekki deyjum út af í henni, og vöknum á síðan um seinan í eilífðinni. Þegar vjer treystum upp á sjálfa oss, og þykjumst af eigin ramleik fullstyrkvir til að gjöra það sem gott er, æ, þá auðmýktu oss, kenndu oss að þekkja vanmátt vorn, og að leita styrkleikans hjá þjer. Já, gjörðu oss sjálfur stöðuga í árvekni og bæn, svo að vjer getum álitizt verðugir til að umflýja þá hluti, sem verða munu, og til að standast á síðan fyrir þjer og eigi verða til smánar, þegar þú kemur!

## 67. Játning trúarinnar með djörfung.

Hafðu þjer það hugfast, guðs barn! sem Jesús

hefur sagt: „hver sem meðkennir mig fyrir mönnum, við hann skal jeg líka kannast fyrir föður mínum, sem er á himnum". Segðu þess vegna við sjálfan þig: ó, hve feginn vil jeg, að guð faðir og drottinn Jesús Kristur kannist við mig, þegar jeg ákalla þá í neyð minni. Ó, hversu nauðugur vil jeg, að drottinn Jesús hylji sig fyrir mjer, þegar jeg segi í andlátinu: herra Jesús, meðtak þú minn anda! Æ, hversu aumlega væri jeg ekki staddur, ef Kristur skyldi segja við mig á dómsdegi, þegar jeg mæti fyrir dómstóli hans: jeg þekki þig ekki! Þess vegna vil jeg viðurkenna herrann Krist fyrir gjörvöllum heiminum; jeg vil að sönnu nauðugur missa af þeim gæðum, sem jeg á kost á í heiminum, en því síður vil jeg þó fara á mis við náð guðs. Mjer er nauðugt að missa þetta líf, en þó er mjer nauðugra að missa eilíft líf; þess vegna vil jeg halda mjer fast við Krist og lærdóm hans, aðhyllast hann og ekki af honum sleppa í lífi nje dauða. Jeg vil hlýða þessari áminningu guðs míns hjá Pjetri postula: verið ætíð reiðubúnir að gjöra hverjum, sem krefst þess, grein fyrir trú yðar (1 Pjet. 3, 15); jeg vil minnast áminningar Páls til Timotheusar: berstu trúarinnar góðu baráttu, handsama eilíft líf, þar til ertu kallaður, og þar að vannstu góða játningu í nærveru margra votta (1 Tim. 6, 12); jeg vil ekki láta mjer úr minni líða það sem

guð minn hefur kennt mjer hjá þjóni sínum Jóhannesi: vertu trúr til dauðans, þá skal jeg gefa þjer lífsins kórónu (Opinb. 1, 10); og þannig vil jeg vakinn og sofinn brýna fyrir sjálfum mjer áminningu drottins míns, að meðkenna hann fyrir mönnum. Það er einkenni hinna sönnu guðs barna, að þau segja í hverri sorg og harmi og hættu, sem fyrir þau kemur: drottinn Jesús, hvernig getum vjer yfirgefið þig? Þú ert ritaður með guðs fingri á hjörtu vor; elskan til þín er svo djúpt innrætt sálu vorri, að hvorki líf nje dauði getur afmáð hana úr henni. Og hvert ættum vjer að fara, ef vjer skyldum yfirgefa þig? Ertu ekki faðir vor og verndari? Ertu ekki huggun vor og athvarf? Ertu ekki sá sem heldur þeirri tryggð við oss, að enginn hlutur fær slitið oss úr þínum höndum? Ertu ekki sá sem gefur oss eilíft líf? Vjer viljum vinna til að missa allt, til þess að geta haldið þjer, því hver sem hefur þig, hefur alla hluti með þjer. Hvað gæti það stoðað mig, þó jeg megnaði að vinna gjörvallan heiminn, ef jeg skyldi líða tjón á sálu minni? Hvaða ávinningur væri það fyrir mig að líta þetta tímanlega líf, ef jeg skyldi glata hinu eilífa? Hvað gæti það stoðað mig, þó jeg hjeldi föður, móður, systur og bróður, ef jeg missti fyrir það guð föður og guð son og guð heilagan anda? Jeg segi því eins og Páll: jeg met alla hluti

tjón og smán í samanburði við það ágæti, að þekkja drottinn minn Jesúm Krist.

## 68. Hálfvelgja manna í að þekkjast kristindóminn.

Hvað er það sem gjörir eðli vort svo ágætt, og upphefur anda vorn yfir duptið, sem hann er íklæddur? Eru það ekki sannindi trúarinnar, sem innræta oss fegurstu og ágætustu hugmyndir um skaparann, sköpunarverkið og tilgang allra skapaðra hluta? Hvað er það sem á að leiðbeina oss í gegnum allar þær freistingar, sem vilja svo ákaft niðurbrjóta dyggð vora og ráðvendni, og hjálpa oss til að komast að því takmarki, sem oss er fyrirsett? Er það ekki trúin vor og hennar sannindi? Hvað er það sem á að hugga oss í þrautum og þjáningum, gjöra oss rósama og ánægða með hið nálæga, og útbúa oss með hug og styrk til að taka á móti hinu ókomna? Er það ekki trúin vor og hennar sannindi? Og einmitt í þeim efnum skyldum vjer vera svo hirðulausir og hálfvolgir, þar sem vjer helzt ættum að vera glóandi í anda af heilagri vandlætingu og fjöri! Hvernig má slíku rænuleysi bót mæla! Með því óvirðum vjer og smánum vjer sjálfa oss, já, gjörum honum einnig smán, sem er höfundur trúar vorrar, honum, sem með lærdómi sín-

um leiddi í ljós líf og ódauðlegleika. Þegar vjer erum hálfvolgir í trúarefnum, hvort sem þekking vor á þeim er mikil eða lítil, erum svo skeytingarlausir um að veita viðtökur sannleikanum, sem oss er kenndur, hvað stoða þá allar hinar dásamlegu ráðstafanir, sem speki og gæzka drottins hefur látið gjöra honum til útbreiðslu? hvað kraptaverkin, sem hann staðfesti sannleikann með? hvað spádómarnir, sem sönnuðu kraptaverkin fyrir seinni öldum? hvað sálargáfurnar, sem hann útbjó kennendur lærdómsins með? Skyldu allar þessar guðdómlegu ráðstafanir ekki eiga að hafa neinn annan tilgang, en að strá í sálu kristins manns fáeinum lauslegum hugsunum á 'stangli, reglulaust og ósamanhangandi, sem gjörir hann, ef til vill, lítið betri en heiðingjann! Ó, Jesú heilögu píslarvottar, þjer sannleikans áköfu hetjur, átti *þetta* að vera allur árangurinn af yðar mörgu erfiðu ferðalögum, yðar mörgu blóðugu ofsóknum, af öllum þeim mannhættum, sem þjer voruð staddir í! Æ, ef þjer í anda hefðuð getað horft inn í myrkur ókominna alda, ef þjer hefðuð getað virt fyrir yður kristna menn á vorri öld, og sjeð tregðu þeirra og hálfvelgju í að veita móttöku, og tileinka sjer fyrirhafnarlaust þann lærdóm, sem yður kostaði svo mikið að útbreiða, skyldi þá sú sjón ekki hafa verið yður hryllilegri, en hlekkirnir, sem þjer voruð

bundnir með, og bálin, er þjer voruð brenndir á? Já, að vera skeytingarlaus um framför sín í þekkingu trúarinnar, það er að ónýta allar tilraunir drottins til að útbreiða og gróðursetja sannleikann, það er að fyrirlíta sannleikann sjálfan og kennara hans. Hjer á það rjett við: hver sem ekki er með mjer, hann er á móti mjer!

## 69. Gjörið allt guði til dýrðar.

Hvort heldur þjer etið eða drekkið, eða hvað helzt þjer gjörið, þá gjörið það allt guði til dýrðar, segir heilög ritning (1 Kor. 10, 13). Það er skylda hvers kristins manns að hlýða þessari reglu postulans, að byrja sjerhvern dag með guði, verja deginum guði til dýrðar, og loksins enda daginn með guði. Það á að vera orðtak og viðkvæði kristinna manna: guði einum dýrðin og engum öðrum! Þess vegna skorar Davíð á allar skepnur, bæði hinar skynsemi gæddu og hinar skynlausu, að vegsama guð, og hann endar sálmasafn sitt með þessu íhugunarverða snillyrði: allt sem andardrátt hefur, lofi drottinn (Sálm. 150, 6)! Já, til þess erum vjer líka skapaðir af guði, til þess endurleystir af syni hans Jesú Kristi, og til þess helgaðir til eilífs lífs af heilögum anda. En hvað er það þá að leita guðs dýrðar í öllum hlutum? Það er, kristinn maður! fólgið í því einu að

elska guð, sem er æðst gæði á himni og á jörðu, svo innilega, að maður ekki elski nokkurn hlut eins og hann, sem einn er æðstur og algóður; sjerhvað annað sem gott er, hefur öll sín gæði og góðleik af honum einum, sem er allra beztur, og hefur þegið af honum allan sinn krapt og allt sitt ágæti. Þannig áttu að byrja daginn vel, og búa vel í haginn fyrir þig á honum. Það sje fyrst og fremst iðja þín að byrja daginn með guði, með bæn og ákalli. Undir eins og þú vaknar á morgnana, skaltu fela þig guði á vald, og biðja hann að stjórna öllum þínum orðum og athöfnum honum til dýrðar. Drottinn lætur náð sína vera nýja og ferska á hverjum morgni (Harmagr. Jer. 3, 22); láttú þess vegna þakklæti þitt og lofgjörð líka vera nýja á hverjum morgni. Það sje mark og mið allra þinna athafna, hugrenninga, orða og verka, að leita í öllu og um fram allt guðs dýrðar. Maðurinn má aldrei vera svo innlífaður sjálfum sjer, að hann ekki hugsi um neitt annað fremur, en sinn eigin hag; láttu líf þitt stjórnast af þeirri hinni háleitustu allra hugsana, sem er, að þú leitist við með kostgæfni að vinna verk drottins. Því næst skaltu líka á hverjum degi biðja guð um eilífa sáluhjálp, og segðu: tilkomi þitt ríki! því þá fyrst eflist og útbreiðist dýrð drottins.

Þú skalt á hverjum degi rækilega íhuga

velgjörninga guðs, sem hann hefur auðsýnt þjer og meðbræðrum þínum, og allt eins líka dóma guðs, sem komið hafa fram bæði á sjálfum þjer og öðrum; því af öðru þessu getur þú lært að þekkja gæzku guðs og óverðugleika sjálfs þíns, en af hinu rjettlæti guðs og hegningu syndarinnar. Fyrir alla þá miskun og trúfesti, sem guð hefur auðsýnt þjer með sköpuninni, fyrir forsjón sína, er hann viðheldur og stjórnar öllum hlutum, fyrir hina blessunarríku endurlausn, sem Kristur afrekaði, heimtar hann ekki annað af oss, en að vjer höldum boðorð hans, iðkum kærleikann og sjeum auðmjúkir fyrir guði. Þú skalt samt ekki gleyma því að þakka honum með orðunum; því sjerhver dagur veitir þjer nægtilefni til að þakka guði, og minnast þess, að þú átt að lifa honum til lofs og dýrðar.

## 70. Íklæðist drottni Jesú Kristi.

Eins og fæða líkamans samlagar sig holdi og blóði mannsins, og gengur út í hvern legg og lið, eins á Kristur og orð hans að ganga frá eyranu til hjartans, frá hjartanu til munnsins og handarinnar, svo oss verði það að annari náttúru, svo það verði sálin í öllum vorum hugrenningum, orðum og athöfnum. Þetta kallar postulinn: að íklæðast drottni Jesú Kristi. Allra fyrst íklæddist þú drottni, þegar þú varst *skírður;* þú gekkst honum þá til handa, þú lofaðir að

afneita heiminum og aðhyllast guð. En margir hafa á þennan hátt íklæðst Kristi, og afklæðst honum aptur, því hversu margir hafa ekki rofið skírnarheit sitt, og upp frá því aldrei verið guði trúir! Þú íklæðist Kristi, þegar guð *kallar þig* og *helgar,* það er: þegar þú leggur niður gamla manninn, sem er spilltur af fýsn holdsins, dramblátu líferni og áhyggju fyrir þessu lífi, og þú íklæðist nýja manninum, sem er endurfæddur í rjettlæti og heilagleika eptir mynd Krists, eins og Adam var, meðan hann var í sakleysi sínu; því að íklæðast hinum nýja manni, er að fæðast að nýju fyrir heilagan anda. En slík endurfæðing verður ekki fyrir það, þó maðurinn bregði utan á sig yfirskini guðhræðslunnar, og sýnist þá stundina, sem hann er staddur innan um menn, heilagri en allir aðrir, en snarar óðar, en hann er heim kominn, af sjer hjúpnum, og stendur svo aptur uppi í hinum gamla syndaham; hún verður ekki heldur fyrir það, þó maðurinn berji sjer á brjóst, og gjörist niðurlútur, eins og tollheimtumaðurinn í guðspjallinu, meðan hann situr í kirkju og hlýðir á guðs orð; já, jafnvel ekki fyrir það, þó orðið hrífi svo á hann, að hann láti sem hann muni aldrei framar syndga, þegar þó næsta starf, næsta fyrirtæki er nóg til þess að láta hann gleyma aptur öllu. Þetta er ekki heldur postulans meining, því í brjefinu til Koloss. 3, 12. talar hann um hinn rjetta skrúða

kristins manns, þar sem hann segir: íklæðist, eins og guðs útvaldir, heilagir og elskanlegir, hjartgróinni miskunsemi, góðvild, lítillæti, hógværð, langlundargeði, — því þetta er hinn nýji maður í allri sinni dyggð; henni áttu að íklæðast, þangað til þú endurnýjast með öllu eptir mynd Krists. Enn aptur íklæðist þú Kristi, þegar þú *meðtekur hið háleita kvöldmáltíðarsakramenti*, og verður hluttakandi í líkama hans og blóði, og tileinkar þjer með trúnni hlýðni hans og dauða, því þá verður líka Kristur þinn og þú hans, með því hann tekur sjer bústað hjá þjer, og elur þig með náð sinni til eilífs lífs. Þetta er sá hinn heilagi skrúði, sem hver kristinn maður á að íklæðast. En hvar ætlar þú nú að leita að þeim, sem geti hjálpað þjer til að íklæðast honum? Ó, sannarlega er enginn til, sem getur klætt þig í þennan skrúða, nema drottinn Jesús Kristur. Leitaðu hans þá; honum sje dýrð um aldir alda!

## 71. Helgihald sunnudagsins.

Guð er heilagur, því vill hann líka að vjer, svo framarlega sem vjer sjálfir viljum, að hann álíti oss og kannist við oss sem börn sín, að vjer skulum verða heilagir í öllu voru dagfari, og að vjer æfum sjálfa oss öllum stundum í andlegum verkum, og lifum svo óaðfinnanlega fyrir augliti hans, sem oss er unnt eptir þeirri náð-

argáfu, er hann hefur veitt oss. En á hvíldardegi vorum, fyrsta degi vikunnar, sjálfan sunnudaginn eigum vjer sjer í lagi að hverfa frá öllum veraldarstörfum, til þess að þjóna einungis lifanda guði, og gjöra það sem honum er þóknanlegt. Því hvíld vor er ekki fólgin í því, að vjer látum líkamann aflýjast, eins og vinnudýrið, heldur í því að hjörtu vor og hugskot geti hvílzt í guði. Þess vegna áttu einkanlega þennan dag að hafa taum á sjálfum þjer, spekja limi líkamans og engan veginn lifa og láta, eins og þjer sjálfum líkar bezt; heldur, eins og Davíð fagnaði hjartanlega, þegar hann heyrði talað um guðs hús, sem hann hafði meiri mætur á, en nokkrum gersemum úr gulli og silfri, eins áttú líka að fagna í hvert sinn sem sá dagur rennur upp aptur, er þú skalt heyra guðs orð, og æfinlega ásetja þjer að nýju að iðka það vikuna út, sem þú hefur numið í guðs húsi. Þannig brúkar þú hvíldardag drottins rjettilega þjer til undirbúnings í hinu góða, til að auðsýna náunga þínum kærleika, vitja sjúkra, hugga harmþrungna, liðsinna fátækum, láta hungruðum og þyrstum í tje mat og drykk, og fyrirgefa bróður þínum, ef þú hefur eitthvað að kæra hann fyrir, áður en þú fórnar gáfu þinni á altarinu. Það er hin rjetta helgidags hvíld, að hvíla sjálfan sig frá hinum margháttuðu verkum holdsins, og safna með því kröptum til að

vinna góðverk alla hina dagana. Fyrst að guð almáttugur hefur þá sett oss kennara, til að brýna fyrir oss sáluhjálp vora í húsi hans, sem ekki er nú framar, eins og forðum daga, í Jerúsalem einni, heldur í öllum löndum veraldarinnar, þar sem kirkjur eru, sem guð hefur heitið oss gnægð af, já, í hvað litlum söfnuði sem er, sem kemur saman í hans hálofaða nafni, æ, þá látum oss sízt af öllu vanrækja svo mikla guðs náð, heldur söfnumst iðuglega saman í nafni drottins vors Jesú Krists, og göngum í guðs hús, svo vjer lærum að þekkja vegi hans, og getum gengið á þeim oss til betrunar og sáluhjálpar; því þá sjest það fyrst, að guð býr á meðal vor, og vill sjálfur vera í oss og hafa hjá oss sitt heilaga ríki. Því ef vjer viljum, að guði sje annt um að vera hjá oss, og vitja vor með sinni himnesku blessan, þá verðum vjer líka iðuglega að leita að honum í húsi hans, og megum ekki hlaupa með hinum óguðlegu burt frá söfnuðinum, eða frá kirkju vorri. Þess vegna skulum vjer biðja svo á hverjum morgni, þegar hvíldardagurinn rennur upp: ó, guð og himneski faðir, skapari heimsins, sem sjálfur hvíldist og helgaðir hvíldardaginn! ó, Jesús, frelsari heimsins, sem hvíldist í gröfinni og uppreist oss til sáluhjálpar og nýrrar hvíldar! ó, háleiti heilagi andi, sem helgar oss, eins og þegar þú komst yfir postulana á þessum vorum

hvíldardegi! þú heilaga þrenning, sem hefur boðið oss að halda helga þína hvíldardaga, og hefur sett þá, eins og merki milli þín og vor, svo vjer skyldum vita, að þú ert það sem helgar oss, helgaðu oss, góði guð! svo vjer fáum verðuglega íhugað í dag, hvað það er að hvíla og losa sjálfa oss, huga vorn, anda og hjarta við heiminn, svo vjer getum með sannri helgun þjónað þjer þennan dag í heilagleika og rjettlæti, og getum snúið oss til þín, til þess að fá á ný andlega endurnæringu, svo vjer ekki, eins og vikuna sem leið, látum afvega leiðast af vorum syndsamlegu girndum. Minnstu þess, góði guð! að vjer göngum nú þannig fram fyrir þig, og biðjum þig auðmjúklega, að þú látir þitt hið heilaga ljós skína fyrir oss skírt og skært einmitt á þessum degi, sem þú hefur sjálfur tilsett. Æ, skapaðu í oss hreint hjarta, og láttu þennan vorn helgi- og hvíldardag verða þóknanlegan fyrir þjer, með því að vjer lærum að þekkja vegi þína á jörðunni, og hjálpræði þitt meðal allra þjóða!

## 72. Að deyja með Kristi.

Að lifa með Kristi, að ríkja með honum, það er hið mikilvæga loforð, sem Jesús gaf ekki einungis sínum fyrstu áhangendum, heldur einnig hinum seinni játendum sínum, svo framarlega sem hann í bæn sinni, sem höfuðprestur,

það ekki einungis fyrir sínum fyrstu lærisveinum, heldur einnig fyrir þeim, sem trúa mundu á hann fyrir þeirra orð. En hvað þýðir það, að deyja með Kristi? Það sjáum vjer af orðum Páls: kærleiki Krists þvingar oss, með því vjer ályktum svo, að fyrst hann einn er dáinn fyrir alla, svo sjeum vjer allir dánir (2 Kor. 5, 15). Þeir eru þó til á meðal vor, sem hafa gefizt Jesú á vald, og eru sameinaðir honum fyrir trúna. Þú sem ert það, jafnvel þó mennirnir viti ekki af því og þekki þig ekki, eða hinn ljettúðugi skríll dæmi, ef til vill, ranglega um þig, guð þekkir þig samt, því hann veit gjörla hvað með manninum býr, þú, karl eður kona, sem ert helgaður Jesú og ástfólginn fyrir trúna, á Golgatha, þar sem Jesús drakk í botn bikar veraldarinnar og kallaði: það er fullkomnað! hneigði höfuðið og gaf upp andann, þar hefur þú dáið með Jesú! Að deyja með Jesú, eða eins og Páll nefnir það á öðrum stað, að vera krossfestur með honum, eða hafa krossfest holdið með þess girndum og tilhneigingum, er að deyða daglega hinar holdlegu ástríður hjartans, sem spillt er í eðli sínu, hvernig sem þær leitast við að ná yfirráðunum. Þegar þú ert þá ekki framar, eins og þú varst áður, heldur ert orðinn allur annar maður í sálu og samvizku, í hugarfari og háttalagi, þegar þú daglega kostgæfir helgun þína, þá tileinkar rjett-

látur guð þjer Jesú dauða, með því hann vill álíta, eins og þú hefðir sjálfur dáið fyrir syndir þínar. Að deyja með Kristi, er líka að deyja í náðarríku samfjelagi við hann, svo vjer berum framar enga áhyggju fyrir ástvinum vorum, þegar vjer höfum ráðstafað húsi voru, heldur deyjum, eins og Jesús, lausir við allt jarðneskt, og höfum allan huga, eins og hann, einungis á hinu mikla fótmáli, sem fyrir oss liggur. Að deyja með Jesú, er að skilja við heiminn með sáttgjörnu hjarta, og ástríkum óskum yfir óvinum vorum. Að deyja með Jesú, er að útbýta, eins og hann, velgjörningum í sjálfu andlátinu, ef vjer höfum efni til þess, að minnsta kosti, ef vjer getum ekki gjört annað, að vjer tökum þó með þolinmæði á móti þjáningunum, bíðum með rósemi hins betra lífs, sem vjer væntum eptir, og sem vjer skulum nú fá að öðlast, og sýnum svo með því öðrum til eptirdæmis: þannig deyr kristinn maður. Ef vjer deyjum þannig með Jesú, þá skulum vjer líka lifa með honum, lifa hinu glaða og sæla lífi í honum, sem hinir útvöldu byrja hjer í tímanum og fram halda í eilífðinni, þar sem engin harmkvæli, hrellingar og ofsóknir eru framar til, þar sem öll tár verða afþerruð, og eilífur fögnuður leikur yfir höfðum vorum!

## 73. Að deyja frá veröldinni.

Þeir eru margir, sem hafa notið sældar í heiminum, margir, sem hafa lifað í vegsemd á jörðunni; en Jesú kjör voru armæðufull; hann sætti ofsóknum heimsins í mesta máta, því hann endaði æfi sína í eymd og yfirgefinn af öllum. Eigi að síður vill sál mín hafa hlutskipti með honum, fremur en með nokkrum af gæðingum veraldarinnar; jeg kysi heldur að standa undir krossi hans, eins og lærisveinn hans gjörði, heldur en að njóta munaðarlífs hinna; því vegna Krists er veröldin mjer til handa, eins og hún sje dauð og ekki framar til, því hann hefur kennt mjer að þekkja aðra dýrð, sem hjarta mitt girnist og leitar að. Æfinlega þegar Kristur vakir fyrir sálu minni, þá fyrirlít jeg það glis, sem blindar augu heimskingjans, met jeg einskis þá sæld, sem hinir fávísu sækjast eptir, hefur hjarta mitt andstyggð á öllum ávinningi, sem ekki er eptir guðs vilja, hvað margir sem hafa á honum mætur og eptirsókn. Æfinlega þegar Kristur vakir fyrir sálu minni, þá gengst jeg einungis fyrir þeirri dýrð, sem ekki fyrnist með tímanum, sem ekki fölnar nje flekkast hvernig sem allt veltist, þá sækist jeg einungis eptir þeim ávinningi, sem engin þjáning, engin hrelling, engin ofsókn, eða hungur eða nekt, eða háski eða sverð getur frá mjer tekið. Jeg hef

lært að þekkja þá dýrð af honum, og sje sjálfur þá dýrð á honum, sem fyrirleit allt annað, sem lagði allt jarðneskt í sölurnar, og ávann það sem var svo miklu betra. Þess vegna er veröldin fyrir mitt leyti, eins og hún sje dauð og alls ekki til, því hún hefur ekkert það, sem sál mín girnist; ekkert af því, sem hún hefur að bjóða, getur fullnægt löngun hjarta míns. En geti jeg þannig neitað mjer um unaðsemdir veraldarinnar, því skyldi jeg þá ekki líka geta hafnað áhyggjum hennar? Komið til mín allir þjer, sem erfiðið og eruð þjáðir! svo hljómaði Jesú ástríka rödd, meðan hann lifði hjer á jörðunni; og rjett fyrir andlát sitt talar hann huggunarorð til þeirra, sem harmþrungnir eru. Hví skyldi jeg þá hræðast, þó jeg sjái hið illa hafa yfirhönd á jörðunni, þó jeg sjálfur hafi fundið vald þess yfir hjarta mínu. Jeg þekki þann, sem dæmt hefur höfðingja heimsins, jeg þekki loforð hans og elsku, sem aldrei getur brugðizt. Þegar jeg sný mjer til hans með iðrun og trú, þegar jeg kalla til hans: herra, minnstu mín í þínu himneska ríki! þá heyri jeg rödd hans, er segir einnig við mig: þú skalt sannarlega vera þar hjá mjer!

## 74. Óstöðugleiki jarðneskra hluta og eilífðin.

Hvað hugsar þú, maður! að festa svo hjarta þitt við þessa hina jarðnesku hluti, eins og þú

eigir sífelt að þeim að búa. Bæði upprnni vor og lífskjör öll kenna oss þó annað. Snúðu þess vegna huganum til þess endadægursins, sem öllum er víst, og skoðaðu sjerhvað sem er umhverfis þig, eins og áhöld í gestgjafahúsi, er þú hlýtur að víkja burt úr; því eins og þú komst hingað allslaus, eins skaltu líka fara hjeðan allslaus. Fyrir öllum, sem líta ljós þessa lífs, er það brýnt, að þeir skuli láta sjer lynda, ef þeir hafi föt og fæði; allt sem þú sjerð í kringum þig, verður frá þjer tekið; hold þitt rotnar, blóðið storknar, beinin leysast í sundur, og sinarnar, sem hjeldu limum líkamans saman, fúna og verða að dupti.

En hvað stoðar mig sú kenning, að allir hlutir líði þannig undir lok, ef jeg á sjálfur ekkert betra í vændum? Sjeu allir hlutir undir sólunni eyðingu undirorpnir, og liggi ekki annað fyrir mjer, en að flækjast til og frá innan um allan þennan grúa hverfandi hluta, og deyja svo eins og skynlaus skepna, þá fæ jeg ekki skilið til hvers skapari minn gaf mjer lífið; jeg get þá ekki sjeð nokkur not fyrir mig af þjáningunum, eða hvað það er, sem á að geta huggað mig í þeim. En trúin, sem ekki dregur dulur á þjáningar lífsins, talar ekki einungis um þau not, sem vjer getum haft af þeim í þessu lífi, heldur lætur hún huggun sína ná lengra, með því hún bendir á nokkuð, sem sje

í vændum, og lætur menn eygja þann stað, þar er þeim skuli auðnast að skilja handleiðslu guðs á manninum, þó hún væri þeim hjer óransakanleg. Hún setur ávallt eilífðina samsíða þessum hverfulleik allra jarðneskra hluta; og samsíða kvalræði þessa lífs setur hún þá dýrð, sem á síðan skuli á oss birtast; hún lætur mætast hina sáru eptirþrá skepnunnar, og vonina og frelsi frá dauða og rotnan. Armæða og kvein er hjer hlutfall allra lifandi skepna; en öll andvarpan skal um síðir enda taka, því vjer væntum dýrðlegs frelsis guðs barna, þá er þau losast úr ánauð þessa líkama.

Eilífð, ódauðlegleiki, líf eptir þetta eru því þeir hlutir, sem kristindómurinn fram býður oss til huggunar, þegar hverfulleiki hins jarðneska, og dauði sjálfra vor hrellir huga vorn. Og hversu verðskuldar ekki þetta að sæta allri vorri athygli, til þess vonin og vissan um það geti glatt hjörtu vor og huggað oss í allri sorg, svo vjer hvorki lítilsvirðum, nje afneitum þessu jarðneska lífi, heldur lifum við vonina, eins og hæfir erfingjum eilífs lífs! Þess vegna skaltu ekki, kristinn maður! festa hjarta þitt við hið jarðneska, heldur setja þjer sem bezt fyrir sjónir hið háleita og himneska, þann tíma, er dýrð himinsins upprennur fyrir þjer. Því hafir þú þetta sí og æ hugfast, muntu trauðlega geta fengið af þjer að flekka sálu þína með nokkurri

saurgun syndarinnar, eða bendla hana við hverfulan hjegóma heimsins. Já, hver sem hefur eilíft líf vakandi fyrir huga sínum, hann hræðist ekki nokkurn óvin, honum ofbýður engin háreysti nje glaumur veraldarinnar, því guð er hans hellubjarg og hlutskipti að eilífu.

## 75. Íhugun lífs og dauða.

Alvarleg íhugun þess, hversu líf vort er skammvinnt, á að uppörfa oss til heilagrar breytni í þessu líkamans lífi. Líf manna á jörðunni er líkast akursins liljugrösum í gróanda, þeim grandar ýmist of mikill kuldi, eða stormur eða sólarhiti; og allt hið sama kemur fram við manninn, þangað til hin dimma gröf tekur við öllu saman. Frá fæðingu vorri til dauða er einungis svipstund; óðar en vjer höfum fengið mætur á ljósi lífsins, dregur nótt dauðans upp fyrir augum vorum, því vjer erum á harðri ferð til grafarinnar. Hinar jarðnesku hugsanir vorar og girndir eru ekki annað, en eins og draumar nývaknaðra manna; og loksins vekur dauðinn sálu vora, er hún hefur sofið í syndunum; og vjer viljum þá, ef til vill, fara að gæta vor, en verðum þá þegar að víkja hjeðan. Vjer skundum frá þessu skammvinna lífi inn í eilíft líf, þar sem bíður vor annaðhvort gleði eða sorg, annaðhvort hvíld eða órósemi, annaðhvort farsæld, eða eymd og þjáning. Gættu þess þá, kristinn maður! hve

stopullt þetta líf er; vaknaðu og íhugaðu, að þú ert dauðlegur; hvað hugsar þú að byggja von þína og traust á auðlegð, vinum og árafjölda? Lífið er eins og stopull vindblær, eins og hverful gufa. Öll vegsemd manna er eins og gras, eins og blóm á akri; sjá! dagar mínir eru eins og þverhönd, og æfi mín er eins og ekkert hjá guði; sjerhver maður er einber hjegómi, hversu fast sem hann stendur (Sálm. 39, 6). Hví erum vjer þá svo hugsjúkir fyrir því, sem ekkert er? hvers vegna gjörum vjer oss svo mikla mæðu og andstreymi fyrir því, að viðhalda lífi voru? Gjörum vjer það til þess að geta fullnægt girndum vorum? Vitum vjer þá ekki, að dauðinn getur að oss komið, mitt í því vjer erum að tala þetta? En með hvílíkri ljettúð íhuga sumir menn eigi að síður hvað lífið er skammvinnt? Komum, segja þeir, og látum oss lifa þann tíma sem auðið er, hafa gott af lífinu í æskunni; látum oss ná í blóm lífsins! Ó, þú táldræga og svikula veröld! þú byrjar með gleði, og endar með sorg; sá sem þú telur sælastan, er verst farinn af öllum; en sæl er sú sál, sem felur í guði líf sitt með Kristi! Fávísa heimsins barn! líttu í kringum þig, því dauðinn er í hælunum á þjer, hvað mikill sem þú þykist; þó þú setjist að ofar stjörnum guðs, þá eltir dauðinn þig eigi að síður; hann fer ekki að mannvirðingum, því hann flytur alla burt án

mismunar. En þú, ráðvandi, kristni maður! vertu vongóður fyrir það, þó lífið sje þjer bitturt; dauðans er ekki langt að bíða, og hann frelsar þig úr allri ánauð. Sæll er Lazarus, þegar englar guðs bera sálu hans úr sjúkum og særðum líkama í faðm Abrahams! En þú, þverbrotni syndari! þú skalt skelfast af þessum boðskap dauðans. Gættu þín því, maður! og íhugaðu dauða þinn, svo þú getir undirbúið þig hjer á jörðu, til að taka á móti eilífðinni. Friðarins guð helgi oss og hjálpi til að lifa siðsamlega, ráðvandlega og guðrækilega í heimi þessum, svo vjer getum, þegar vjer deyjum og skiljum við heiminn, falið sálu vora í hendur guðs, og þannig með lofgjörð og fögnuði gengið inn í eilíft líf!

## 76. Ódauðlegleiki.

„Jeg lifi og þjer skuluð lifa“! Þessa fullvissu gaf Jesús vinum sínum, og hún er undirrót allrar þeirrar rósemi, huggunar og gleði, sem vjer njótum. „Jeg er upprisan og lífið; hver sem trúir á mig, skal lifa þótt hann deyji, og hver sem lifir og trúir á mig, skal ekki dauðann sjá að eilífu“; hann skal í gegnum dauðann innganga til eilífs lífs. Þetta er ekki óviss von, sem vjer drögum sjálfa oss á tálar með oss til huggunar; það eru ekki eintóm líkindi, ekki álit einstakra vitringa, ekki skynsemisá-

lyktanir hinna lærðu, sem vjer byggjum þessa von á. Nei, ódauðlegleiki vor er vissa, óbifanlegur og guðdómlegur sannleiki; trú vor er stöðug, því hún er byggð á orðum hans, sem ekki getur á tálar dregið. Eins víst og Jesús var sannleikans guðdómlegi kennari, eins víst erum vjer líka ódauðlegir; eins víst og hann reis upp frá dauðum og lifir enn, eins víst skulum vjer líka lifa, þó vjer deyjum. Ef vjer trúum því að vjer sjeum ódauðlegir, þá getum vjer lifað rósamir, glaðir og sælir; vjer höfum með því þá von, sem heil veröld með öllu því sem í henni er, kemst í engan samjöfnuð við; vjer höfum þá alla hluti; en eins værum vjer líka án þessarar trúar vesælastir allra skepna; oss vantaði allt. Ímyndi jeg mjer einungis að það sje mögulegt, að tilvera mín sje á enda með þessu lífi, hvernig get jeg þá án skelfingar horft fram á dauðann, sem gjöra skal enda á lífi mínu? Sje öll mín farsæld bundin við þá fáu daga og ár, sem mjer er ætlað að lifa hjer, hvaða ánægju get jeg þá haft af þessu lífi? Hlyti jeg ekki að gleyma sjálfum mjer innan um glaum glaðværðanna, til þess að geta þó notið þeirra um eitt augnablik? Og er það nokkur rjett nefnd gleði, sem jeg fæ notið að eins í bráð, en missi svo á næstu stundu um alla eilífð? Þar á móti þegar jeg get sagt við sjálfan mig með sannfæringu: þú ert meir en duptið tómt, því

betri hluti veru þinnar er eilífur, dauðinn getur ekki höndlað anda þinn, gröfin ekki náð honum; hann flytur á annan stað í guðs mikla ríki, þar sem æðri unaðsemdir bíða hans; — þegar jeg get sagt þetta með fullri sannfæringu, ó, hvað líkist þá þeim fögnuði, sem brjóst mitt fyllist af, er jeg íhuga þá himinsins sælu, sem auga hefur ekki sjeð, eyra ekki heyrt, og engum getur í hug eða hjarta komið!

## 77. Huggun við ótta dauðans.

Hvað er það, kvíðandi, kristni maður! sem þú setur helzt fyrir þig í huganum, svo þú eigi getur tekið með gleði aðkomu dauðans? Ef þú setur það fyrir þig, að þú í dauðanum verður að skilja við konu þína, börn og ástvini, þá gættu þess að þú átt líka aðra ástvini, sem á undan þjer eru dánir, og sem þú færð nú að finna, og að hinir, sem þú deyrð burt frá, munu innan lítils tíma koma á eptir þjer; þá skal þar verða eilífur fagnaðarfundur án nokkurs aðskilnaðar; og um fram allt þá gættu þess, að þú kemur á fund þíns ástkærasta himneska föðurs, og bróður þíns Jesú, þíns ástríkasta og einlægasta vinar, sem elskar þig, og sem þú hlýtur aptur að elska heitt og innilega. Ef þú setur fyrir þig auðlegð þína og allsnægtir, svo þjer er nauðugt að deyja burt frá þeim, og sje þjer dauðans tilhugsan skelfileg fyrir þá skuld, með

því þú segir: ó, dauði, hversu beisk er þín tilhugsan þeim manni, sem nýtur í ró eigna sinna (Syr. 41, 1)! hversu lítið þekkir þú þá til þeirrar yfirgnæfanlegu dýrðar, sem er í guðs ríki! Þú berð þá ekki skynbragð á aðra hluti en þá, sem liggja fyrir fótum þjer, en ekki á þá hluti, sem eru hjer fyrir ofan, þar sem þú þó átt í vændum ekki forgengilega kórónu, heldur þann heiðurskrans, sem aldrei fölnar, ekki endanlegt ríki, heldur stöðugt og eilíft, þar er þú í stað hins hverfula gulls og silfurs öðlast eilífan dýrgrip og ævarandi hlutskipti, sem oss er á himnum geymt (1 Pjet. 1, 4), og þú færð í stað hrörlegs jarðhúss himneskt íveruhús, fullt af eilífum gæðum. Ef að fýsn holdlegra girnda og ánægja skilningarvitanna heldur þjer föstum við þennan jarðneska, biltingasama bústað, svo að þú nauðugur vilt deyja þess vegna, ó, ættir þú þá að vilja vera eins og hinir holdlega sinnuðu Gyðingar, og vilja heldur sitja yfir kjötkötlunum í Egyptalandi (4 Mós. 11, 4), þar sem þú verður að lifa í sífeldri ánauð, en reyna til að komast inn í hið fagra og dýrðlega fyrirheitna land á himnum; skyldir þú þá heldur kjósa að vera þræll þessara jarðnesku girnda, en frjáls maður í heimkynni þínu á himnum? Kvíðir þú fyrir, og ertu hræddur við þá þjáningu, kvöl og angist, sem leiðir af aðskilnaði sálar og líkama, þegar dauðinn slítur það bandið,

sem samtengdi þau í lífinu? Að sönnu er þetta hörð og ströng barátta fyrir mörgum, en fyrir mörgum er það líka eins og sætur og hægur svefn; því þegar svo langt hefur verið komið, að hinn síðasti aðskilnaður var í nánd, og líkamans tjaldbúð skyldi niðurhrynja, þá hefur miskunsamur guð leyst þetta band í sundur vægilega fyrir mörgum manni, og gefið þeim hæga andlátsstund. En þó ekki væri nú að gjöra ráð fyrir þessu, ættir þú þó að láta kvöl og angist dauðans vera þjer til fyrirstöðu og bægja þjer frá dýrðinni, sem í vændum er, en halda þjer föstum hjer, þar sem allt er svo hverfult, aumt og vesælt? Dauðinn er mjóar dyr og inngangur fyrir þig, þröngur vegur til lífsins, svo þú kvíðir þess vegna fyrir kvöl og angist í andlátinu, en ættir þú þá vegna þjáningarinnar og sársaukans, vegna þeirrar kvalar og angistar, sem dauðinn ollir þjer, að vilja heldur vera útilokaður frá þeim óaflátanlega, ósegjanlega og óskiljanlega fögnuði, vegsemd og dýrd, sem býður þín og allra guðs barna á himnum?

## 78. Huggun við ótta dauðans.

Ertu hræddur við dómstólinn, dómarann og dóminn, sem upp verður kveðinn yfir þjer, að þú munir taka það út, sem gjörðir þínar hafa tilunnið? Vertu óhrædd, sála mín! dómstóllinn er orðinn að náðarstól fyrir þig og öll guðs

börn, sem hafa trúna; dómarinn er árnaðarmaður þinn, bróðir, höfuð, herra og konungur; hvernig getur hann þá, sem situr hjá guðs hægri hendi, gengur milli þín og hans, og lifir æfinlega til að biðja fyrir þjer, hvernig getur hann fordæmt þig? Hvernig getur hann, sem borgað hefur syndaskuldina fyrir þig, dæmt þig til eilífrar glötunar, — þegar þú með innilegri og stöðugri trú felur þig vernd hans og varðveizlu? Allir bera að sönnu merki syndarinnar, og eru hennar vegna sekir eilífs dauða, því dauðinn er endurgjald syndarinnar; en öll guðs börn og útvaldir bera fyrir guði iðrunarmerki vegna syndarinnar, bera merki trúarinnar á soninn, og hver sem trúir á hann, skal ekki glatast, heldur eignast eilíft líf. Víst er um það, að líka hafa þeir hrasað og syndgað, en af því þeir hafa með apturhvarfi og trú hjer í lífi staðið á fætur aptur, og stutt sig við hinn útvalda og dýrmæta höfuðhyrningarstein í Zíon, þá skulu þeir ekki til smánar verða, því hinn annar dauði hefur ekkert vald yfir þeim, sem taka hlutdeild í hinni fyrri upprisu (Opin. 20, 6). Lofa þú þess vegna hinum iðrunarlausu, vantrúarfullu, sællífu og holdlega sinnuðu að álíta dauðann eins og ræningja, en þú angráða, iðrandi og trúaða guðs barn, mátt álíta hann eins og hulinn fjesjóð; lofaðu hinum að álíta hann eins og óttalegustu ófreskju, þú skalt álíta hann eins og

frelsara; lofaðu hinum að álíta hann eins og grimman og miskunnarlausan óvin, þú getur kallað hann gleðilegan sendiboða, er tilkynnir þjer, að öll þín eymd og mæða taki sælufullan enda. Máttu þá ekki með öllum rjetti fagna gröfinni? Láttu sætta þig við guð þá stund sem þú átt enn að lifa, og færð að njóta friðar! Hafðu þjer Jesúm þinn sífelt fyrir hugskotssjónum, því hans vegna ertu krossfestur frá heiminum! Haltu þjer fast við hann, þann lífsins herra, með lifandi og stöðugri trú, með innilegri bæn og ákalli; slepptu honum ekki fyr en hann tekur þig til sín, svo þú sjert þar sem hann er! Já, kom herra Jesús, miskunsami mannvin, og gjör mig eilíflega sáluhólpinn!

## 79. Sáluhjálplegur dauði.

Margur maður í þessum heimi hugsar ekki um dauðann, og hefur enga löngun eptir sáluhjálplegum viðskilnaði, af því hann hefur allan huga á þessum veraldarmunum, jafnvel þó hann megi vita, að ræningjar geti náð þeim, og að hann eigi sjálfur ekkert að flytja burt með sjer af allri hans auðlegð; það getur hann aldrei vitað, hver þess muni njóta, sem hann hefur saman dregið (Sálm. 39, 7). En ef þú vilt verða sannur auðmaður, þá skaltu óska þjer sáluhjálplegs dauða; því þá eignast þú hinn bezta fjesjóð, fyllingu auðs og fagnaðar hjá

guðs hægri hlið. Þar skal drottinn einskis sinja þeim, sem hafa lifað guðrækilega. Og þessum hinum himneska fjesjóð grandar hvorki mölur nje rið; þjófar geta þar ekki brotizt inn og stolið honum. Margur hefur enga löngun eptir dauðanum, af því hann er svo vel ánægður með þann heiður, sem hann hefur í þessum heimi. En hversu stopull er ekki heiðurinn, hann fölnar fljótt eins og blómið á akrinum; og gjöri hann það ekki fyr, þá týnist hann þó og hverfur, þegar maðurinn deyr. Viljir þú teljast meðal hinna sönnu heiðursmanna, þá óskaðu þjer sáluhjálplegs dauða, því hann setur þig til hægri hliðar konungi konunganna, og gjörir þig að eilífum kennimanni guðs. Mörgum er tilhugsan dauðans bitur og beisk, af því þeir setja fyrir sig, að skilja við vini sína og víkja úr sambúð foreldra, barna, systkyna og ættingja, jafnvel þó þeir hljóti að sjá það, að, þegar minnst vonum varir, kippir dauðinn einum þeirra burt á fætur öðrum. Ef þú vilt ætíð og ávallt geta verið hjá þínum sönnu ástvinum, æ, svo óska þjer sáluhjálplegs dauða! Því þá kemur þú á fund þíns himneska föðurs, sem vildi þjer svo vel, að hann þín vegna ekki þyrmdi sínum eingetna, elskulega syni; þá kemur þú og til bezta vinar sálu þinnar, Jesú Krists, sem elskaði þig svo heitt, að hann ljet lífið fyrir þig; þú kemur til vinar

þíns, guðs heilags anda, sem hefur varðveitt þig frá öllum villistigum, og leitt þig á rjettum vegi til himinsins; þú kemur til englanna mörgu þúsunda. Já, guð mun þá skila þjer aptur öllum vinum þínum, sem hafa dáið sáluhjálplega í drottni; þá skal faðirinn fá aptur barn sitt, barnið föður sinn, hin harmþrungna ekkja sinn harmdauða mann, já, fá það svo aptur, að dauðinn skal aldrei framar gjöra nokkurn aðskilnað þeirra — því dauðinn skal ekki framar vera til — fá það svo aptur, að engin sorg eða harmur (Opin. 21, 4) skal nærri þeim koma um alla eilífð; því þeir skulu öðlast fögnuð og gleði, en firrast sorg og veini. Og hversu er þess líka skammt að bíða, að vinir þínir, sem þú skilur hjer við, finni þig aptur, þá er þeir líka leysast hjeðan og koma til Zion með fögnuði, og ásamt með þjer fá að njóta eilífrar dýrðar! Bæði þessi og margföld önnur sæla, sem engin mannleg tunga megnar að skýra frá, felur í sjer löngun eptir sáluhjálplegum dauða. En ef þú vilt vera viss um að þú fáir ósk þína uppfyllta, þá verður þú með innilegri trú og heilögu líferni að fela guði líkama þinn og sálu; þú verður innilega að sameina þig Jesú þínum í lífi og dauða, aldrei sleppa honum úr hjarta þínu, byggja alla þína velferð á Jesú Krists dýrmætu friðþægingu; ef þú gjörir þetta, þá skaltu ekki dauðann sjá að eilífu (Joh. 8, 51).

Og þegar þú þá andvarpar í andlátinu: í þínar höndur fel eg minn anda, því þú hefur endurleyst mig, drottinn, trúfasti guð! þegar þú biður með ræningjanum: minnstu mín, herra! þá mun herra þinn svara þjer: í dag skaltu vera með mjer í paradís!

## 80. Dauðinn og dómurinn.

Minnstu á enda allra hluta í öllum þínum athöfnum! Enginn læknisdómur eða lærdómur getur eins vel lækkað stærilæti og dramb, sefað illgirni, deytt tilhnegingar og girndir og sýnt oss, hversu allir hlutir í veröldinni eru hjegómlegir, eins og endurminning og íhugun vorrar síðustu baráttu. En hver er þessi endir allra hluta? Lofaðu öðrum að þrátta um, hver hann sje; en sjálfur skaltu með guðs ótta virða fyrir þjer þessa hluti: dauða þinn, efsta dóm, himinsins dýrð og helvítis kvalir; því þetta eru þeir hlutir, sem þú ætíð átt að hafa vakandi fyrir þjer. Hvað kemur fljótar en dauðinn, og undir eins þegar vjer hugsum sízt. Vjer deyjum dags daglega, því á hverjum degi styttist æfi vor, og eptir því sem sjálfum oss fer fram, eptir því hallar æfinni; sá tími sem liðinn er, hverfur oss; já, það má heita að vjer miðlum dauðanum nokkru af sjerhverjum degi, sem vjer lifum. Ó, vesæll maður, því ráðstafar þú þá ekki sjálfum þjer í hag sjerhverri stundu?

Gættu þess að dauðastundin kemur fljótlega, eins og á vængjum vindanna, þá mun höfuð þitt hníga og hjartað nístast af sorg; gleymdu því ekki veikleika þínum og vanmætti, að hjervistardagar þínir eru fáir og stuttir! Minnstu þess hve ár þín líða skjótt, og hve mannsæfin er hæpin! Þó dauðastundin sjálf sje óviss, þá er dauðinn samt vissastur af öllu því óvissa, sem manninum getur mætt. Hann sjer ekki aumur á nokkurri fátækt, ber ekki heiður nje virðingu fyrir nokkurri auðlegð, hlífist hvorki við vizku nje æsku. Sjerhver hugsi því vel um hinn síðasta dag, því eins og vjer verðum þá fyrir fundnir, skulum vjer dæmdir verða á dómsdegi. Og hvað er óttalegra en dómurinn? Hvað getur hugsast óbærilegra, en helvíti? Hvað mun sá maður hræðast, sem ekki hræðist þetta? Óttastu það því, maður! því í dauðanum hlýtur þú að skilja við öll líkamleg gæði, yfirgefa sjerhverja stöðu á jörðunni, hve indæl og ágæt sem hún er. Hræðstu, maður! því í dómnum hlýtur þú að mæta fyrir honum, í hvers höndur skelfilegt er að falla fyrir hina þverbrotnu, fyrir honum, sem enginn hlutur er hulinn, því allt er bert fyrir augum hans. Hræðist þú ekki auglit þessa dómara, sem jafnvel hver maður skelfur fyrir? Ertu ekki hræddur við þann orm, sem aldrei deyr, við þann eld, sem ekki slokknar? Æ, að jeg þó í tækan tíma geti afstýrt því ekki

einungis með gráti og veini, heldur með sönnu apturhvarfi, að dauðastundin og dómurinn verði mjer til kvalar og skelfingar. Því óumræðileg sæla er fyrirbúin þeim, sem deyja vel og guðrækilega; en þá hluti hefur ekkert auga sjeð, ekkert eyra heyrt, og aldrei hefur það komið í nokkurs manns huga, sem guð hefur þeim ætlað, er elska hann. Hvað helzt það sje, get jeg ekki skilið; augað hefur ekki sjeð þá hluti, því þeir hafa engan lit, eyrað hefur ekki heyrt þá, því þeir hafa engan hljóm eða rödd; þeir hafa ekki heldur í nokkurs manns huga komið; þeir eru ekki einungis ósýnilegir, heldur óumræðilegir. En drottinn Jesús Kristur! þegar sá tími kemur, er jeg skal ganga veg alls holds, virðstu þá að gefa mjer hægan og sáluhjálplegan viðskilnað, svo jeg, með sannri trú og viðurkenningu þinnar náðar, geti falið mína aumu sál í þínar hendur. Ef mögulegt er, þá hlíf mjer við langvinnri kvöl og þjáningu, og unn mjer um fram allt að njóta einnig hjer þess friðar, sem Jesús Kristur veitir, og á síðan öðlast hlutdeild í upprisu lífsins ásamt með öllum trúuðum, svo að jeg þá með fögnuði geti vegsamað, tignað og þakkað þjer um alla eilífð fyrir þína óteljandi velgjörninga, er þú hefur auðsýnt mjer, meðan jeg ferðaðist sem framandi maður á þessari jörðu. Gakk ekki í dóm við mig fyrir mín fyrri afbrot, og minnstu ekki æskusynda minna;

vertu mjer náðugur vegna þinnar miklu miskunsemi; viðhaltu vjer stöðugt í trú og þolinmæði fram í andlátið, svo að hvorki synd eða dauði eða djöfull geti grandað mjer, ekki heldur hold og blóð freistað mín til óþolinmæði, heldur fái jeg að koma til þín, hvílast hjá þjer og vera hjá þjer um alla eilífð!

## 81. Eptir hverju verðum vjer dæmdir?

Hvað er það, sem Kristur vill líta á, og helzt hafa tillit til í dómi sínum, þegar hann gefur oss kost á þeirri sælu, að inn ganga í hans eilífa ríki? Víst fer hann þá ekki eptir því, þó vjer höfum beygt knje, er vjer nefndum nafn hans, ekki eptir því, þó vjer höfum verið ákafir í að vegsama hann með vörunum einum, ekki eptir því, þó vjer höfum stælt eptir kristilegri guðhræðslu með orðalagi og athæfi, með einum og öðrum guðræknisiðkunum. Eptir öllu þessu getur líka hræsnarinn stælt, eins og líka hinn, sem fyrirlítur Krist í hjartanu, nitt í því hann heldur yfir honum fallegustu lofræður, og gjörir það annaðhvort af stærilæti, eða fyrir ávinningssakir. Nei, hann sem þekkir hjartað, krefst af hjarta þínu fullrar alvöru og einlægni í þinni kristilegu trú. Að þú hafir haft einlægan og góðan vilja, á að hafa sýnt sig í verkum þínum; og í hverju eiga þá verkin að sýna sig yfir höfuð að tala? Einungis í kærleika. Allt

endurlausnarverkið frá upphafi til enda vitnar um trúfasta og fúsa elsku af guðs og Jesú hálfu; eins á allur árangur þess að sýna afl sitt og líf hjá hinum endurleystu í sannri góðgjörðasemi og elsku. Ef þú því spyr: get jeg vænt þess að fá staðizt fyrir augliti drottins á reikningsskapardeginum? þá um fram allt gleymdu sízt af öllu að spyrja sjálfan þig: hvað gjörir þú, og hvað hefur þú gjört af sönnum góðvilja og elsku til meðbræðra þinna, þeim til sannrar huggunar, gagns og nota, eptir þeim kröptum og kringumstæðum, sem þú hafðir til þess? Ó, kristin trú heimtar af sínum sönnu játendum, að þeir hafi stöðuga viðleitni til að efla heill meðbræðra sinna. Svo framarlega sem þú vilt ná tilgangi trúarinnar, sem er eilíft líf og sáluhjálp, þá verður þú af öllu hjarta að ástunda verklag trúarinnar, sem sýnir sig í fölskvalausri mannelsku. Annars vill ekki drottinn vor og dómari kannast við oss sem sína. Sjáðu, hversu góður hann er, sá blíði herra! Það sem þú leitaðist við að gjöra meðbræðrum þínum til gagns, það vill drottinn meta eins mikils, og það hefði komið fram við sjálfan hann. Mjer gáfuð þjer að eta, segir hann á dómsdegi, mjer hafið þjer veitt húsaskjól, mig hafið þjer klætt, mín vitjað og mig annast í neyð minni. Þetta er meiri vegsemd fyrir oss, en þó oss væri boðin veröldin sjálf með öllum hennar mörgu dýr-

gripum. Því hjegómi veraldarinnar líður undir lok, en Jesús vor dómari lifir að eilífu.

## 82. Undirbúningur dauðans.

Lifðu svo, kristinn maður! eins og þú skyldir eiga að deyja á hverjum degi, og deyðu svo, að þú getir lifað eilíflega. Heyr þú hvað Kristur segir: verið ætíð viðbúnir, því á þeim tíma, sem þjer hugsið sízt, mun mannsins sonur koma! Öll vor æfi nægir varla til þess að búa oss vel undir dauðann; því síður skaltu þá hugsa með sjálfum þjer: jeg er ungur og hraustur, og á enn fyrir höndum langt líf! Ekki skaltu heldur hugsa svo: þó jeg ekki verði gamall, þá skal samt sjúkdómurinn í minni banalegu verða mjer til undirbúnings undir sáluhjálplegan dauða. Því veiztu það ekki, kristinn maður! að dauðinn fer ekki eptir árum eða aldri, já, hlífist hvorki við æsku nje atgjörfi. Það falla stundum af trjánum fleiri blöð, en fullvaxin aldini. En setjum nú, að þú kynnir að verða svo heppinn, að þú fengir að sjá kvöldstjörnu banalegunnar renna upp, áður en nótt dauðans fjelli yfir þig, en er þá sá tími hentugastur til að hugsa um dauðann, og búa sig vel undir hann? Geta ekki þungir sjúkdómar eða mikil líkamans þjáning lagst svo á þig, að þú verðir með öllu óhæfilegur til að snúa hjarta þínu alvarlega til guðs? Sjúkleiki og svefn getur sókt

þig svo, að þú missir bæði tilfinningu og rænu, og að upp úr hinum tímanlega svefni komi fastasvefn hins eilífa dauða. Ættir þú þá að vera svo grunnhygginn, og láta óvin sálar þinnar villa þig svo, að þú frestir svo áríðandi verki til banalegunnar, þar sem þú þó ekki mátt vita, hvar eða hvernig dauðann ber að höndum? Láttu þjer til hugar koma, að lífið er sáðtími dauðans, dauðinn uppskerutími lífsins; eins og menn hafa niðursáð, eins skulu þeir og uppskera, og hver sem illa niðursáir, skal og illa uppskera! Og dæmdu nú sjálfur, hvort dauðans dimma og dapra nótt sje hentug til þess, að skrýða sálu þína dyggðum hinna heilögu; því þær eru það hið hreina og skínandi lín, sem þeir skulu vera íklæddir, sem boðnir eru í brúðkaup lambsins! (Opin. 19, 8—9).

## 83. Sæla eptir dauðann.

Þú hræðist dauðann; já, það er máltak náttúrunnar, því hún segir: jeg er hrædd við dauðann. En hlustaðu nú á náðina! Hún segir: Kristur er mitt líf, og dauðinn er minn ávinningur! Ef þú gefur ekki gaum að öðru en röddu náttúrunnar, þá er ekki annars von, en að þú hræðist dauðann; en sje náðin rík í sálu þinni, þá mun líka dauðinn vera þjer velkominn gestur. Hræðistu þá þann ávinning og hag? Því það er þó dauðinn hinum trúuðu guðs börnum, sem

hjer í lífi hafa aðhyllzt Krist; þau eru viss um að dauðinn er þeim ávinningur; því hann flytur oss í nánara og innilegra samband við Krist, í lífinu sjáum vjer frelsarann einungis með augum trúarinnar, en í dauðanum fáum vjer að skoða með berum augum dýrð hans, eins og hún er. Mig langar til að leysast hjeðan og vera með Kristi, segir sá maður, sem uppnuminn var í þriðja himinn; hann óskaði ekki einungis eptir lausn sinni upp þangað, heldur að losast hjeðan og vera með Kristi. Þegar hinn heiðni spekingur var dæmdur til dauða, þá huggaði hann sig við þá von, að hann mundi koma á þann stað, er allir guðhræddir menn kæmu eptir dauðann. Hefði hann vitað, að guð væri opinberaður í holdinu og uppnuminn í dýrð, hefði hann vitað af hinum himnesku hersveitum, hinum algjörðu og rjettlátu öndum; hefði hann þekkt guð föður, son og heilagan anda, þá hina óskiljanlegu og óendanlegu veru guðs, sem veitir eilífa blessun með nálægð sinni, hefði hann vitað, að hann eptir dauðann mundi öðlast eilífa og óumræðilega dýrð, hversu miklu glaðari og öruggari í anda hefði hann þá ekki kvatt heiminn? En allt þetta vitum vjer, og erum eins vissir um það, eins og um það, sem vjer sjáum fyrir augunum. Hví skyldum vjer þá ekki fegnir vilja skipta þessum vorum vesæla dauðlegleika fyrir fagnaðarríkan og sælu-

fullan ódauðlegleika? Hve indæl eru ekki orð þau, sem hinn háaldraði Símon talaði, er hann segir: „drottinn, láttu nú þjón þinn í friði fara, eins og þú hefur lofað, því augu mín hafa sjeð þitt hjálpræði!“ Já, það sem hann sá með augum líkamans, sjáum vjer með augum trúarinnar; hann sá hann í hans niðurlægingu, þú sjerð hann í hans vegsemd. Skyldir þú þá ekki fara hjeðan fús, ekki einungis í friði, heldur og með gleði? Hvílíkan sigur vinnur ekki hinn heilagi píslarvottur Stefán yfir öllum óvinum sínum, já, yfir sjálfum dauðanum, þegar hann sjer himininn opinn, og mannsins son standa við guðs hægri hlið? Guð birtir þá hina sömu himnesku og heilögu sýn fyrir augum sálar þinnar; því trúin er sá lykill, sem getur upp lokið dyrum himnaríkis. Festu þess vegna augu þín á þessu dýrðlega hjálpræði, og þú getur þá ekki annað en lagt líkama þinn til hvíldar, og afhent sálu þína guði, sem gaf þjer hana, með þessu auðmjúka en örugga andvarpi: ó, drottinn Jesú, meðtak þú minn anda!

## 84. Ráðstafaðu húsi þínu.

Þegar dauðinn nálgast þig, þá er það áríðandi skylda fyrir þig, ef þú með nokkru móti getur komið því við, að gjöra í tækan tíma ráðstöfun fyrir öllum þínum tímanlegu efnum. Þegar Esajasi var skipað að flytja Ezekiasi konungi

þau tíðindi, að hann skyldi deyja, þá kemur hann til hans með þessum orðum: ráðstafaðu húsi þínu (Kron. 38, 1)! Gakktu með reglu og skilum frá öllu, sem heimilishögum þínum við kemur, gjörðu þá samninga og ráðstafanir, sem nauðsynlegar eru í öllum efnum, er snerta þig og þína. Það getur opt orðið til hins mesta tjóns fyrir þá, sem eptir lifa, þegar sá sem burtu deyr, segir þeim ekki frá ýmsu, sem þeim ríður á að vita. Það eru rangindi við þá, sem hafa trúað oss fyrir einhverju, af því þeir báru traust til vor. Og hvernig geta menn líka dáið með góðri samvizku, ef þeir ætla sjer að leyna því, sem skylda þeirra er að segja? Þess vegna skaltu ráðstafa húsi þínu! Hafir þú haft eitthvað á hendi, þá sjáðu svo fyrir, að allt sje í reglu eptir andlát þitt, að fullkomin grein og skil verði gjörð fyrir hverju einu, svo að þeim sem eptir lifa, stofnist ekki vandræði vegna hirðuleysis þíns. Vor dýrmæti frelsari, sem með dæmi sínu kenndi oss að deyja, eins og hæfir, áleit það ekki heldur of lítilfjörlegt, að hugsa fyrir sínum munaðarlausu ástvinum, áður hann skildi við þennan heim; hann vildi ekki hjeðan fara, fyr en hann, og það á krossinum sjálfum, var búinn að sjá sinni fátæku móður fyrir aðstoð og hjúkrun; þess vegna fól hann hana lærisveini sínum, Jóhannesi, með þeim orðum: sjá það er þín móðir! Annastu hana fyrir mig, og álíttu eins og

hún væri móðir þín! Og lærisveinninn, sem elskaði innilega meistara sinn, er þá var staddur í andlátinu, hlýðir undir eins vilja hans, því hann tók hana þegar að sjer upp frá þeirri stundu. Í þessu hefur þá Jesús gengið á undan þjer með sínu lærdómsríka eptirdæmi. Hafðu það ætíð vakandi fyrir þjer, að þú mátt ekki vita, nema það kunni þá og þegar, ef til vill, að verða um seinan; nema það geti fljótar en varir að borið, að þjáningar eða veikleiki yfirþyrmi þig svo, að þú eigir bágt með, eða fullkomið óráð gjöri þjer jafnvel ómögulegt, að gjöra grein fyrir vilja þínum. Þess vegna skaltu ekki fresta því til morguns, sem þú getur gjört í dag.

En hafir þú svo vel, sem þjer er unnt, ráðstafað húsi þínu, og þú sjerð dauðastundina nálgast, ó, svo losaðu huga þinn við allt jarðneskt, og íhugaðu með því meiri alvörugefni það fótmál, sem fyrir þjer liggur, og þá eilífð, sem þú stefnir að. Hvað ætti þjer líka að ganga til þess, að vilja lengur mæða þig með þessu hinu jarðneska, eða binda hjarta þitt og huga við það? Þú getur svo ekki haldið því lengur hvort sem er. Sjerhvað sem þú hefur átt, hvort sem það var mikið eða lítið, máttu nú til að álíta eins og það, er þú eigi lengur getur haft gagn af; því hvorki getur þú tekið með þjer hið minnsta af því, og svo gæti það

eigi heldur komið þjer að neinum notum, þar sem þig nú ber að. Minnstu þess er skáldið segir:

Ó, guðdómskraptur! uppfyll vort geð
á dauðastundu hæstu huggun með,
að vjer engu virðum allan heimsins blóma;
um eilífðar hirðum að eins dýrð og ljóma.
Herra, heyr þá bón!

## 85. Bráður dauði.

Margir álíta hastarlegan dauða eins og eitthvað skelfilegt, og óska einungis, hvað sem svo tekur við fyrir þeim að öðru leyti, að drottinn svipti þeim ekki með mjög bráðum dauða burt úr heiminum. Það er að sönnu satt, að af því þess konar dauðdagi kemur svo óvörum, þá er hann ætíð mjög tilfinnanlegur fyrir þá, sem eptir lifa, og þá, sem að manninum standa; það er líka víst, að bráður dauði getur orðið hættulegur fyrir iðrunarlausan syndara, af því hann leyfir honum ekki tíma nje tækifæri til iðrunar. En hafi náð guðs leitt þig til sannarlegs apturhvarfs, svo að þú ert sannarlegt guðs barn, ó, þá þarftu engan veginn að hræðast bráðan dauða. Þú getur með rósamri samvizku falið dauðdaga þinn honum á vald, sem með svo mikilli speki og gæzku stjórnar öllum þínum æfikjörum, og þú mátt hugga þig við það, sem maður nokkur ráðvandur og sannkristinn

sagði, sem hafði þann veikleika, að hann bjóst allt af við, að verða bráðkvaddur: hvort sem jeg dey úti eða inni, þá hníg jeg í faðm Jesú míns! Ef þú lifir í trúnni á guðs son, og hagar þjer henni samkvæmt, þá skaltu líka deyja í drottni, þegar andlátsstund þín kemur; og hann mun veita móttöku sálu þinni, þegar hún er laus úr fjötrum líkamans. Hvort sem elding lýstir þig til bana, eða snögglegt öngvit gjörir enda á lífi þínu, eða þú deyrð í rúmi þínu eptir langa legu, þá gjörir það velferð þinni ekkert til. Hvort sem andlátsstundin kemur yfir þig í skyldustörfum þínum, eða í guðrækilegum athöfnum; hvort sem þú í þann svipinn ert að hugsa um jarðneska eða andlega hluti, stendur á sama; þú ert þó aldrei nema veikur og breiskur maður; og þó dauðinn komi að þjer á freistinga stundu, þá er þjer hefur yfirsjest í einhverju, og þó þú þá strax verðir kallaður fyrir hinn eilífa dómara, þá áttu ekki að kvíða því, að hann muni dæma þig einungis eptir þessu augnabliki, eða eptir því sem þú hefur hugsað, talað eða gjört í þann svipinn, heldur eptir því lausnargjaldi, sem fyrir þig hefur verið látið, og eptir því hugarfari, sem hann veit, að ríkast er fyrir hjá þjer. Eigi að síður er það þó víst, að af því það getur æfinlega að borið, að þú bráðlega verðir kallaður burt hjeðan, þá ætti það að minna þig á að vera ávallt viðbúinn,

og hafa vakandi fyrir þjer orð Jesú: vaki þjer, því þjer vitið ekki þann tíma og stund, er herra yðar kemur!

## 86. Samfundir manna í eilífðinni.

Þessi inndæla tilhugsan: vjer skulum sjá vini vora í dýrðinni, búa saman við þá og eilíflega vera hjá þeim, getur í svartasta myrkri sorgarinnar borið blíðan ljósgeisla inn í vort harmþrungna hjarta. Jesús gefur oss líka fulla vissu um þetta, því hann, vor sigursæli friðþægjari, sem situr nú til hægri hliðar föðurnum, hefur gefið oss það loforð, sem aldrei getur brugðizt: þegar jeg er burtu farinn, og hef til búið yður stað, mun jeg aptur koma og taka yður til mín, svo að þjer sjeuð þar sem jeg er (Joh. 14, 3); og á öðrum stað segir hann: jeg vil, að þeir sem þú gafst mjer, þeir sjeu hjá mjer, þar sem jeg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mjer (Joh. 17, 24). Sje vinfengi og ást einhver æðsta og ómetanlegasta sælan í þessu lífi, svo æfi vor líður þá ánægjusamlega; ef vjer, í sameiningu við ástríkan og tryggan vin, berum með þolinmæði þyngstu þrautir lífsins, er vjer getum í trúnaði útausið við brjóst hans öllu því, sem oss liggur á hjarta, og ávallt vænt af honum góðra ráðlegginga, uppörfana og huggana, ó, þá mun hann, hinn eilífi og algóði faðirinn, sem vill láta eina og sjerhverja skepnu sína

vera svo sæla sem auðið er, hann mun sannarlega í eilífu lífi lofa oss, að njóta hins sæla fagnaðar óslítanlegrar vináttu, miklu fullkomlegar og dýrðlegar, en í þessu lífi. Vjer skulum sjá vini vora og þekkja þá, — þá, sem hjer sykruðu oss lífið, og gjörðu oss hjervistina svo ánægjusama. Lazarus þekkir Abraham, talar við hann og umgengst hann. Abraham þekkir hinn ófarsæla eyðslumann; og þó hann væri þess ekki verðugur, að koma á fund Abrahams, þá svarar hann honum þó blíðlega upp á bæn hans. Hann ávarpar hann með hinu blíða nafni: sonur! Abraham segir honum að sönnu beiskan sannleikann, en hann hæðist ekki að kvölum hans, talar ekki við hann hörðum og bitrum orðum. Elskan mun þess vegna í öðru lífi verða aðalsæla hinna fullsælu. Ó, hve ástrík, hve sælufull mun því ekki sambúð vor verða á himnum! Vjer skulum í eilífu lífi sjá og þekkja hvor annan, og búa saman; fyrir augliti guðs skulum vjer á síðan finna ástvini vora, sem óttuðust guð, þá hina ráðvöndu og góðu sál, sem vjer elskuðum og vorum svo innlífaðir. Hjer skulu þeir foreldrar, sem áður hörmuðu svo sárt, finna börn sín, þau hin efnilegu börnin, sem þeir væntu sjer af ánægju og aðstoðar í ellinni, skulu þá sjá þau algjörð og dýrðleg, ríkuglega gædd háleitri þekkingu og sælu. Þá skulu þeir kannast við spekina í ráðstöfun guðs;

því á síðan skulum vjer finna þá, sem voru hjer yndi og ánægja lífs vors, og þeir skulu eilíflega hjá oss vera. Í öðru lífi fæ jeg að sjá alla hina ástkæru samferðamenn, sem elska Jesúm af hjarta og hlýða trúlega orðum hans; jeg fæ að sjá farsæld þeirra, og það gjörir sjálfan mig að sælli; og sameiginleg farsæld vor allra vex við það, að vjer lifum þá saman í skoðun, eins og vjer lifðum hjer í trú. Þessi von skal uppörfa mig, til að verja svo því sem eptir er æfi minnar, að jeg búi sjálfan mig sem bezt undir sæla samfundi í eilífðinni. Þó mín grátnu augu sjái hjer ekki annað umhverfis mig, en sorg og andstreymi, ó, þá skal jeg þó í voninni líta upp úr þessum táradal til sælunnar fagnaðarríku heimkynna. Guð veit, hve langt þess er að bíða, að líkami minn verði lagður í reit hinna dauðu; en þegar að því kemur, að jeg losna úr þessari tjaldbúð dauðlegleikans, hver mun þá fagna slíkum fögnuði sem jeg, er jeg fæ að sjá þá aptur, sem jeg elskaði, íklædda dýrðlegum líkömum, skínandi í himneskri sælu? Sjá, þessir eru það sem sloppnir eru úr þjáningunni, og hafa þvegið klæði sín og gjört þau hrein í blóði lambsins; þess vegna standa þeir frammi fyrir hásæti guðs, og þjóna honum dag og nótt í musteri hans, og hann, sem situr í hásætinu, mun tjalda yfir höfði þeim; þeir skulu ekki framar finna til hungurs eða þorsta, ekki held-

ur bakast af sólarhita. Því lambið, sem er í miðju hásætinu, mun gæta þeirra og léiða þá að vatnslindum, og guð mun þerra öll tár af augum þeirra.

## 87. Samfundir manna í eilífðinni.

Þegar maður íhugar hið góða, sem hann hefur notið í heiminum, hugsar um ánægjur þessa hins nærveranda lífs, ætti hann þá ekki að minnast ástvina sinna, þeirra manna, sem hann var samferða í lífinu, og hann unni af hjarta? Og væri dauðinn annars konar aðskilnaður, en verður á milli vina, þegar einn þeirra fer á undan í það land, er hinir skulu koma á eptir vonum bráðara; ef vjer skildum á grafarbarminum fyrir fullt og allt; já, þó vjer ættum svo sjálfir að lifa um alla eilífð, án endurminningar og kærleika, þá hefðum vjer þó mist það hjer á jörðu, sem engin eilífð gæti bætt oss. En landið sem vjer förum til, er land samfundanna, því þar finnast þeir aptur, sem skildu hjer. Í því landi, þar sem skýið fellur frá augunum, þar sem sjerhvert táldrag hverfur, mætast þeir, sem ekki vildu sættast hjer, meðan þeir voru staddir saman á veginum, þeir, sem skildu í reiði og óvináttu; í landinu því, þar sem ekki er farið að mannvirðingum, finnast þeir, sem hjer í heimi gjörðu hvor öðrum rangt, þeir hinir voldugu, sem misbrúkuðu valdið, fyrirlitu hina lítil-

mótlegu, skiptu sjer ekki af hinum saklausa, undirokuðu hinn munaðarlausa; en einnig hinir lítilmótlegu, sem skeyttu ekki um lög og reglu, sem smánuðu þá er vildu þeim vel, sem möttu einskis hið góða sem þeim var gjört; þar finnast þeir, sem hjer á jörðu voru kallaðir vinir og vandamenn, en sviku bæði trúnað og skyldu, menn og konur, foreldrar og börn, sem ekki bjuggu saman með ástúð, sem daglega gjörðu hvort öðru rangt, og voru hvort öðru til mæðu í lífinu. En, algóði guð! þar lætur þú líka þá finnast, sem hjer skildu í friði, sem fylgdust að með trúmennsku þann tíma, sem þú unnir þeim að búa saman, sem gjörðu hvor öðrum gott á jörðunni; þar finna þeir, sem ástunduðu rjettlætið og iðkuðu miskunsemina, þá, sem þeir tóku að sjer, og sem nú aptur fagna þeim í hinum eilífu híbýlum (Lúk. 16, 9). Þar finnur móðirin barn sitt, barnið móður sína, og maður og kona og vinir, sem fóru einförum milli leiðanna, finnast aptur, ekki eins og hjer, til að lifa við þjáningar, raunir og skort, ekki með því skilyrði sem hjer var, er þeir vita ekki nema skilnaðarstundin komi þá og þegar, heldur uppyngdir úr uppsprettum ódauðlegleikans, og skínandi í ljóma eilífs lífs. Þar fáum vjer líka að skoða þig, drottinn vor og frelsari! sem vjer þráðum svo opt á vorri mæðusömu vegferð hjer. Hve mikil og fagnaðarrík voru þau tíðindi, sem

postular þínir forðum heyrðu: „hinn krossfesti er ekki í gröfinni, þar sem þeir ljetu hann, hann er upprisinn, hann fer á undan yður til Galileu; þar skuluð þjer sjá hann, eins og hann sagði yður fyrir“ (Mark. 16, 6, 7). Ó, væri enn þá til einhver Galilea á jörðunni, þar sem vjer gætum sjeð þig, hversu fúsir mundum vjer ekki fara þangað, eins og margt guðrækilegt hjarta hefur haft huggun, einungis af því að sjá þá staði, er þú dvaldir á, jafnvel þó þú fyrir löngu værir vikinn þaðan. En þó að augu vor fái aldrei að líta þig hjer, í þessu landi dauðleg-leikans, þá stendur það þó enn stöðugt, að þú ert einungis farinn á undan oss, að sá staður er til, þar er vjer fáum að sjá þig, eins og þú hefur lofað. Því þú lifir og vjer skulum lifa, og hjá þjer í ríki þínu lifa allir þeir, sem láta eptir sig á jörðunni heiðarlega minningu um tilveru þeirra, allir þeir, sem mannkynið hefur kallað ágætismenn sína, en þú kallar þína út-völdu; þeir eru hjá þjer, og vjer verðum tekn-ir í fjelag þeirra, annaðhvort strax, eða þá smám-saman, eptir því sem vjer verðum hæfir til; því eilífðin er svo löng, að þar geta allir náð sam-an, sem heyra til hins mikla safnaðar, er þú safnar í öllum bæði lifandi og dauðum!

## 88. Hinn síðasti sigur.

Lífið skal sigra — já dýrðlegan sigur skal lífið

vinna, þó það sýndist hjer snögglega líða undir lok; því í gegnum þá hina stórkostlegu umbreytingu, er vjer köllum dauða, og allar hans skelfingar, gegnum niðmyrkur og helkulda grafarinnar, skal það hefjast til ódauðlegleika og eilífs ljóss. Ó, hversu vegleg og fullkomin verður ekki þessi síðasta sigurvinning lífsins! Sjerhvað, sem hjer á jörðu eitraði ánægju lífsins og spillti fögnuði þess, sjerhvað, sem dró dapra skýlu yfir þess fegursta eptirlæti, skal afmást og hverfa eins og þokan, sem hin blíða sól eyðir og tvístrar. Ó, þegar hann rennur upp, sá hinn mikli sigurhróssdagur lífsins, og friður og sæla ljómar í geislum hans, þá mun það hjarta læknast, sem hjer á jörðu brast í sundur af sárum og sviða; þá mun augað, sem grátandi lokaðist svefni dauðans, ljóma af fögnuði og von; þá munu þær varir, sem svo opt ljetu heyrast stunur af viðkvæmum harmi, eða kvartanir af sárum þjáningum, uppljúkast til fagnaðarhljóms og lofsöngva. Já, þú sem andvarpaðir undir þungum byrðum, þú, sem jörðin þókkti dimm, og vegurinn á henni þyrnum stráður, þú, sem ekki gazt haft neina ánægju af þeirri fegurð og skrauti, sem bræður þínir voru svo innlífaðir, af því þú varst sjálfur svo gleði- og ánægjulaus, þú, sem varst svo frásneiddur öllum, svo einmana og harmþrunginn, þó allir væru glaðir í kringum þig, þú, sem engan hafðir, er

þú gætir leitað hælis hjá, engan, er þú gætir útausið fyrir hjartans sáru tilfinningum, ó, vertu glaður! þegar lífið vinnur sinn síðasta dýrðlega sigur, og óvinir þess eru að velli lagðir, og nöfn þeirra eiga sjer ekki framar stað á sælunnar landi, þá upphefur þú aptur höfuð þitt með glaðværð, og þá hljómar með þakklæti af vörum þínum í dýrðinni þessi lofsöngur: guð gjörði allt vel! Himininn græðir þau sár, sem jörðin greiddi; eilífðin sameinar þá ástvini, sem tíminn aðskildi; þar sem allt hið gamla hverfur, þar sem dauðinn skal ekki framar vera til, eða andvarp, eða vein, eða þjáning, þar sem lífið heldur sitt dýrðlegasta sigurhrós, þar sem sjerhver hugarsorg skal hverfa, og sjerhvert tár verða af þerrað, þar skaltu kannast við það með gleði og undrun, að einnig sá hinn torsókti og hræðilegi vegur, sem hlutfall þitt var að ganga hjer á jörðu, er vegur miskunar og gæzku.

## 89. Upprisan.

„Vjer trúum upprisu líkamans“, hafa kristnir menn sagt frá aldaöðli. Ekkert trúaratriði er dýrmætara og mikilvægara en þetta. Margir eru til sem að sönnu játa, að hið andlega í manninum sje ódauðlegt, en sýnast þó halda það komi fram í öðrum verum, eins og hold og blóð leysist sundur í jörðunni, og samlagast

svo öðrum líkömum, og kemur fram í öðru sambandi; þeir segja hinn andlegi kraptur viðhaldist, en hinn sami maður sje ekki til framar, sú meðvitund sje ekki til framar, er kom manninum til að segja hjer á jörðunni: jeg er sjálfur hinn sami frá byrjun æfi minnar til ellidaga, hvernig sem allt breytist; þeir segja, að hinu megin grafarinnar sje engin endurminning hins umliðna til, heldur muni það allt sökkva niður í djúp gleymskunnar, og aldrei koma þaðan aptur, öll synd og öll afbrot og allur óguðlegleiki, og öll góðverk og allt trúlyndi og allur kærleiki muni hverfa, eins og draumar næturinnar, og enginn muni minnast þess að eilífu. Ekki veit jeg hvort nokkur, sem þessu trúir, getur verið kvíðalaus, en hjarta mitt fyllist fögnuði, og andi minn gleður sig í guði frelsara mínum, þegar jeg endurtek hina kristilegu játningu og segi: jeg trúi upprisu líkamans. Því þegar líkaminn rís upp, þegar hinn sami, ódauðlegi, andlegi líkami kemur fram af hinum, er eyðist, þá er það ekki ný vera, sem kemur í ljós, heldur hinn sami maður, er guð hafði áður skapað og áður þekkt, og hafði verið ein af hugsunum hans, og getur því hvorki gleymst, eða týnzt. Það er ekki önnur vera, er mæta skal fyrir dómaranum á himnum, heldur sjálfur þú, hinn sami, sem gekkst veg þinn frá vöggunni til grafarinnar hjer á jörðu, og gjörðir þín-

ar munu fylgja þjer, því þú hefur framið þær sjálfur. Það sem ekki heyrðist hjer fyrir hávaða, mun þar hljóma hátt og skýrt; það sem gleymdist hjer smámsaman, geymdist samt í djúpi meðvitundarinnar, og mun birtast, þegar bókunum á himnum verður lokið upp, og guð allsvitandi, sem engu gleymir, leiðir það í ljós eins og sjálfan þig. Þar mun hver maður heyra rödd hins rjettláta; þar munt þú sjálfur heyra, en enginn annar — annaðhvort hina óttalegu rödd, er svo hljóðar: farið burt frá mjer, illgjörðamenn! eður hina sælu rödd, þá er hin eilífa líknin segir við alla þá, sem sóktust eptir ríki hans og rjettlæti, við sjerhvern, er hann hefur fyrirgefið syndirnar og skýlt afbrotum hans, og litið miskunsamlega á trú hans og viðleitni: vel hefur þú gjört, góður og dyggur þjón! þú varst trúr í litlu, jeg mun setja þig yfir meira; gakk inn í fögnuð herra þíns! Það var ekki annar frelsari, er uppreis úr gröfinni heldur hinn sami Jesús, sem þeir krossfestu, svo að þeir gætu sjeð, hvern þeir hefðu stungið; það er ekki annar frelsari, sem er í dýrðinni, heldur hinn sami sem var á jörðunni, sem elskaði oss og seldi sig fram vor vegna, og fór burt að fyrirbúa oss stað. Og þannig munum vjer og hjá honum finna hina sömu fornvini og tryggðavini, er skildu við oss hjer á jörðu, og komnir eru burt á undan oss, svo og

líka smámsaman þá, er síðar munu koma. Ó, er hin kalda spekin betri en hin varma, og sú er særir, betri en sú er græðir og huggar með eilífri og himneskri huggun? Jeg fyrir mitt leyti hverf eptir öll þau hyggindi jeg hef lært, og alla þá þekking jeg hef öðlast í veröldinni, aptur til þeirrar tilfinningar, er bærðist í brjósti mjer, er jeg eygði fyrst morgunroða eilífðarinnar, og jeg vil einlægt feginn vera barni mínu samdóma, og hverjum kristnum manni, sem segir í einfeldni og hreinskilni: jeg trúi upprisu líkamans! því þá trúi jeg því, að jeg muni sjá blessun drottins á landi hinna lifendu, og að jeg muni ganga fyrir augliti guðs í ljósi lifandi manna.

## 90. Upprisa líkamans.

Fyrst vjer vitum og erum fullkomlega sannfærðir um, að upprisa er í vændum, þá látum oss íhuga, hvernig vjer eigum að læra af því að lifa heilögu og guðrækilegu líferni, meðan vjer búum hjer á jörðu. Sje upprisa til, þá hlýtur sáluhjálplegur dauði að ganga á undan, með því að menn láti algjörlega af syndinni; þetta kallast hin fyrri upprisa, því sá sem iðrast af hjarta synda sinna, biður guð fyrirgefningar á þeim, lofar því guðrækilega og líka efnir það, að hann aldrei framar skuli aðhyllast nje þjóna syndinni, hann er upprisinn frá

dauða syndarinnar, og orðinn eins og nýr maður. Sæll er sá maður, sem auðnast að verða hluttakandi í þessari hinni fyrri upprisu, því yfir honum hefur hinn annar dauði ekkert vald! Sje upprisa til, æ, því lifa þá margir eins andvaralaust og enginn guð væri til, sá er vildi umbuna góðverk og hegna illverkum? Hver sem vill eiga þess von að upprísa til sáluhjálpar, hann verður að ástunda að deyja sáluhjálplega, því eins á sig kominn og hann deyr, eins skal hann og upprísa. Ef þú deyrð í trúnni á guðs náð í Kristi, þá skaltu upprísa í trúnni og fyrir guðs náð; en ef þú vilt deyja sáluhjálplega, þá verður þú að lifa kristilega, því kristilegu líferni fylgir sáluhjálplegur dauði. Þar sem Páll talar svo greinilega um upprisu dauðra í fyrra brjefi sínu til Korintumanna 15. kap., þá endar hann með þessu: vaknið fyrir alvöru og syndgið ekki, því sumir þekkja ekki guð! Kristur tekur báðar upprisurnar saman, og talar um hina fyrri, eins og fyrirrennara hinnar síðari, hina fyrri í bót og betrun, hina síðari í sælu og sáluhjálp, því hann segir: sannlega segi jeg yður, sá tími kemur og er þegar kominn, að hinir dauðu skulu heyra raust guðs sonar, og þeir sem heyra hana skulu upprísa, sumir til lífs, en sumir til dóms. Það sem í upprisunni á að geta grænkað og blómgast, hlýtur áður að hafa verið gróðursett hjer á lífsins trje

með trúnni; hver sem vill upprísa með Kristi, eins og höfði sínu, hlýtur áður að hafa verið sannur limur á líkama hans, og lifað í honum hjer á jörðu. Hver sem í þessu lífi hefur barizt hetjulega við alla hina andlegu óvini, og hefur sigrað þá með fulltyngi Krists, hann getur sagt með djörfung á sinni dauðastundu: jeg hef barizt góðri baráttu. Góðum guði sjeu þakkir, sem hefur gefið mjer sigur fyrir Jesúm Krist! Guð efli og styrki með sínum heilaga anda trú vora og von um upprisuna, svo vjer getum með þolinmæði gengið í gegnum þjáningar lífsins, lifað kristilega og dáið sáluhjálplega fyrir sakir Jesú Krists!



# Hugvekjur

til vissra daga.

---

## 1. Á síðasta sumardag.

Þar sem vjer nú erum að segja skilið við hið blíða og inndæla sumar, þá má ekki minna vera, en að vjer, til verðugrar lofgjörðar og þakklætis við gjafarann, verjum svo sem einni stund, til að virða þessa hans minnilegu gáfu fyrir oss, ef ske mætti, að vjer með því upphvettumst fyrir endurminningu alls hins góða, er vjer höfum meðtekið, til þeirra tilfinninga og áforma, sem samboðnar eru gæzku guðs. Það sem manni þá fyrst og fremst á að vera minnilegt eptir gott sumar, er fólgið í þeirri líkamlegu blessan, er fylgt hefur erfiði voru og atvinnu, er ávaxtað hefur sveita vorn og bjargræðis útvegu, er drýgt hefur vor aflabrögð og aukið vorar birgðir, svo að vjer sjeum færari að mæta vetrartímanum. Mennirnir geta einungis sáð og plantað; en það er guð, sem gefur ávöxtinn; þeir geta einungis undirbúið uppskeruna, tilreitt jörðina og hlúað að skepnunum; þeir geta dregið sig eptir björginni af sjó og landi, þeir geta birt

og hagnýtt sjer það, sem þeir abla, og látið ekki ábresta neitt, sem í valdi þeirra stendur, til þess að uppskeran verði yfirfljótanleg eður nægileg; en fyrir því verður margopt ávinningurinn lítill, fyrir því mega þeir opt líða skort og fá ekki þarfir sínar uppfylltar; því það er ekki í þeirra valdi að gefa jörðunni gróða; þeir geta ekki hindrað, að ein frostnótt — þegar svo ber undir — verði að bana ótölulegum grúa af hinum blómlegu ungu grösum, sem jörðin þurfti margan hlýjan dag, marga raka nótt til að framleiða; þeir geta ekki varnað hitanum að þurka svo jarðveginn, að grösin þrífizt ekki fyrir þorsta — nje heldur regnunum að kæfa þau undir af of miklum vatnsþunga; þeir geta ekki greitt frá sólunni skýbólstrin, nje hindrað ofurefli stormanna frá að lemja jörðina og þeitast um loptið, svo að hinir vermandi geislar hafi ekki næði til að verma hinn kalda svörð, að endurlífga jörðina, svo að fjenaðurinn þroskist og ávaxtist. — Það er ekki í mannanna valdi að frjófga jörðina með gróðrarskúrunum, eða skamta þurkana að vild sinni og þörfum, svo það nýtist vel, sem hann hefur til meðferðar, svo að uppskeran verði honum arðsöm. Það er ekki í mannanna valdi að haga svo veðri og sjó, að þau flýti mannlegum fyrirtækjum, að þeir aldrei mæti neinni hindrun af loptsins óblíðu, aldrei af árásum og mótþróa höfuðskepnanna; — þetta er

allt í valdi drottins, sem vindur og sjór hlýðir. Hann er það sem gefur dögg af himni og frjófsamar árstíðir, og setur takmörk bylgjum sjáfarins, sem þær fá ekki komizt yfir. Ef að þetta er vitnisburðurinn um hann, ef að þetta er einkenni hans, að hann sje öllum góður, þá hefur gefið til, að verða var við hann á þessu liðna sumri. Mega ekki flestir játa það meðal vor, mega þeir ekki komast við af því í þakklætisfullu hjarta, að sýslanir þeirra hafa blessast svo vel, að þeir á þessu umliðna missiri hafi mætt svo fáum sem engum hindrunum í viðskiptum við náttúruna, í sambúð við lopt, jörð og sjó? — Það er ekki að búast við, að vjer á þessu sumri, heldur en endrarnær, höfum fengið allar óskir vorar uppfylltar; það er ekki að búast við, að vjer á einu sumri höfum getað til margra ára safnað; guðs vegir eru ekki vorir vegir — og því er ekki að búast við, að hann heyri allar vorar fávísu óskir, að hann metti alla vora löngun, að hann uppfylli svo allar þarfir vorar, að vjer mættum hjeðan af leggja höndur í knje. En megum vjer þó ekki vera ánægðir við skaparann fyrir þá blessun, er hann hefur úthellt yfir oss á umliðnu sumri, fyrir þann ávöxt og þá farsæld, sem hann gaf erfiði voru og sveita, fyrirtækjum vorum og bjargræðis atburðum? Og ef svo er — þykir oss þá ekki í þetta sinn skylt að þakka skaparan-

um fyrir blessun sína, að þakka honum fyrir það, að hann var með oss í öllum sýslunum vorum og fyrirtækjum? — Hin svo kallaða dauða náttúra — grösin, sem stíga upp af jörðunni á gróðrartímanum, — minna oss jafnvel á að lypta huganum til skapara vors, að komast við af hans miskunsemi, sem vjer lifum og hrærumst í, af hvers náð vjer bærumst í vökunni, og drögum andann þá vjer sofum, og fyrir hvers aðstoð erfiðismanninum verður starfið ljett og hvíldin vær. — En hvað getum vjer ó, guð! látið þjer í tje? Allt sem vjer köllum vort, allt sem vjer eigum og höfum undir hendi, það eru allt gjafirnar þinnar góðgirni; sjálfir erum vjer verkin þinna handa; vort líf og sál heyrir þjer til! Það sem í voru valdi stendur, skulum vjer gjöra, ef þú veitir oss þinn styrk til þess; vjer skulum hagnýta oss þínar gáfur, eins og vjer höfum lært að þinn vilji er til; vjer skulum uppfylla vor hjörtu með þakklæti og lofgjörð til þín; vjer skulum mikla verkin þinna handa, víðfrægja þína miskunsemi frá einni kynslóð til annarar, og blessa þitt nafn um allar ókomnar aldir. En fyrst að vjer getum í engu aukið þína dýrð eða þitt veldi, og það er þinn vilji, að hugarfar vort til þín komi fram á bræðrum vorum — þá er ekkert tilhlýðilegra eptir hin arðsömu sumurin, en að vjer sjeum fúsir til að liðsinna þeim sem bágt eiga, að gjöra þeim þol-

anleg vetrarins harmkvæli, sem með einhverjum hætti án eigin tilverknaðar hafa bagast í að njóta góðs af hinum arðsama tímanum, eða voru svo á vegi staddir, að þeir gátu ekki fyllilega bætt úr nauðþurft sinni, þó þeir hefðu til þess alla viðburði. Þessum skulum vjer miðla af því sem vjer höfum afgangs, svo þeim geti vegnað vel eins og oss; vjer skulum láta þá finna hjá oss viðkvæmt hjarta, sem við minna lán eiga að styðjast, heldur en sjálfir vjer, með því að minnast þess: að allt sem vjer höfum, höfum vjer líka þegið. Já, í sumarblíðunni, sem vermdi oss, fundum vjer til elsku þinnar, gæzkuríki faðir! sem lætur sól þína upprenna yfir vonda og góða, og frjófsemisskúrirnar koma jafnt yfir rangláta og rjettláta; því með hinum sama óendanlegum kærleikanum umfaðmar þú allar skepnur þínar. Hann skal þá verma í hjarta voru elskuna til þín; og fyrst að það er þinn vilji og þitt boð, að vjer auðsýnum elskuna til þín, með því að elska hvorjir aðra innbyrðis, þá skulum vjer og einnig láta þær blíðu stundirnar, er þú lætur koma yfir oss, verma í hjörtum vorum elskunnar il til allra þeirra, sem bera þína mynd eins og vjer, til allra þeirra, sem eins og vjer eru þín börn, kalla þig föður sinn og eru skapaðir til arftöku í ríki þínu!

Með þessum ásetningi, að ástunda að þóknast þjer, guð drottinn! með iðkun sannrar mann-

elsku, skulum vjer þá kveðja sumarið; og þá getum vjer líka, eins og þín ástfólgin börn, með glaðværum anda horft fram á þann tímann, sem fer í hönd, því vjer vitum að höfuðskepnurnar eru einnig í hendi vors himneska föðurs. Í hríðunum, í þrumunum og eldingunum auglýsir hann eins almætti sitt og gæzku sína, eins og í blíðviðrinu; hann er eins að finna þó áharðni, og hans hönd er fullsterk til að vernda oss fyrir og frelsa oss frá hættunum, þó að höfuðskepnurnar geisi í móti oss. Vjer þurfum því ekki að hræðast fyrir það þó að vindarnir hristi húsin, þó að fannfergjan tilbyrgji jörðina, þó að kuldinn nísti fjenaðinn á þessum vetri. Vjer vitum, drottinn! — og það gjörir oss örugga, vjer vitum að þitt auga vakir yfir oss, þín hönd styður oss, þitt eyra heyrir vorar andvarpanir. Vjer vitum að þín náð stjórnar öllu, þín elska útbýtir öllu, eins og þínum skepnum bezt hagar. Og eins og vjer öruggir af þessu trúnaðartrausti tökum á móti komandi vetri, eins erum vjer þess fullvissir, að erfiðu tímarnir skulu einnig enda taka; því það er óbrygðullt, að eptir skúrina kemur skinið, eptir veturinn sumarið, svo vjer ávallt getum hresst oss við vonina, að blíðir dagar eru í vændum, þegar hinum er lokið.

Þannig skal þá ljós trúarinnar, vonarinnar og kærleikans upplýsa í vetur vegi vora, þó

þeir öðru hvorju taki að verða myrkvir; það skal lýsa oss svo í ófögru tímunum, að vjer sjáum hina fegri. Það er sú fullvissan, sem undir öllum erfiðleikum lífsins gefur styrk og hughreysti, sem vinnur sigur yfir öllu lífsins böli, að þrautadagarnir eru stuttir og fyr á enda en varir; og eptir að þeir eru afstaðnir koma aptur blíðudagar, sem umbuna það erfiðið, þá hreystina, sem stríðstíminn knúði oss til að sýna. Þar fyrir skulum vjer gleðja hvorjir aðra, þó að þessi vetur verði oss erfiður; ekkert skal veikja hjá oss traustið til vors himneska föðurs, sem þá er næstur þegar neyðin er stærst.

Svo látum oss þá sumarið kveðja með þakklæti við drottinn fyrir hið umliðna, og með glaðværu trúnaðartrausti á miskun hans og trúfesti framvegis. Vjer þökkum þjer, gæzkuríki faðir! fyrir þá blíðu dagana, er þú gladdir oss með; vjer þökkum þjer fyrir þann ríkdóminn þinna gáfna, er þú auðgaðir oss með, fyrir þá velgengnina til lífs og sálar, er vjer nutum á umliðnu sumri! Lof og dýrð sje þjer fyrir allar þær ótölulegu gáfurnar, er vjer meðtókum af þinni mildu hendi — fyrir þá verndina, er þú hafðir yfir oss — fyrir þær ánægjurnar, er þú veittir oss við skoðun þinna dásemda. Fyrirgefðu oss allar þær yfirtroðslur, er vjer höfum móðgað þig með; haltu þinni hendi yfir oss á komandi vetri, vertu vor leiðtogi og vor vernd-

ari, vort hæli og vort skjól! Blessaðu öll vor efni, vor hús og heimyli, öll vor fyrirtæki, allar vorar athafnir á sjó og landi; en um fram allt gefðu oss þinn styrk, til þess vjer getum yfirunnið allar freistingar, allar tálmanir, sem draga oss frá þjer og þínum ótta! Láttu þinn anda hvíla yfir oss, að vjer hugsum, að vjer tölum og ástundum það eitt, sem þjer þókknast, sem til þess miðar að helga þitt nafn, að auka þitt ríki, að efla þinn vilja á himni og á jörðu!

## 2. Á fyrsta vetrardag.

Svo er þá enn einu sinni komið að því tímabili, sem vjer svo opt áður höfum átt fyrir höndum, sem vjer á næst liðnum tíma höfum sjeð álengdar og verið að búa oss undir, sem fyllti oss með tilhlökkun, er vjer fundum til erfiðleika þeirrar árstíðarinnar, sem heimti af oss starfsemi og sveita, sem olli oss kvíða og hrolls, er vjer nutum ununar af himinsins blíðu, og höfðum allsnægtir í náttúrunnar auðuga skauti, meðan sjór, jörð og himin lögðust á eitt til að auka unaðsemd vora og farsæld. — Sumarsins skraut er horfið, náttúran hefur tilbirgt sínar ríkdómsæðar. Vjer vitum hvað vjer eigum í vændum; sá tími er kominn, sem vjer eigum að búa að fyrirhyggju vorri, sem vjer eigum að neyta þess í næði, er vjer höfum aflað með ónæði og sveita; vjer eigum að taka

verðlaun fyrir vel brúkaðan tíma; vjer eigum að taka gjöld fyrir það, sem vjer höfum vanrækt eða illa stundað; vjer höfum enn að nýju fengið staðfest það guðs orðið: að meðan jörðin er við lýði, skal sáð og uppskera, frost og hiti, sumar og vetur ekki linna.

Veturinn er sá tími, er vjer megum neyta þess í makindum, sem vjer með starfsemi vorri og sparsemi höfum saman dregið um sumartímann. Sumarið er dagur ársins, en veturinn nótt; þess vegna er veturinn ætlaður til næðis og hvíldar; hann er ætlaður til að safna kröptum til næsta morguns, er erfiðistíminn byrjár aptur á ný. Og sannlega er veturinn ársins gleðitími, eins og kveldið er dagsins gleðitími; en eins og hvíldin verður sætust eptir erfiðið, svo verður og vetrargleðin manninum svo að eins affarabezt og ánægjulegust, að hann viti með sjálfum sjer, að hann hafi um erfiðistímann trúlega starfað; veturinn getur ekki verið honum gleðilegur, nema iðni hans og framsýni hafi svo fyrirsjeð, að skorturinn geti ekki hrjáð hús hans, að hann hafi nægilegt til viðurværis heimyli sínu. En þegar fyrir þessu er sjeð, er honum og heimilt að brúka nokkuð af því, sem hann hefur um fram sinn daglega, sparsamlega skamt, til endur og sinnum að gleðja sig í húsi sínu með náungum sínum. Maðurinn er ekki eingöngu skapaður til að erfiða, heldur líka til að njóta

erfiðis handa sinna, til að gleðja sig í verkum sínum. — Hvorttveggja var skaparans ætlun, að fylgdist að á sínum tíma, er hann tilbjó manninn þannig, að gleðin skyldi styrkja hann til erfiðisins, og án erfiðis yrði gleðinnar ekki notið. Veturinn er gleðinnar tími, hann er tími til að njóta ávaxta verka sinna, hann er endurgjaldstími erfiðisins. Það þarf nú varla að gjöra ráð fyrir því, að vjer gefum gleðinni of mikið rúm; hitt er fremur að óttast, að vjer eyðum vetrinum í drunga og deyfð; en það hlýðir þessum tíma ársins ekki betur; maðurinn þarf meiri upplífgunar við, að því skapi sem náttúran hefur færra að bjóða til unaðsemda; og um þennan tíma meðan jörðin kallar ekki til erfiðis, gefst mörg tómstund til að gjöra sjer glatt án þess að vanrækja neitt, sem skyldan býður. En öll vor gleði á að vera tempruð með hófi og siðsemi; hún á að búa innan hússveggja vorra, ná til allra þeirra, sem oss eru áhangandi; og hún á ekki einungis að vera fólgin í líkamlegri nautn, því andinn þarf líka fæðu, þar sem að lagi fer, þar sem að líf andans er vaknað.

En veturinn er ekki að eins sá tími, er kallar manninn til að njóta þess, er hann hefur aflað; hann er einnig harðindanna tími, þá lítið verður að sjer dregið til viðurhalds lífinu. Þessi tími einmitt útheimtir því mesta sparsemi og hagnýtni á öllu því, sem lífinu gæti orðið til

framdráttar, þegar annað skortir. Sá sem lítið hefur við að styðjast, hann má í tíma aðgæta ráð sitt, að hann eyði því ekki ónauðsýnlega fyrir tímann, sem með treiningi getur varið hann hungri á dögum harðindanna; hann verður að fækka sínum hvers dags nauðsynjum eins og hann getur, og venja sig snemma við lítinn verð, svo að skorturinn verði honum ekki eins þungbær, þegar hann ber að dyrum. Hann verður fyrir fram að yfirlíta forða sinn, að leggja vel niður hvað hann hefur — og hann mun komast að raun um, að reglusemi og gott ráðlag ber hjer, eins og annarstaðar, heillaríka ávexti, að hún drýgir hans fátæklegu efni, svo hann líður ekki nauð. — Á þessum tíma er það líka, sem hinn nauðstaddi knýr á hurð þína; þú mátt þá ekki lifa sjálfum þjer einungis. Þar verða margir, sem með ráðvöndu hjarta, sem með dugnaði og ástundan í sinni stjett, sem með sparsemi og framsýni geta ekki sjeð sjer og sínum borgið; þá máttu ekki líta svo á fátækt sjálfs þíns, meðan þú hefur enn nokkru að miðla, að þú látir hana afsaka þig frá að verða honum að liði. Þeir sem þá reynast bezt, og taka sjer næst til að verða þeim, sem bágt eiga, að hæli af kærleiksfullu og meðaumkunarsömu hjarta — einmitt þeirra góðfýsi vill herrann reikna sem sjer auðsýnda, er hann fer að álíta góðverk mannanna á síðasta degi; þeir hafa sjer fjár-

sjóð á himni safnað — þess vegna skal og drottins fyrirheit á þeim rætast: að þeir verði boðaðir til að njóta að verðlaunum eilífrar sælu í guðsríki, þegar þeir ekki lengur geta sáð velgjörningnm út meðal bræðra sinna hjer á jörðu.

En af því að veturinn er tími harðindanna, þá bendir náttúran sjálf manninum til hvíldar á honum, með því hún ekki lengur aðstoðar mannlega viðburði. En þó að vetrartíminn sje þannig hvíldartími þeirra, sem á jörðunni leita atvinnu sinnar, þá er þetta þó ekki svo að skilja, sem menn þá skuli sleppa öllum tökum. Við veturinn eiga sjer í lagi þau störfin, sem lúta að mentun andans og fullkomnun. — Jarðarinnar inntakandi fegurð og himinsins blíða hrífa á sumrin til sín ímyndun mannsins; en þegar veðrið tekur að kólna og jörðin fölnar, fer maðurinn að koma aptur til sjálfs sín, og þau áhrif, er sumarið vakti í hugskoti hans, sveyma fyrir ímyndun hans; hann fær hentugra næði þegar vetra tekur, til að bera saman sumarsins fegurð og afbreytingar, og vetrarins hátign; og norðurljósin og hin alstirndu vetrarkveld flytja hans lotningarfulla anda upp frá jörðunni gegnum hið bláa himinhvolf til hans, sem býr stjörnunum ofar, og stýrir hnattanna rás og þeirra forlögum, sem í þeim búa. Já, veturinn er sá tími ársins, sem bezt er til íhugunar lagaður og til að auka þekkingu sína; þá

eru makindi, hvíld og ró; aðrar sýslanir lífinu til viðurhalds kalla ei mjög að manni; það er fátt sem hann fái hindrað frá andans störfum, og hann má finna sína helztu unun í að leita sjer í þeim skemmtunar og endurlífgunar, meðan himinsins óblíða er sem mest. — Vetrartíminn er tími guðrækninnar; að vísu á allt vort líf að vera sífeld umgengni við guð; en eins og guð sendir mótlæti og hörmungar, til að vekja mennina af andvaraleysinu, til að gjöra þá vara við guðdóms hönd sína, sem í heimi spinnur mannanna forlaga þráð — þannig gjörir hann einnig annað veifið vindana og vetrarhríðirnar að englum sínum, og skruggurnar að sendiboðum sínum, til að laða til sín sonu jarðarinnar. — Það er ein af vetrarins miklu ákvörðunum, að vekja og viðhalda hjá mönnunum þekkingu og ótta guðs fremur öllum öðrum tímum ársins. Heimurinn verður svo ógeðslegur, þegar sólin hefur að kalla má horfið vorum sjónum, og næstum sífeld nótt er upp runnin yfir oss, að vjer getum ekki lagt höfuð vor til hvíldar, eður risið á fætur í myrkri næturinnar, nema hið himneska ljós guðs anda — ljós trúnaðartraustsins til hans — ljós trúarinnar, vonarinnar og kærleikans upplýsi hugskot vor og gefi hjarta voru styrk og endurnæringu. Þegar náttúran hefur um alla björg synjað, verður manninum tilfinnanlegust þörfin að snúa sjer til guðs,

sem gefur öllum sínum skepnum fæðu í hæfilegan tíma. Þegar biljirnir skaka húsin, og skriðurnar og snjóflóðin ótta bæjunum og lífi mannanna með grandi og eyðileggingu — þegar vatnsflóðin bylja niður — eru mennirnir fullir skelfingar og hræðslu, nema þeir hafi byggt traust sitt á þeirri hellunni, sem ekkert fær bifað — á orði guðs og hans fyrirheitum. — Í skruggunum og eldingunum vitjar hann vor á vetrarins stranga degi, með stormunum og straumum vatnanna lætur hann oss sjá, hvað líf vort hangir á veikum þræði, hvað kraptur vor er rír til mótstöðu, hversu vjer erum ekkert ef vjer dirfumst ekki að halda oss við hann, að eiga hann sem föður, að fela honum öll vor efni; því stormana lýkur hann í sínum hnefa, og hann setur takmörk sjáfarins bylgjum, er þær ekki fá yfir komizt. Já, ef vjer erum ekki þess fullöruggir, að þú, guð! sjert vort hæli og vor faðir, getum vjer ekki án skelfingar og örvinglunar upptalið og sett oss fyrir sjónir hinar ótölulegu hættur, sem vetrartíminn hefur búið vorn veika lífi. Dauðinn sýnist að umkringja oss á allar hliðar, en það eina er vor gleði og vort traust, að vjer vitum að vort líf er í þinni hendi, og dauðann ber oss ekki að höndum fyr en þú, hinn alvísi! álítur það nauðsynlegt til vorrar eilífu farsældar. Látum því bylgjurnar þeyta hinum ljettu fjölum, sem bera vort líf,

lítum afgrunnin undir fótum vorum, er ísalögin bera það yfir árstraumana; látum stormana kasta oss að jörðn og myrkviðrin firra oss allri sjón; ef að eins traustið til guðs handleiðslu ekki brestur sameinað með skynsamlegri fyrirhyggju, erum vjer öruggir, er vjer gegnum skyldum vorrar köllunar, að vor afdrif verða samkvæm vors himneska föðurs ráði, og hvort sem vjer lifum eða deyjum, sjeum vjer hans börn. Látum þá vetrarins alvöru knýja oss alvarlega til að leita guðs; gleymum ekki að fela oss honum, að hefja oss til hans í vorum bænum hvern morgun og hvert kveld þessa komandi vetrar. Látum guðs orð vaka á heimylum vorum meðan náttúran sefur, og vitum að andvarpanir vorar rata til guðs í næturmyrkrunum, og hann sendir hugsvölun og gleði hjörtum vorum! Látum svo engan dag fram hjá líða, að vjer ekki offrum nokkurri stund til guðrækni og bænahalds, til að auka þekkingu vora og rjettan skilning á trúarbrögðunum! — Harðindatíminn finnst oss þá ljettbær og stuttur, og guðhræðslan gjörir oss alla óblíðu geðfelda, sem oss getur að höndum borið. — Vjer biðjum þig þá, vor himneski faðir! vertu vor faðir, vor verndari, vort skjól og athvarf á þeirri árstíðinni, sem fer í hönd! Vjer felum oss þjer með lífi og sálu, með eignum og ástvinum. Farðu með oss eptir þínum náðar vilja, en gefðu oss að

eins þinn styrk til að gjöra oss þinnar elsku verðuga, svo vjer getum öruggir til þín kallað í öllu því óyndislega, sem oss má til handa bera; og leiddu oss að endingu gegnum allar lífsins óblíður til sælunnar lands, þár sem hinir útvöldu vermast af kærleikans sólaril á eilífðarinnar sumri!

## 3. Á aðfangadagskveld Jóla.

Jólahátíðin er sannkölluð fagnaðarhátíð kristinna manna, því eins og öll dásemdarverk lausnara vors, sem hann gjörði meðan hann dvaldi hjer á jörðunni, eru greinir á sama stofni, sprottin upp af því eina dásemdarverki, holdtekju hans, eins felur þessi hátíð í sjer allan fögnuð kristinna manna, og sjerhver sönn og inndæl gleði lífsins bendir til hennar, sem uppsprettu sinnar. Látum það vera inntak guðrækilegra hugleiðinga vorra á þessari hátíðlegu kvöldstundu, að íhuga fagnaðarefni vort kristinna manna á Jólahátíðinni, og hvernig vjer hljótum að vera sinnaðir, til þess að vjer getum innilega fagnað fæðingu frelsara vors!

Mikið og háleitt er fagnaðarefni vort kristinna manna á þessari hátíð, því það er fæðingarhátíð hans, sem stofnaði guðsríki á jörðunni, en guðsríki er *friðarins* og *kærleikans* ríki. Þegar Jesús fæddist, var að vísu friður í heiminum; en það var ekki sá sanni friður, sem

sprettur af kærleikanum; heimurinn lá í svikulli værð, því hann lá í hinu vonda, og sú þjóðin, sem þóktist hafa sigrað heiminn — jeg meina Rómverjar — var sjálf sigruð af heiminum, hún var sigruð af girndum sínum og tilhnegingum, af guðleysi og munaðarlífi. Jesús kom ekki í heiminn til að hlynna að heimsins friði, heldur segist hann þvert á móti vera kominn að senda eld á jörðu (Lúk. 12, 49), og á öðrum stað segir hann: ætlið ekki, að af minni komu muni friður standa, ekki mun hún friði valda, heldur styrjöldum. Við Jesú komu í heiminn truflaðist heimsins friður, af því Jesús sannfærði heiminn um syndina, rjettlætið og dóminn; en hann færði oss annan æðri frið, frið við guð, og sætti mannkynið við hann með sinni friðþægingu. Það getur ekkert ástand hugsast eymdarfyllra, en að vera ósáttur við heilagan guð, eins og líka að hinu leytinu öll sæla er í því innifalin, að vera sáttur við hann og vita sig honum sameinaðan. Hve eðlilegt það sje mönnunum að vilja hafa frið við guð, sýna fórnir allra fornaldar þjóða og allar þær tilraunir, sem menn hafa gjört til að mýkja með reiði drottins, og bæta fyrir syndir sínar. En þó fundu þeir allt af, að þessir mannlegu viðburðir voru ónógir, þeir fundu til þess, að sannarleg friðþæging varð að koma frá guði sjálfum; og því var þessum tilraunum allt af samfara löngun eptir guð-

legri opinberun, og hjá Gyðingum traust á guðs fyrirheitum. Og guðs fyrirheit brugðust ekki; frá honum kom friðþægingin í fyllingu tímans. Við Jesú komu í heiminn heyrðist sá huggunarfulli boðskapur, að guð hefði velþóknun á oss, mönnunum, og því hefði hann fyrir öndverðu elskað oss í syninum, og af elsku til vor sent hann í heiminn; guð væri ekki einungis heilagur löggjafi og rjettlátur dómari, heldur og eilífur kærleiki og faðir allrar miskunar. Jesús var sýnileg ímynd hins eilífa kærleika, og líf hans og dauði miðaði til að sætta oss við guð, og sameina oss honum í kærleikanum; með sinni heilögu hlýðni við guð sigraði hann heiminn og syndina, og gaf oss þannig kost á að fylgja sjer og verða guðsbörn; í sínu kærleiksfulla hjarta bar hann syndir vorar upp á trjeð, og fullvissaði oss um náð og fyrirgefningu syndanna, þegar vjer tileinkum oss hans rjettlæti með sannri iðran og lifandi trú. Af því að Jesús sætti oss við *guð,* þá sætti hann oss líka við vora eigin *samvizku.* Samvizkan er rödd guðs í manninum; sárar og beiskar eru átölur hennar hjá þeim, sem finnur til synda sinna; en þó er svefn hennar hættulegri hjá hinum, sem ekki finna til þeirra. Jesú eigum vjer að þakka sannan frið og sanna rósemi sálarinnar; og þeir sem honum sameinast í trúnni og kærleikanum, reyna það á sjálfum sjer, að

það er engin fordæming framar yfir þeim, sem eru í Kristó Jesú, og þeir geta hughraustir tekið undir með postulanum og sagt: hver mun ásaka guðs útvalda? guð er sá sem rjettlætir; hver mun fordæma? Kristur er sá sem dáinn er, og það sem meira er, líka upprisinn og er guði til hægri handar og biður fyrir oss. Af því Jesús sætti oss við guð, sætti hann oss einnig við *mennina;* hann elskaði ekki einungis sína allt til enda, heldur og óvini sína og bað þeim líknar og miskunar á krossinum; hann kendi oss, að elska til náungans væri lík hinu æðsta boðorði, elskunni til guðs; hann sagði: nýtt boðorð gef jeg yður, að þjer elskið hvor annan! Og þetta boðorð var nýtt af því það var byggt á nýrri undirstöðu, á guðs kærleika, sem elskaði oss að fyrra bragði, meðan vjer enn þá vorum syndarar; og í þeim kærleika, sem Jesús elskaði oss með, hefur hann ekki einungis sýnt oss, hvernig vjer eigum að elska hvor annan, heldur hefur hann einnig með honum skuldbundið oss til að halda einingu andans í bandi friðarins, með því vjer erum einn líkami og einn andi, eins og vjer einnig erum kallaðir í einni von köllunar vorrar, með því vjer höfum einn drottinn, eina skírn, einn guð og föður allra, sem er yfir öllu, alstaðar og í öllum hlutum. Og hve berlega hefur Páll postuli með þessum orðum tekið fram

ekki einungis samband Jesú Krists við sinn söfnuð, heldur einnig þá blessun, sem þar af leiðir fyrir limi safnaðarins, og þá skuldbindingu sem vjer höfum að elska hvor annan. Jesús er oss jafnan nálægur í kærleikanum, og í honum og fyrir hann er guðs elsku úthelt í vor hjörtu, svo vjer getum sameinast honum í kærleikanum, og elskað hvor annan og fengið að reyna þá huggun og gleði, sem elskunni til guðs og manna er samfara. Af því Jesús sætti oss við guð, sætti hann oss einnig við *náttúruna, við allt, sem oss mætir í þessu lífi, og við sjálfan dauðann.* Hann kendi oss að sjá í náttúrunni og öllum vorum lífskjörum einbera speki og gæzku vors himneska föðurs, sem lætur allt þjena þeim til góðs, sem hann elska, sem gaf oss soninn og gefur oss alla góða hluti með honum. Vjer þurfum nú ei framar að óttast dauðann sem synda hegningu, þegar vjer deyjum í trúnni á Jesúm og samfjelagi við hann, heldur getum vjer skoðað hann sem væran svefn og hvíld, sem lausn frá allri lífsins mæðu og eðlissambandi voru við syndugt mannkyn, sem sendiboða drottins, er leiðir oss til eilífs fagnaðar og friðar; því þess vegna — segir postulinn (Hebr. 2, 14—15) — hlaut Jesús, eins og börnin, að verða hluttakandi í holdi og blóði, svo að hann með sínum dauða gæti svipt yfirráðanda dauðans sínu afli og frelsað þá, sem

af ótta fyrir dauðanum lifðu allan aldur sinn undir ánauðaroki.

Mikið og háleitt er fagnaðarefni vort kristinna manna á þessari hátíð; og hver þekkir þó til hlýtar, eða fær upp talið allar þær velgjörðir, sem guð hefur veitt oss í sendingu sonarins? Getur nokkur komið orðum að því lífi og því ljósi, sem Jesús kveikti í heiminum, og til fulls útlistað alla þá blessun í andlegan og líkamlegan máta, sem frá honum hefur runnið út um heiminn frá kyni til kyns, eina öld eptir aðra? þá blessun, sem nær ekki einungis til þessa lífs heldur og hins ókomna? Þó oss væri gefið að sjá það eymdar ástand, sem mannkynið hefði verið í, hefði Jesús ekki komið í heiminn, og eymd allra þeirra, sem annaðhvort ekki þekkja Jesúm, eða vilja ekki aðhyllast hann; eða þó vjer tækjum saman í eitt alla reynslu hinna mörgu þúsunda, sem um liðnar aldir hafa leitað sjer huggunar og helgunar hjá Jesú, sem hafa lifað og dáið í Jesú nafni, og þó vjer fengjum að heyra alla þá lofgjörð og þakkargjörð, sem á þessari hátíð stígur upp í himininn að hásæti hins eilífa, frá vörum og hjörtum kristinna manna, þá gætum vjer þó ekki til fulls útlistað vort fagnaðarefni, aldrei með orðum tæmt þá fagnaðar uppsprettu, sem Jesú koma í heiminn hefur í sjer fólgna. Þessi uppspretta er eilíf í eðli sínu, og eilífðin ein vinnst til að

leiða fullkomlega í ljós, hve mikið vjer eigum guði að þakka í Jesú Kristó. Nú getum vjer einungis tekið undir með postulanum og sagt: ó, þá dýpt náðarnægðar, speki og þekkingar guðs! hversu óútgrundanlegir eru dómar hans og órekjandi vegir hans!

En hversu mikið og háleitt sem fagnaðarefni vort kristinna manna er á þessari hátíð, getur það þó því að eins vakið hjá oss innilegan fögnuð yfir fæðingu frelsara vors, að vjer meðtökum hann í trúnni, að hjörtu vor komist við af sannindum og dýrmæti þessa fagnaðarboðskapar. Það tjáir ekki að sýna blindum manni birtu sólarinnar, eða fegurð náttúrunnar; hann sjer það ekki og getur því ekki glaðst af því; eins getur heldur ekki sá, sem vantar trúna, glaðst af fæðingu frelsarans, því trúin er auga sálarinnar, og vanti trúna getur ljós guðsorða ekki skinið inn í sálir vorar; að vísu getur skynsamleg hugleiðing greitt götu trúarinnar, en trúna sjálfa fær hún ekki vakið; það getur enginn nema hann, sem er höfundur og fullkomnari trúarinnar; og til hans verðum vjer því að snúa hjörtum vorum, og biðja hann að auka trú vora; og hann mun eflaust bænheyra oss, ef vjer burtrýmum því úr hjörtunum, sem trúnni er til fyrirstöðu, en það er einkanlega *heimselskan* og *sjálfsþóttinn*. Ljósið kom í heiminn, en mennirnir elskuðu myrkrið meir en

ljósið, því verk þeirra voru vond; þeir sem elska myrkrið þrá ekki ljósið, þeir sem elska heiminn þrá ekki Jesúm, og fagna því ekki tilkomu hans; þess vegna segir postulinn: það er án efa mikill leyndardómur *guðhræðslunnar*, að guð er auglýstur í holdinu, og gefur með því til vitundar, að það þurfi guðrækilegt hugarfar til að geta meðtekið þennan leyndardóm með fögnuði og lifandi trú; að til þess að trúin á drottinn vorn geti orðið lifandi, verði hún að samlaga sig kærleikanum og guðelskandi hugarfari. Sá sem er fullur af sjálfsþótta, getur heldur ekki glaðst af fæðingu frelsarans, hann er svo ástfanginn í sínu rjettlæti og sinni speki, að hann þráir hvorki neinn frelsara nje fræðara; hann þykist vera heilbrygður og hafa alls nægtir, en heilir þurfa ekki læknisins við; lærdómurinn um kærleikann og krossinn hefur ekki áhrif á aðra en þá, sem eru andlega volaðir, sem í auðmýkt hjartans finna, að þeir eru náðarþurfar, og að þeir hafa guðs náð í Jesú Kristi allt að þakka. Margt finnst manninum þungskilið, af því hjartað kemst ekki við af því; margt er syndugum manni þungskilið í endurlausnarverkinu, meðan hann lærir ekki að þekkja sjálfan sig, nje finnur til sannleika þessara orða: faðir, jeg hefi syndgað í himininn og fyrir þjer! En sá sem segir þetta af hjarta og fullri alvöru, sá sem kannast við sálarþörf sína og að

hann af sjálfsdáðum ekki getur úr henni bætt, hann þráir að heyra þessi huggunarfullu orð af sannleikans munni: sonur! þjer eru þínar syndir fyrirgefnar! hann tekur fagnandi móti frelsaranum og trúir því, að oss er ekkert annað nafn gefið, sem oss byrjar sáluhólpnum í að verða. Viljir þú því, kristinn maður! innilega geta fagnað fæðingu frelsara þíns, þá bið þú föður þinn á himnum að skapa í þjer hreint hjarta, svo Kristur geti tekið sjer þar bústað með sannleikans og kærleikans anda; bið þú hann að gefa þjer auðmjúkt og barnalegt hugarfar, og halda þjer stöðugt við einfaldleik trúarinnar; þá munt þú fá að reyna, að guð opinberar það smælingjum, sem vitringum var hulið, og að bljúgu og barnalegu hugarfari heyrir guðsríki til; og sannarlega er börnunum eiginlegt að fagna fæðingarhátíð frelsara vors; en, eins og þau fagna hinum fögru ljósum, sem þá eru kveikt í kirkjum og heimahúsum, eins taka guðsbörn fagnandi móti því guðlega ljósi, sem á þessari hátíð upprann heiminum og af hvers fyllingu vjer allir höfum meðtekið náð á náð ofan. Og með því vjer nú allir viljum vera ljóssins börn, þá látum oss alla í auðmýkt hjartans fagna þessu ljósi; látum þennan fögnuð hafa áhrif á vort hugarfar, svo að fæðingarhátíð frelsara vors verði oss andleg endurfæðingarhátíð, til að endurnýjast í anda vors hugskots

og lifa honum, sem fyrir oss er dáinn og upp aptur risinn; þá mun sannleiki hans orða upplýsa vorn skilning og helga vor hjörtu, og hans kærleiki og friður ávallt fylgja oss, svo vjer getum tekið undir með postulanum og sagt: jeg lifi nú ekki framar, heldur lifir Kristur í mjer. Látum oss höndla lífið í Kristi, því lífið í honum er eilíft líf! En þú sem ert vegurinn, sannleikurinn og lífið, taktu þjer bústað í hjörtum vorum með þínum anda, svo að vjer heyrum þjer til, hvort sem vjer lifum eða deyjum, svo að hvorki hið nálæga nje hið ókomna, hvorki líf nje dauði geti skilið oss við þig!

## 4. Á gamlárskveld.

Það er algengt að lífinu frá ruggunni til grafarinnar er líkt við ferðalag, sem allir menn sjeu staddir á til eins og sama staðar; og einnig heilög ritning setur oss lífið opt fyrir sjónir í þessari mynd, og gefur oss um leið þá hugvekju, að vjer sjeum hjer á jörðu einungis ferðamenn, því vort rjetta heimkynni og sanni borgarrjettur sje á himnum. Eptir þessari samlíkingu á lífinu, má álíta aðra eins daga og þennan, sem er ársins síðasti dagur, merkilega hvíldarstaði á lífsleiðinni, þar er oss byrjar að nema staðar með guðrækilegum og einkar aðgætnum huga og hjarta. Vjer skulum líka á þessari

hugleiðingastundu, sem er hin síðasta guðræknisstund vor á þessu ári, virða fyrir oss lífið eins og ferðalag, og setja svo að margir menn byrjuðu ferð saman að fjarlægu takmarki, og að þeim væri heitið mikilli heill og blessan, ef þeir kæmust að takmarkinu á tilteknum tíma. Gjörum enn framar ráð fyrir, að ferðamenn þessir vildu fara leiðar sinnar forsjállega, að þeir byrjuðu ferðina með hyggilegum ráðum, hvar á meðal það væri t. a. m. eitt, að þeir skyldu við og við nema staðar, til að hvíla sig og átta sig á leiðinni; og til að gjöra þeim enn hægara fyrir, þá skyldi einhver af þeim, svo sem áminnandi og ráðleggjandi vinur, brýna fyrir þeim skyldur þeirra, uppörfa þá til að halda áfram ferðinni, og kalla niður yfir þá blessun og fulltyngi drottins. Og setjum nú svo, að ferðamennirnir væru komnir á einn þennan tiltekna hvíldarstað; ímyndum oss, að hinn áminnandi og ráðleggjandi vinur standi upp á meðal þeirra, gangi fram fyrir þá og ávarpi þá þessum orðum.

„Svo höfum vjer þá, bræður mínir! farið enn yfir langan kafla leiðar þeirrar, sem vjer erum allir staddir á, og stefnir að sama miði, og vjer eigum nú margar dagleiðir skemmra að takmarkinu. Horfið nú með mjer glaðir í anda yfir farinn veg, og fagnið yfir því, sem vjer erum komnir áleiðis; fagnið yfir þeim torfærum,

sem þjer eruð sloppnir úr, og yfir þeim hvíldarstað, sem þjer eruð komnir á. Að sönnu höfum vjer átt að berjast við marga örðugleika, en vjer höfum þó sigrað þá til þessa; og þó vjer höfum orðið að stíga margt sporið erfitt og mæðusamt, þá eru nú þau sporin á enda; og það er ánægjusamt að líta yfir liðna daga, þó erfiðir væru, því inndæl er unnin þraut. Enn betur hressandi og endurnærandi reyndist oss líka hvíldartíminn eptir þá dagana, er vjer fórum yfir einhvern erfiðan og hættulegan kafla leiðar vorrar. Þegar þjer stundum urðuð að halda áfram eina dagleið í stormi og óveðri, þá minnist þess, hversu fegnir þjer urðuð umskiptunum, þegar storminum slotaði, skýin greiddust í sundur, og sólin skein aptur í heiði; já, minnist þess, hversu glaðir þjer hjelduð þá áfram ferðinni, hversu bæði sjálfir þjer og allir hlutir í kringum yður fengu eins og nýtt líf og fjör. Sjáið, bræður mínir! þannig skiptist ávallt blítt og strítt á leið vorri, og þannig leiddi opt margfalt meira gott af því, sem vjer kölluðum illt. Það var mæðudagurinn næst á undan, sem gjörði daginn eptir svo gleðilegan, og það sem mest var vert, gjörði oss meðtækilega fyrir gleði hans. Og svona var sjerhver fyrirfarandi þraut og mæða ekki einungis skilyrði fyrir því, að vjer gætum fengið blessanina, heldur líka fagnað af fenginni blessan. En því

er jeg að minna yður einungis á mæðudaga vegarins? Hvers vegna ekki líka á gleðidaga hans? því hversu óteljandi voru ekki þau gæði, hve margfaldar þær unaðsemdir, sem sá ljet oss hlotnast, undir hvers vernd og varatekt vjer förum leiðar vorrar! þakkið drottni, guði vorum, ásamt með mjer, honum, sem hefur gjört alla hluti svo vel við oss, og hefur svo föðurlega leitt oss allt fram á þennan dag"!

þannig talaði hinn áminnandi og ráðleggjandi vinur, og allir ferðamennirnir komust við af mikilleika guðs miskunsemi, og sungu með hræðum hjörtum:

Ó, mikli guð! vjer þökkum þjer,
þjer, mildi guð! vjer syngjum prís;
hver svo sem þú að hátign er!
hver er sem þú í öllu vís!

En vjer erum líka vegfarendur og ferðamenn á þessari jörðu; og þar sem vjer nú erum staddir á vegferð vorri, á þessum ársins síðasta degi, höfum vjer þá minni orsök til að þakka guði, sem ljet oss lifa fram á hann, sem veitti oss náð til að komast á þennan hvíldarstað? Eða eigum vjer einungis með mögli og óánægju að minnast umliðinna mæðutíma, sem vjer að líkindum flesta höfum sjálfir bakað oss með syndum vorum og yfirtroðslum? Skyldum vjer ekki líka minnast gleðistundanna, og með þakklæti viðurkenna, að þær eru þó miklu fleiri en hinir? Enn þá hefur ekkert ár liðið svo, að ekki hafi eptir vetur komið vor; og þó eitt vorið hafi verið miður en annað, þá hefur það þó eigi að síður vermt og lífgað jarðarinnar skaut, og fram leitt brauð og vín af jörðunni. Eptir hvert óveður hefur aptur birt í lopti, og í óveðrinu sjálfu hefur streymt niður til vor blessan og frjófsemi. Jörð guðs er fögur og fríð og verður, svo að segja, að forgarði himinsins fyrir hvern þann, sem fer leiðar sinnar yfir hana með guðrækilegu og þakklátu hjarta. þakkið þess vegna guði, þjer veg-

farendur jarðarinnar! er hann veitti óteljandi velgjörninga við hvert einasta fótmál; og þakkið honum þúsundfalt, þjer borgarar himinsins og játendur Krists! er hann hefur blessað með eilífum og óforgengilegum gæðum sinnar himnesku blessunar fyrir Jesúm Krist. Já, faðir! vjer játum það með þakklátum hjörtum, að þú á umliðnu ári hefur sýnt oss óteljandi vitnisburði um þína föðurlegu náð, að þú hefur ekki einungis blessað oss i jarðnesku tilliti, heldur líka borið umhyggju fyrir friði hjartna vorra, og fyrir vorri eilífu velferð með hinum dýrmætu og heillaríku sannindum trúarinnar. Því hversu margir endurlifnuðu og hresstust í anda af hennar huggunarríku fyrirheitum, mitt i því þeir ætluðu að hníga niður undir þunga þjáninganna! Hversu margir vöknuðu ekki við hennar áminnandi röddu til sáluhjálplegrar íhugunar, mitt í því þeir fóru gálaust leiðar sinnar í gleði og glaum lífsins, og gleymdu hinu ókomna vegna hins nærveranda! Hversu marga útbjó hún ekki á stundu freistinganna með styrkleika, til að vinna hinn fríða sigur dyggðarinnar! Og hversu margir, sem áttu að berjast við vantrú hjartans, áttu ekki því að fagna, að ljós sannleikans bæri birtu á þeirri dimmu leið, og að trúin tók við þeim villuráfandi, og leiddi þá sjer við hönd með hinni sælufullu von eilífs lífs! Þetta játum vjer, himneski faðir! þjer og þínum syni til lofs og dýrðar. En hvað getum vjer þá látið þjer í tje fyrir alla hina óteljandi vitnisburði um þína föðurgæzku umliðið ár? Hvað annað en þakklæti vorra hjartna? Og þú fyrirlítur það ekki, þegar það kemur af hreinu hjarta, og það þrýstir oss til að lifa eptir þínum heilaga vilja. Vjer biðjum þig því að útbúa oss og efla þar til með þínum dýrðarmætti, því

Til þín, til þín vort traust er allt
um tíma og eilífð svo sem nú;
heyr þú vort kvak, bænheyr ávallt!
huga vorn styrk í von og trú!

Svo lofum því þá hvor með öðrum, að votta vorum himneska föður þakklæti vort fyrir umliðna tíð með daglegri iðkun dyggðarinnar framvegis. Að gegna því öllu með trú og dyggð, sem kallan vor í lífinu af oss heimtar; að gæta með alúð í öllum hlutum regluseminnar, sem er móðir margra dyggða og margra unaðsemda; að vera sannsögull og ráðvandur til orða og verka; að taka með hreinskilní málstað fjærverandi manna á móti illgjörnum rógburði; að aptra hinum gjálífa frá að rasa yfir ráð fram; að örfa hinn lata til iðjusemi; að sætta aptur þá, sem ósamlyndi hefur kviknað á milli; að leiðbeina með ástríku hjarta á rjettan veg hinum breiska, og koma honum með ástúð og umburðarlyndi til að sjá að sjer; að fyrirgefa óvinum vorum, og vera vinur vina vorra af öllu hjarta; á heimylinu að vera þeim öllum til ánægju, sem vjer eigum að búa saman við, og efla framför þeirra í öllu góðu með góðri tilsögn og góðu eptirdæmi — sjáið, þetta er sú guðhræðslan, sem guði líkar, það er einmitt sú dyggðin, sem gjörir oss líkasta honum, er sagði: lærið af mjer, því jeg er hógvær og af hjarta lítillátur!

Guð gefi þá að það ár, sem nú fer í hönd, megi verða auðugt af slíkum dyggðum eptir oss; og það getur það orðið, ef vjer gefum oss honum á vald, sem var hógvær og af hjarta lítillátur, sem var í guðs mynd, en lítillækkaði þó sjálfan sig, til að kenna oss veg vorrar sáluhjálpar. Hann er sá hinn áminnandi og ráðleggjandi vinur vor, sem bezt getur kennt oss að ganga veg dyggðarinnar að takmarki farsældarinnar. Göngum þess vegna til þessa vors himneska vinar, og lærum að lifa í þeirri trú, að guð sje opinberaður í holdinu, synduga menn sáluhólpna að gjöra. Sú trú er byggð á óbifanlegum grundvelli, á eilífum fyrirheitum guðs og óyggjandi orðum spámannanna. Hún er sá sigur, sem heiminn sigrar, megnug að veita mótstöðu á hinnm vonda degí, að ónýta öll djöfulsins vjelabrögð, og útstökkva öll hans eldlegu skeyti. Hún er vor friður og fögnuður í lífinu, huggun og athvarf í dauðanum, rjettlæti og djörfung í dóminum. Svo sem vor einka

frelsari frá synd, dauða og satans valdi, er hún vor upprisa, eilíft líf og sáluhjálp. Hún er eins og það hús, sem byggt er á kletti; því haggar ekkert steypiregn, því eyðir enginn tímans straumur, því hrindir ekkert helvítanna ofurefli. Sá á þar fyrir að ráða, sem allt vald er gefið á himni og á jörðu, drottinn dýrðarinnar, sjálfur guð yfir öllu blessaður að eilífu. Æ, göngum þá til hans, þessa vors himneska vinar, sem hefur orð hins eilífa lífsins, sem í dag og á morgun og um alla eilífð er og verður hinn sami. Skundum til guðs eingetins og elskulega sonar, sem í fyllingu tímans fæddist af kvinnu, kenndi oss veg sáluhjálparinnar, dó fyrir syndir vorar, uppreis oss til rjettlætingar, situr nú við guðs föðurs hægri hönd og biður fyrir oss. Flýtum oss til hans, hins náðuga og miskunsama herra, til að finna þann frið, sem heimurinn þekkir ekki, þá gleði, sem yfirgengur allan skilning, að mega svala sjer úr náðarbikar hins eilífa, sem aldrei tæmist, og drekka úr þeim vizkubrunni, sem sprettur upp til eilífs lífs, og geta svo ár út og ár inn hvílst í miskunarskauti hins alvalda, sem með sínum heilaga anda hugsvalar sálum vorum á hinu háleita og lífkröptuga orði um synda fyrirgefningu og sáluhjálp. Þjer vegfarendur jarðarinnar og borgarar himinsins, gangið í trúnni á guð, opinberaðan í mannlegu holdi! Byrjið með nýju ári nýja ferð í nýju ljósi trúarinnar! Sjáið, hinn alvaldi leiðtogi er hjer mitt á meðal vor, hafandi huggun og gleði, frið og blessan handa hverjum þeim, sem til hans kemur! Flýtið yður til hans, til að feta með honum friðarins veg; fyrir það eina drottinn lætur allri blessan á lífsins leið, og lífs þegar allir kraptar hnigna, viður lífdaga skundað skeið að skautum yðar niðurrigna!



